# Jóachim Fridrik Horsters

# Agrip

af

# Historium

# Heilagrar Ritningar,

Med

# Vidbætir,

Sem inniheldur hid helsta til hefur borid, Guds søfnudum vidkomandi frá því Postular Drottins lifdu fram á vora daga.

---

Selst óinnbundid á Prentp. 72 ß. Silfur-Mynt.

---

Videyar Klaustri, 1837.
Prentad á Forlag Sekret. O. M. Stephensens, af Bókþryckjara Helga Helgasyni.

# Innihaldid.

## Fjórði Parturinn, um þá fyrstu hundrað ára øld eptir Kristí Fæðíng.



## Viðbætir.

# Fyrsti Parturinn,

Innihindur hid merkilegasta, er skédi á þeim fyrstu tveim þúsund árum eptir Heimsins sköpun.

## 1. Kapítuli,

Sétur Forfedranna, er lifdu á þeirri fyrstu þúsund ára öld.

1. Ur hvada bók eru þessar frásagnir teknar?

Ur Bibliunni edur því heilaga Guds ordi og skíra þær frá því er hendt hefur Forfedur vora, einna helst Gydínga, hverja Gud útvaldi sér til eiginlegs fólks. (5 Mósis bókar 4. Kap.)

2. Er þér nockurt gagn, ad vita af þeim?

Já, þegar eg vil breyta eptir dæmum hinna lastvøru, med því ad óttast Drottinn og fordast hid illa. Hvar til Gud gefi mér síns heilága Anda nád, fyrir Jesúm Kristum! (Ordsqv. 6. 4. Kap.)

3. Hversu leingi hafdi heimur þessi stadid, ádur enn Kristur fæddist?

Hér um fjøgur þúsund ár; hvert tíma skeid kallast hid Gamla Testament. Í þeirri fyrstu þúsund ára øld á eg ad adgjæta fyrst Skøpunar-verkid og syndafallid; þar nærst hinar gódu og vondu kynqvíslir.

4. Hver hefir skapad alla hluti?

Þeim þríeina Gudi, sem sjálfur hefur verid frá eilífd og án upphafs, þócknadist á sex døgum, alleinasta med sínu ordi, ad skapa af alls eingu himin og jørd med því øllu, sem þar er inni; hvar af hans speki, gædska og almætti

alla vega lætur sig í ljósi. (1 Mós. b. 1.)

5. Skapadi Gud Mannkynid af nockru efni?

Já, hann skapadi þann mann Adam af jardar leiri, og blés lífsins anda í hans nasir; þar næst skapadi hann þá qvinnu Evu af einu mannsins rif-beini. Þessi tvö vóru prýdd Guds eigin mind, og þar fyrir vóru þau vís, heiløg, heilbrygd og ódaudleg, og kallast þetta þeirra ásigkomulag saklevsis-stand. (1 Mós. b. 2. Eph. 4. Cap.)

6. Hvad lærum vér af Skøpunar-verkinu?

Ad hinn alvaldi Gud sé nærsta mildi-ríkur mannlegu kyni; og þetta skuldbindi oss þess framar ad elska hann, ad hlýda og ad treysta honum. Oss byrjar einnig vera lítilátum og samhuga. (Préd. 12. Cap.)

7. Af hverju máttu Adam og Eva taka sína fædu?

Þegar þau, eptir skipan Drottins, yrktu hann yndislega aldingard Paradís, leifdi hann þeim ad eta af allskyns ávøxtum, nema skilníngs trésins, og vid ad neyta þess ávaxtar lagdi Gud daudastraff; því madur er vissulega sínum Gudi og velgjørara skyldur ad veita alla hlýdni. (1 Mós. 3. Cap.)

8. Vóru þau þá sínum Skapara hlýdug?

Nei; því midur! þau létu sig ginna af einum høggormi, í hvern djøfullinn hafdi farid, sem sagdi vid Evu, ad þau kynnu ad ósekju eta þar af, og mundu þau þá ad vitsku Gudi fullkomlega lík verda. Þess vegna efudust þau um Guds ord og hótanir, urdu drambsøm og óhlýdin, og átu sídan af þeim forbodna áverti. (1 Mós. b. 3.)

9. Urdu þau þá skynugri, eptir því sem høggormurinn hafdi ádur sagt þeim?

Þau urdu slæg til hins illa og

gódra-hluta vankunnandi, svo jafnvel þeinktu, ad gjætu fallid sig fyrir Gudi. Þau mistu þá aldeilis hans dýrdarlega mind og urdu djøflinum lík. (1 Mós. 3.)

10. Lagdi Drottinn á þau straff nockud?

Sannarlega. Eva skyldi fæda børn sín med sótt, og Adam átti í sveita síns andlitis abla sér næringar, allt þángad til þau fyrir daudann yrdu ad jørd aptur. Á líkann hátt fædumst vér, þeirra nidjar, med inngróinni eptirlángan til ad syndga (sem kallast erfda-synd) og erum undirlagdir ýmislegum hørmúngum, sjukdómum og dauda: Illt tré getur ei borid gódann ávøxt. (Eph. 2. Matth. 7. Cap.)

11. Hvad ætti synda-fallid minna oss á?

Af því lærum vér, ad þad illa er innkomid í heiminn þess vegna, ad vorir fyrstu foreldrar misbrúkudu sinn frívilja; þetta skyldi

og vekja minni fyrir oss, ad hlýda Gudi í øllum hlutum og ad forðast vors óvinar Satans sviksamar tillockanir. (1 Pét. 5.)

12. Sætti þessi svikari engu straffi?

Jú, Gud hét ad qvinnunnar sædi skyldi sundurmerja høggormsins høfud; þad er: ad Guds Son skyldi madur verda, fædast af meyu, svipta djøfulinn sinni makt og straffa hann. Þetta var sá fyrsti nádar bodskapur, sem uppfylltur er í Jesú Kristó. (1 Mós. b. 3. Ebr. 2. Cap.)

13. Trúdu forfedurnir þessum gledilega nádar bodskap?

Já, vissulega! og Eva jafnvel ætladi ad sinn frumgetni Son Cain væri sá fyrirheitni heimsins Endurlausnari; margir einninn af forfedrunum framm báru Gudi sín offur í trúnni á þad sama qvinnunnar sædi. (1 Mós. b. 4. Ebr. 11.)

14. Um hvern lesum vér þetta sérílagi?

Um Abel, annann son Adams, hvers offur, vegna hans trúar, Drottni vel þóknadist. Vér ættum leita þeirrar nádar (hjá Gudi), ad vér kynnum feta í fótspor þessara forfedra, og setja einúngis vora von til Guds miskunsemdar í Jesú vorum Herra. (1 Pét. 1. Cap.)

15. Upptel forfedurnar, sem lifdu á þeirri fyrstu þúsúnd ára øld?

Adam, Seth, Enos, Kenan, Mahalaleel, Jared, Enok, Methuselah, og Lameck hinn gódi. Øllum þessum forfedrum gat Adam sagt frá synda fallinu, því hann vard 930 ára gamall. Methúselah lifdi leingur, en hver hinna, nefnilega: í 969 ár, og deydi á-sama árt og synda=flódid kom. (1 Mós. b. 5. Cap.)

16. Framdu forfedurnir nockra opinbera Guds þjónustu?

Med hana byrjudu þeir þá Enos var á døgum, til ad vidhalda réttri Guds þecking sín á milli og þess betur ad kunna adgreina þá gódu frá þeim ógudlegu, sem einnig med því móti feingu sína advørun. (1 Mós. b. 5.)

17. Lifdi nockur um þær mundir, sem vegna gudlegs lífernis, er sérílagi nafnkéndur?

Enok Jaredsson, sem sagdi fyrir þad straff, er gánga mundi yfir þá ógudlegu, og hann lét eptir sig þann ágjæta ordstýr, ad hann hefdi géngid á vegum Drottins, og því vard hann lifandi til himins uppnuminn, árum eptir skøpun veraldar 987. Sérhverri trúadri og gudhræddri sálu til uppørfunar og eptirbreytnis.

18. Vóru þá margir ógudlegir uppi?

Já, því midur! allt frá því Cain var á døgum, sem misunnti sínum bródur Abel Drottins vináttu, og þess vegna myrdti

hann, án þess ad hafa Guds advørun í ferſku minni; þar eptir neitadi hann fyrſt ſynd ſinni, og ørvænti ſídan þess, hún kynni ſér fyrirgéfaſt; ad hverju gjørdu hann fór lengra búrt uppí landid og gat afkomendur, ſem vegna þeirra vondſku kølluduſt alleina mannanna børn. (1 Móſ. b. 4. og 6. Cap.)

19. Var nockur af hans afkomendum ſem ødrum framar er illa ræmdur?

Lamech hinn illi, ſem ei einaſta tók ſér tvær konur í ſenn, heldur og ſló í hel tvær manneſkjur. Illmenni uppala, ſkjaldan edur aldrei, gudhrædd børn, heldur eru þessum miklu framar til áſteitíngar. (1 Móſ. 4.)

20. Hvada vidvørun getur þú tekid þér af þessu?

Eg hverki á né má halda áfram í ſyndinni, heldur ſtrax ſtanda móti þeim fyrſtu lockunum til

og synda-flódid, þar nærst mann-anna adskilnadur og vondt fram-ferdi.

23. Vildu þeir ógudlegu ei betra sitt liferni?

Nei, Gud gaf þeim ad sønnu stórt hundrad ára frest til yfir-bótar, en þeir misbrúkudu hans lánglundar ged og lifdu í óhófi og lauslæti, undirþrycktu adra og høfdust ad hvad rángt er. (1 Mós. b. 6.)

24. Gøgnudu þá eckért eptirdæmi hinna, sem réttskickadir vóru?

Yfir því var ad klaga, ad marg-ir af þeim, sem Guds børn nefnd-ust, létu sig afvega leida, og med sínu fráfalli ángrudu þá fáu gud-hræddu, sem sífeldlega tøludu fyr-ir þeim um ydran og yfirbót. (1 Mós. b. 6.)

25. Hvad ályktadi þá Drottinn?

Hann vildi med einu vatns-flódi fullkomlega afmá þá af jørd-

unni. Þetta má sannfæra oss þar um, hversu syndin leidi eptir sér ólucku yfir þá, jafnvel í þessum heimi, sem halda áfram í vantrú og gudleysi. (1 Mós. b. 6. Ebr. 10.)

26. Mun ei hætt vid, ad þeir trúudu, med þessu móti, hafi mátt tortýnast, ásamt þeim ógudlegu?

Drottinn kalladi hina til sín fyrir tímanlegann dauda, ádur enn þessi undur áduttu, ad frá teknum þeim réttláta Nóa, hverjum Gud skipadi ad smída eina stóra ørk, í hverri hann ásamt sonum sínum Sem, Cham og Japhet, einnig konu sinni og sona konum, kynni frelsast. Hér ad auk urdu nockur dýr af sérhverri tegund vardveitt í ørkinni. (1 Mós. b. 7.)

27. Med hverjum hætti kom synda-flódid?

Þad ár 1656 lét sá réttláti Gud sífelldlega rigna í fjørutígir daga

og nætur, svo vatnid var 15 álna djúpt yfir þeim hærstu fjøllum, og allir þverúdar fullir drucknudu: og jørdin vard ei fyllilega þur, fyrr enn ad ári lidnu. (1 Mós. b. 7. og 8. Cap.)

28. Gjørdi þetta flód nockurn skada?

Já, jørdin vard midur ávaxtarsøm enn ádur, og þeir, sem fæddust eptir flódid, lifdu ei ad helmíngi svo leingi, sem hinir fyrri forfedur. (1 Mós. b. 5. og 11.)

29. Þurfum vér ad qvída hér eptir fyrir ødru sliku synda = flódi?

Nei, þegar Nói offradi Gudi og þackadi honum fyrir audsýnda varatekt yfir sér og sínum varnadi, þá gaf vor hinn þolinnmódi Fadir oss regn = bogann, til eins merkis, ad eckért þvílíkt flód koma skyldi, sem allstadar í senn yfirgángi. Og er þad hans myskun ad þacka, en ei mannanna gódverkum. (1 Mós. 9.)

30. Hvad á allt þetta kénna oss?

Ad eins og Drottinn hótar og vissulega straffar hina ydrunarlausu, svo vardveitir hann þá frómu og myskunar þeim, já, sparar leingi þá vondu vegna sinnar myskunar, fyrir Kristum. (2 Pét. 3.)

31. Hendti Nóa nockur ávirding?

Já, hann plantadi víngard, og eitt sinn drack hann ofmikid vín, svo hann vard druckinn og lá nakinn. Hans son Cham rausadi hér um vid brædur sína, sem gengu øfugir inn til síns fødur, og þøktu hann klædum; hversvegna Nói, þegar hann vaknadi, formælti Cham og syni hans Canaan, er hér vid var ridinn, en blessadi Sem og Japhet. Þess skyldi børnin minnast ad heidra sína foreldra, og draga ei gis ad þeim, þó þeim verdi eitthvad áfátt. (1 Mós. 9.)

32. Géta ofdrykkju menn réttilega afsak-
ad sig med Nóa eptirdæmi?

Vegna hans dæmis hafa þeir enga afsøkun; því Nóa hendti slíkt af breiskleika, en ei vegna ávana edur illgyrnis syndar. Afsirsjónir gódra manna eru ritadar til vidvørunar, en ei, ad menn breyti eptir þeim. (Jak. 5. Cap.)

33. Vard hid illa upprætt med synda-flódinu?

Nei, Gud nádi slíkt! eptirkomendurnir urdu vondir á ný, og hvad meira er, ad inn til þessa dags láta flestir vondt hjarta vid sig ráda og óttast ei þann góda Gud eins og vera ber. (1 Mós. 8.)

34. Hver af forfedrunum lifdi lengst
á þessari øld?

Nói, sem vard 950 ára gamall, sínum eptirkomurum til fullvissu um synda-flódid, og deydi hann tveim árum fyrr enn Abraham fæddist. Sem, hvern sumir meina verid hafi Melkizedek, deydi þá

Abraham var 150 ára, og Eber, af hverjum gydíngarnir kølludust Ebreskir, deydi fjúrum árum eptir andlát Abrahams. (1 Mós. 11.)

35. Hvada starf tóku nockrir sér fyrir hendur, um þad leiti Peleg var á døgum?

Þeir tóku sér fyrir ad smída einn turn, Babel, en Drottinn vilti þeirra túngumál, svo sá eini skildi ei þann annann; þess vegna hlutu þeir adskiljast og útdreifdust um øll lønd. (1 Mós. 11.)

36. Hvørsu hegdudu þeir sér sídan?

Margir uppbygdu stadi og undirþvíngudu adra, en flestir, einkum Cham, og Japhets afspreingi, féllu einn tíma eptir annann til afguda dýrkunar. (1 Mós. 10.)

37. Hvad sjáum vér hér af?

Vér sjáum hér af makt Drottins, sem getur gjørt mannanna áform ad engu. Hér af meigum vér einninn draga þá áminning,

ad vér látum oss betur til hjarta gánga Guds hegníngar. (1 Jer. 25. Cap.)

38. Héldu Sems nidjar sér stødugléga vid Gud?

Nei, þeir féllu einninn frá honúm og þjónudu framandi gudum, einkum á þeim tímum Thara lifdi. Þess vegna er rádlegast gódum mønnum ad fordast og flýa nágaungula umgengni vondra manna, því hjarta mannsins er yfirmáta svikult. (Jós. 24.)

39. Høfdu menn Guds ord ritád sín á millum, á þessari fyrstu tvø þúsund ára øld?

Nei, þeir gømlu fedur kénndu sínu heima fólki Guds vilja munnlega. En midt á þeirri þridju þúsund ára øld lét Drottinn Móisen byrja á því, ad skrifa Biblíuna, á þeim tímum Guds opinber þjónustugjørd var á vissann fót sett í eydimørkinni. (2 Mós. 19.)

40. Hvar af veitstu ad Biblian sé Guds heilaga ord?

Vegna þess hún kénnir mér fullkomlega góðann veg til sáluhjálparinnar, og lærdómurinn er stadfestur med stórum jardteiknum, einnig vissum spádómum, sem uppfylltir eru. En einkanlega vitnar heilagur Andi í þeirra hjørtum, sem hlýda og breyta eptir ordinu, ad það sé guddómlegt. (Ps. 19. Jóh. 17.)

---

## Annar Parturinn,

Inniheldur þá þridju þúsund ára tíd eptir Sköpunina.

41. Hvad er helzt ád athuga, af því til hefur borid á þessum þúsund árum?

Fyrst skulum vér géfa gjætur ad forfedrunum, er lifdu á fyrra

helmíngi þessarar þridju þúsund ára aldar; þar næst ad innleidslu Israels-fólks í Canaans land, og sídast ad þeirra dómurum og þremur fyrstu einvalds Konúngum.

## 3. Kapituli,

I hverjum getid verdur forfedranna, er lifdu á fyrra helmíngi þessarar þridju þúsund ára aldar.

42. Hverjir voru þessir forfedur?

Abraham, Isaak, Jacob, Jóseph. Þessa virdir Drottinn þeirrar æru, ad hann kallar sig Abrahams, Isaaks og Jacobs Gud. (2 Mós. 3.)

43. Seig mér: hvad skipadi Gud Abraham?

Þegar hans fadir deydi, árid 2083 mátti hann, sakir afguda

dýrkunar, reisa burt frá ættfólki sínu; en Drottinn hét honum þar hjá, ad hans afspreingi skyldi verda svo margt, ad ei yrdi tølu á komid, og fá til eignar hid ávartarsama Canaans land, einninn skyldi af hans sædi fædast heimsins Endurlausnari. (1 Mós. 12.)

44. Trúdi Abraham þessu fyrirheiti?

Já, þar uppá reiddi hann sig, jafnvel þó hann um lánga tíma ætti engin børn vid konu sinni Sara. Þó sá hann í trúnni Jesú tilkomu dag fyrirfram, og vard gladur vid. Þessi trú var honum til réttlætis reiknud, og hann nefndist vinur Guds. Þar eptir skipadi Drottinn, ad Abraham og hans afqvæmi skyldi umskérast, til stadfestu þeirra trúar og Guds nádar sáttmála vid þá. (1 Mós. 15. og 17. Jóh. 8. Róm. 4. Cap.)

45. Átti hann ei einn bródur=son?

Jú, Loth, hvern Abraham frelsadi frá hans fjand=mønnum og hlaut þess vegna blessan af þeim Guds kénnimanni og Konúngi Melkizedek, hver ed var ein fyrirmindan uppá vorn Frelsara Jesúm. (1 Mós. 14. Ebr. 7. Cap.)

46. Frá hvada óhamíngju frelsadist Loth þar eptir?

Tveir Englar færdu hann med konu og dætrum frá Sódóma, fyrr enn Gud lét rigna eldi og brennisteini yfir þá ógudlegu, sem bjuggu í þessum og fleiri stødum. En kona hans, sem, mót því Drottinn hafdi bannad, leit til baka á veiginum, vard ad einum salt=stólpa. Hvar af vér lærum, ad Gud hefur nóg rád til ad straffa athugalausa synd=ara, og undír eins nóg medøl ad frelsa hina gudhræddu. (1 Mós. 19.)

ad nockru leiti og þó einna helzt, sú grugga truarinnar fullvissa um þad, ad þeir væru í Guds nádar sáttmála innteknir, og þeirra Endurlausnari mundi koma. Gud géfi mér og sérhverjum ødrum nád sína til þess, ad breyta eptir þessum Guds mønnum, og vid þetta hugga oss í vorum útlendíngskap. (Ebr. 11.)

52. Hvad hétu Jacobs Synir?

Rúben, Símeon, Leví, Júda, Issaskar, Sebúlon, Dan, Naphtali, Gad, Asser, Jóseph, Benjamín; af þessum eru þær 12 Israels kyn=qvíslir komnar. (1 Mós. 46.)

53. Hvad er adgætsluverdt um Leví og Júda?

Af Leví ættqvísl skyldu takast Prestarnir og helgidómsins þénarar, sem kølludust Levítar. Þess vegna erfdu Jósephs synir Ephraim og Manasse, í Leví og

þeirra fødur stad, hver sinn part af Canaans landi. Af Júda hafa Júdarnir, edur Gydingar sitt nafn og til hans hafdi Messías eda Kristur sína ætt ad rekja eptir þeirri manndómlegu náttúru. (1 Mós. 49.)

54. Seig mér hvad þú veitst um Jóseph!

Sakir þeirrar elsku, er Fadir hans hafdi á honum, og þeirra drauma, er hann hafdi um sína upphefd, høtudu hann hans eldri brædur, og seldu hann loksins, svo hann vard þræll í Egyptalandi hjá Pótíphar, Konúngsins dróttseta, hvers kona vildi locka Jóseph til saurlífis, og þar hann vildi ecki falla í synd medur henni, fèck hún med sínum følskum áløgunum komid því til vegar, ad honum var kastad í myrkva-stofu. Þannig leita lags hinir illgjørnu ad koma gódum mønnum í synd og ógjæfu. (1 Mós. 37. 39. Cap.)

55. Hvenær komst hann úr þessu fángelsi?

Tveim árum sídar, þá Gud veitti honum vísdóm til þess ad ráda Kóngs Pharaonis draum, um þau sjø ávaxtarsømu og sjø hardindis ár. Ad hverju gjørdu, Kóngurinn setti hann Herra yfir allt Egyptaland; en Jósepþ safnadi yfirfljótanlegu korni á þeim gódu árum, og lét þar eptir Fødur sinn, med øllum hans varnadi, koma ofan til sín, og veitti honum og hyski hans uppheldi í landinu Gósen. Af ádur søgdu eigum vér áfyfæst til þess, í medlæti og mótlæti ad óttast Gud og ei styggja hann fyrir nockurn veraldar munad edur ábata; þá hjálpumst vér, þegar hans tími kémur. (1 Mós. 41.)

56. Var nockur dugandis mann í ødrum stødum ad finna?

Já, þann réttláta Job, sem Satan fékk leifi til, ad firra al-

eigu og børnum, einnig slá hans líkama með kaunum; ofan á hvað bættist, að vinir hans skulduðu hann fyrir guðleysi. Þennann kross bar hann í fyrstu með þolinmæði, en formælti þar eptir sínum fæðíngar degi og áleit sig síknann saka. (Jobs. 2. til 4. og 7. Cap.)

57. Hvör urðu endalok þessarar freistni?

Þegar Guð hafði sannfært Job, þá afbað hann sína synd, og fékk síðan meiri gjæði af hendi Drottins, enn hann hafði áður þáð. Þess vegna eigum vér biðja Guð, að hann á tíma freistíngarinnar forði oss við falli, og treista honum til þess, að hann láti sínum börnum sérhvað snúast til sáluhjálplegrar endalyktar. (Job. 42.)

58. Hvörsu gékk fyrir Gyðíngum, eptir það Jóseph var látinn?

Þeirra afkomendur fjölguðu svo stórum, að þeim nýa Kon-

úngi stód ótti af þeim, hvers vegna hann uppálagdi þeim þúngt erfidi og skipadi loksins ad dreckja þeirra svein-børnum. Þannig misgrunar illur madur sinn saklausann náúnga, og leitast vid ad niduþryckja honum. (2 Mós. b. 1. Cap.)

59. Hvert barn vard med undarlegum hætti frelsad?

Móses, hvers módir, sakir ótta, lagdi hann í einn kistil í sefid vid fljóts backann, en Gud hagadi því svo, ad Kóngsins dóttir, sem þángad kom til ad bada sig, tók hann upp og lét sídan uppala. Þá hann var frumvaxta, skeytti hann eckért um yfirlæti, er fram fór i Kóngsins gardi, heldur fyrir trúna fór burt þadan til sinna undirþrycktu brædra, og drap þar einn grimdarfullann Egyptskann mann, og mátti þess vegna ríma ríkid. (2 Mós. 2.)

60. Hvad kunnum vér taka oss af þessu til íhugunar?

Eg sje af þessu, ad þá neydin þyngst áliggur, hljóta jafnvel fjandmennirnir, vegna Guds tilhlutunar, þéna hans børnum, hver ed í vegsemd og vansemd halda sér fast vid hans fyrirheit. Þess er hér ad géta, ad dráp þess Egyptska var vandlætíngar og manndóms verk af Móyse framid, sem ei er í rit fært til þess, ad vér breytum eptir því, heldur vil eg í hans trú honum eptirfylgja. (Ebr. 11. Cap.)



## 4. Kapítuli,

### Um innleidslu Israels fólks í Canaans land.

61. A hverjum tíma frelsadi Gud sitt fólk frá Egyptalands þrældómi?

Þegar þad af alvøru hrópadi til

hans, lét hann Mósen, fara til baka og óska af Pharaóni ad þad mætti reisa burt úr Egyptalandi. En þessi Kóníngur var svo forherdtur, ad Gud vard senda tíu plágur yfir hann. Ad vísu hét hann því vid hverja plágu fyrir sig, ad géfa Gydíngum fararleifi, en þá neydin var hjálidin, tók hann aptur sín heitord. (2 Mós. 3. 8. 10. Cap.)

62. A hvad skal þetta minna oss?

Ad vér í øllu mótlæti voru leitum hjálpar hjá Drottni, sem án efa myskunar sig yfir sín børn, og frelsar þau á hentugri tíd. Vér eigum einnig audmýkja oss undir voldugа Guds hønd, þá hann typtar oss syndanna vegna. (1 Pét. 5.)

63. Hver var hin sídasta plága?

Um midnætti urdu allir frumburdir Egyptskra deyddir af einum Engli. Í sama mund neytti

Israels fólk Páska = Lambsins, hvers blódi, eptir Guds skipan, Gydíngar rjódrudu á sína dyru-stafi, svo mord = engillinn þeckti þeirra hús og gengi framm hjá þeim. Þetta Lamb var fyrir-myndan uppá þann þolinmóda Jesúm, fyrir hvers blóduganu dauda vér erum forlíktir vid Gud og frá djøflinum frelsadir. (2 Mós. 12. 1 Corinth. 5. Cap.)

64. Lét Pharaó þá loksins burt fara?

Já, i mesta flýtir, þad ár 2513. Og søkti þó eptir þeim sídar á þeirra reisu, en Drottinn sund-urskipti því rauda hafi, svo Israels fólk gèck þurrum fótum þar í gégnum, en Kóngurinn druckn-adi, med øllu lidi sínu. Svo ill-ann enda fær þvermódskan! (2 Mós. 14.)

65. Med hverju móti vísadi Gud þeim veginn á reisunni?

Drottinn gèck sjálfur undan

þeim um daga í einum ský-stólpa, ad seigja þeim til vegar, en um nætur í einum eld-stólpa, er lýsti fyrir þeim, svo þeir gátu haldid áfram ferdinni dag og nótt. Stólpinn hóf sig upp, þá þeir skyldu ferdast, og geck nidur, þegar þeir áttu kyrru fyrir ad halda. Ur þessu skýi taladi Gud til fólksins leidtoga, sem var Móses, og þadann skaut hann skelk í brjóst þeirra fjandmønnum. (2 Mós. 13. 14. Cap.)

66. Hvad bar til vid fjallid Sinai?

Gud byrti Gydíngum þar þau Tíu Bodord, sem kallast sida løgmál, og ritadi þau sjálfur á tvær stein-tøblur. Hann gaf þeim einnig dóma løgmálid og kyrkju sida løgmálid. (2 Mós. 20. til 31. Cap.)

67. Hvernig var helgidómurinn adgreindur?

Í þrjá parta. Hid innsta af helgidóminum kalladist hid allra-

helgasta, hvar inni stód sáttmáls örkin, hverrar lok af gulli, med tveim englum yfir, nefndist nádar-stóll. Midparturinn nefndist hid heilaga, hvar reikelsis altarid stód; og hinn fremsti partur hét forgardur, hvar á hverju qvøldi og morgni var offrad einu lambi. (2 Mós. 25. 27. Cap.)

68. Hvad þýddu offur dýrin?

Þau fyrirmyndudu vors Endurlausnara fullkomid offur á krossinum, med hverju allar heimsins syndir urdu forlíkadar. Nádarstóllinn var einnig fyrirmyndan uppá hann, fyrir hvern alleina vér myskun ødlumst hjá Gudi. Þetta ætti upphvetja oss til ad þacka Drottni, sem fyrir Jesú híngadkomu hefur uppfyllt allar fyrirmyndanir, svo vér nú audveldlega kunnum þjóna hónum í anda og sannleika. (Ebr. 9. Jóh. 4.)

69. Leid Israels fólk skort á sínu lífs uppheldi, þann tíd, þad ferdadist í eydimørkunni?

Nei, Drottinn gaf þeim daglega Manna af himnum fyrir braud, sem leit út eins og hvítt fræ og smackadi sem hunángs kaka. Þá neydin adþrýsti, feingu þeir vatn af klettunum. Þeirra klædi og skór eldtust ei né slitnudu allann þann tíma. Þó møgludu þeir jafnann, þegar skort høfdu einhvers, og þar á ofan blótudu gullkálf nockurn hjá fjallinu Sínaí. Hér af sjest, hversu lítt menn kannast vid Guds velgjørnínga, og hversu hann þar á móti er mikillrar þolinmædi, jafnvel í því ad vidhalda þeim. (2 Mós. b. 16. 17. Cap. 1 Cor. 10. Cap.)

70. Glutu þeir þó ei í 40 ár reisa um í eydimørkunni?

Ad vísu, og orsakadist þar af,

ad þeir mögludu, og vantreystu því, Gud mundi géta gefid þeim sigur á þeim hardsnúnu Canaans innbyggendum, þar hann þó ádur hafdi ad velli lagt marga af þeirra óvinum. Þess vegna þeir öldrudu og vantrúudu Gydíngar sættu því straffi, ad þeir skyldu deya í eydimörkunni. (2 Mós. 17. og 4 Mós. 14.)

71. Seig mér nockud frá því stóra upphlaupi?

Kore og fleyrum medal Levítanna míslíkadi þad, ad Aaron, Móysis bródir, var ordinn hinn ypparsti kénnimadur, og gjördu þess vegna uppreist; sakir hvers Gud lét jördina uppsvelgja þá lifandi; og med því nockrir fleyri, eptir hinna afgáng, mögludu enn nú, lét Gud Aaronis staf blómgast á einni nóttu, svo hann bar fullvarin mandel. (4 Mós. 16. 17. Cap.)

72. Komu þeir Móses og Aaron inn í Canaans land?

Nei, því þeir vegna vantrúar høfdu ei helgad Drottinn fyrir Israels børnum, þegar þau þráttudu vid vatnid í Kades; hvad ed vekja skyldi minni fyrir oss, ad vera stadføstum í trúnni og framsýninni, ad vér ei ad sídustu missum hin eilífu gjædi, vér leingi høfum leitad eptir; vér sjáum og hér af, ad hjá Gudi er eckért manngreinar álit. (4 Mós. 26. 27. Cap.)

73. Møgladi ecki Israels fólk þar þad daglega skyldi neyta himna braudsins?

Ad vísu; þessi daglega fæda misþóknadist þeim loksins; þar fyrir sendi Drottinn glóandi høggormna medal þeirra, og í fyrstu dóu þeir, hverja þessir ormar stúngu. Þar eptir lét Gud Mósen reisa upp eyr-orm, svo þeir hann litu, héldu lífinu; þessi eyr-orm-

ur var fyrirmyndan Kristí kross-festingar. (4 Mós. 21. Jóh. 3.)

74. J hvada stór-synd féllu þeir eptir þetta?

Þeir drýgdu hóranir med dætrum Móabítanna og tilbádu þeirra afgud, hvers vegna margir mistu lífid. En þegar Presturinn Phineas af gudlegri vandlæting rak í gégn tvær lauslátar manneskjur, þá stilltist plágan. (4 Mós. b. 25.)

75. Ödludust þá Gydingar loksins þad fyrirheitna land?

Þeir inntóku þad med skörpum sverds eggjum undir her-stjórn Jósúæ, sem skipti landinu millum þeirra. Af þessu sjest, ad Gud vissulega lætur þad framkoma, sem hann hefur heitid, jafnvel þó sýnist, hann dragi sama leingi undan. (Jós. 12. og 13. Cap.)

76. Skédu jardteikn nockur um sömu mundir?

Já, ýmisleg: Israels börn

geingu í gégnum ána Jórdan þurrum fótum; múrar borgarinnar Jerícho hrundu nidur vid þeirra her-óp, og sólin stód kyr heilann dag, ad þeim yrdi ei dagfátt, ad vega ad sínum óvinum. Þetta sérhvad kénnir oss Guds stóra almætti, ad vér óttumst og heidrum hann. (Jós. 3. 6. 10. Cap.)

77. Hvad íllt hafdist Achan ad?

Hann hafdi stolid, og þess vegna áminnti Jósua hann, ad hann gjæfi Gudi dýrdina og vidurkénndi sína synd. Hann fékk þann dóm, ad hann skyldi grýtast í hel. Æ! hversu er lýgi og þjófnadur vidurstyggilegir lestir í augliti Drottins, og manni hinir skadlegustu. (Jós. 7.)

78. Hegdudu Israels børn sér vel í Canaans landi?

Nei, því midur! þá þeir ellstu voru daudir, fellu þau til afguda

dýrkunar, jafnvel þó Drottinn léti optlega vara þau vid því, og þess vegna, þeim til maklegrar hegníngar, urdu þau af þeim lýd undirþryckt, hverra skurgod þau blótudu. (Dómara b. 2. Cap.)

79. Var þad þó ei stundum vid, ad Gydíngar yrdu frelsadir?

Þá þeir snéru sér frá sinni vondu athæfi, uppvakti Gud þeim dómara, sem áunnu þeim frelsi nockrum sinnum, en eptir þessara dauda féllu þeir optast frá Gudi og sættu straffi. (Dóm. 2.)

80. Hvad sjáum vér af øllu þessu?

Illsku hjarta vors, sem ei þolir leingi góda daga, heldur jafnvel forsmáir typtan Drottins. Vér sjáum einnig af þessu, hversu ad Gud er einn miskunsamur Fadir, sem ecki med øllu afmáir, heldur sendir mildilega frelsun yrandi syndurum. (Es. 3. Cap.)

## 5. Kapítuli,

Um Israels dómara, og þrjá hina fyrstu Einvalds Kongínga.

---

81. Hvad hétu Israels dómarar?

Othníel, Ehud, Samgar, Debora, Gídeon, Abímelek, Thola, Jair, Jephta, Ebzan, Elon, Abdon, Samson, Elí, Samúel. Tíminn, á hverjum þessir dómarar lifdu, var nockud yfir 300 ár.

82. Seig mér nockud af Othníel?

Drottins andi kom yfir hann, svo hann frelsadi Gydíngana undan oki þeirra Syrlendsku. En eptir hans dauda héldu þeir áfram í því ad gjöra hid illa í augliti Drottins, giptu sig heidíngjunum, og dyrkudu afgudinn Baal. (Dóm. 3. Cap.)

83. Af hverjum urdu þeir þá þvíngadir?

Gud styrkti Móabítana þeim í

gégn; en þá þeir hrópudu til Drottins, uppvakti hann þeim einn dómara, er Ehud hét, sem sló í hel Konúng þeirra fjandmanna, og høfdu þá Israels børn frid í 80 ár. Af þessu sje eg, ad fridur og ófridur skédur eptir fyrirhyggju Drottins, og lyktar þeim til hagsmuna, sem eru hans vinir. (Dóm. 3. Cap.)

84. Hver nafnkunnug kona lifdi um þessar mundir?

Rúth, hin Móabitiska, sem tók Gydínganna trú og giptist Bóas, vid hverjum hún átti Obed, sem var Davíds fødur fadir. Slíkar í øndverdu heidnar barnamædur verda á nafn nefndar í ættar-tølu Jesú, því hann átti einnig ad endurleysa heidíngjana. (Rúths b. 1. og 4. Cap.)

85. Hver var Debora?

Ein spákona, sem med Barachs fulltíngi burt rak Cananít-

ana, hverjir, vegna Gydínganna vondsku, høfdu yfirhønd feingid. Þar eptir saung hún Drottni einn fagrann lofsaung, mér og ødrum til áminníngar, af hjarta ad þacka Gudi, þegar vér frelsumst úr einni edur annari háskasemd. (Dóm. b. 4. og 5.)

86. Høfdu Gydíngar þá fleyri óvini?

Midíanítarnir þvínguđu þá hardlega; og þá þeir bádu Gud á ný, urdu þeir af einum spámanni ávítadir, en Gud uppvakti Gédion, ad hann væri oddviti fólksins, hver ed, eptir þad hann hafdi nidurbrotid Baals altari, feldi óvinina. Þannig frelsar Drottinn enn nú, þegar vér høldum oss frá allri sjálf-smídadri dýrkun. (Dóm. 6. 7.)

87. Hversu fór fyrir Abímelech?

Þessi myrdti brædur sína og vard sjálfur Kóngur, en Gud sendi einn sundurþyckis anda

millum hans og fólksins; og þegar Abímelech vildi brjóta það undir sig, kastadi kona nockur milnusteins-broti, er moladi hans höfud. Þannig kémur Guds straff og endurgjald optlega óvörum, oss til vidvörunar. (Dóm. 9. Cap.)

88. Seig mér nockud frá Jephta?

Af óadgjætni hét hann því, ad ef hann sigradist á Ammónítunum, þá skyldi hann offra því fyrsta, er yrdi á vegi fyrir honum úr hans húsi, þá hann kjæmi heim; fyrir þessu áheiti vard dóttir hans, sem var einbirni, honum til ei all-lítils sorgarauka. Af þessu ættum vér læra, med framsýni ad gá heit-orda vorra, ad ei þurfum sídar ydrast þeirra, heldur gledjast þess, ad géta endt þau, eins og það sáluhjálplega heit, er vér gjördum Gudi í skírninni. (Dóm. 11.)

89. Hvad er sérílagi eptirtecktar verdt um Samson?

Medan hann vardveitti sitt hár óskérdt, var hann furdu sterkur, og feldi marga af Philísteunum, en þá hann gaf þessa huldu orsøk síns fræklleika til kinna skjækunni Dalía (sem hafdi þád fé, til høfuds honum, af hans fjandmønnum) lét hún hans hár raka af honum, en þeir útstúngu hans augu og færdu hann í fjøtur; loksins braut hann húsid ofan á sig og þá. Hér af má ráda, hversu lauslæti og adrar syndir steipa sínum elskendum í óluckù. (Dóm. 15. 16.)

90. Seig mér nockud frá Eli?

Hann var bædi dómari og ypparsti kénnimadur, hann átti mjøg ógudlega sonu, hverja hann ei svo hardt straffadi, sem þeir høfdu til unnid, jafnvel þó Gud advaradi hann þar um; hvar fyrir þeir

feingu bana í stríðinu; og þegar Elí feck þvílíkt að vita, fell hann af skélfingu úr stól sínum aptur á bak og hálsbrotnaði. (1 Sam. 2. og 4. Cap.)

91. Hver var hinn síðarsti Dómaranna?

Samúel, einn merkilegur spámaður Drottins, er stjórnaði vel alþýðunni. En þar synir hans, er komu eptir hann, vóru vondir menn, þá vildu Israels børn ei vera undir þeirra stjórnan, og óskuðu að Konúngar í framtíðinni mættu ríkja yfir sér. Drottni mislíkaði að vísu þessi þeirra bæn, en leifði þó Samúel, að hann smyrði Saul þeim til Konúngs, til að sannfæra þá um misbrúkan þeirra frívilja. (1 Sam. 7. og 8. Cap.)

92. Hvað sjáum vér af þessara børnum?

Að góðir foreldrar eiga stundum ill børn, hver þeim ber að áminna og typta, svo Drottins

reidi afmái ei börnin, foreldrun-
um til ángurs. Börnin eiga
sö nuleidis lída typtan fyrir sín-
ar ávyrdíngar, med þolinmædi,
og engvanveginn leida sér í hug,
ad þau fái umflúid Guds straff,
ef þau ei umbreytast í gédslagi og
vilja. (Ordsqv. b. 23).

93. Upptel mér þá þrjá Einvalds Konúnga?

Þeir vóru: Saul, Davíd og
Salómon, hverjir ed stjórnudu
yfir þeim 12 Israels ættqvíslum
nær hundrad ár.

94. Hegdadi Saul sér vel?

Í fyrstunni var hann gódur,
öruggur í framgaungu og sigur-
sæll, en vard sídan óhlydinn Gudi.
Hlífdist vid Koning Amalech-
ítanna, hvern honum var skipad
ad aflífa, og tók sér fyrir hendur
ad offra; þess vegna lét Drott-
inn hann vita, ad hans afqvæmi
mundi ei sitja ad ríkinu eptir hann.
(1 Sam. b. 11.)

95. Hversu gèck honum eptir þetta?

Illur andi æsti Kónginn, og hann ofsókti Davíd, sem átti taka vid ríkis = rádum eptir hann, og loksins drap hann sjálfann sig í þeirri orustu, er hann hádi mót Philistæunum. Gud vardveiti oss frá hverúdar fullu líferni, svo fríast kynnum frá qvalafullum æfilokum! (1 Sam. 15. 23. 31. Cap.)

96. Hvilikur madur var Davíd Konúngur?

Hann var mjøg gudhræddur Herra, drap risann Golíath med slaungu = steini, stjórnadi fólkinu vel og lagdi undir sig kríngum liggandi ríki. Af Sálmum hans sjest, hversu hjartanlega hann hélt sér til Guds í trúnni á Messíam, um hvern hann spádi; hét Gud og honum, ad af hans nidjum fædast skyldi heimsins Endurlausnari. (1 Sam. 17. og 2 Sam. 5. 8. Cap. Psálm. 22. og 27.)

97. Féll hann í nockurn stórann-glæp?

Hví midur! hann féll í hór med Bathscba, og gildradi svo til, ad bóndi hennar var drepinn. Þessarar stóru syndar ydradist hann sídan, og bad Gud fyrirgéfníngar á henni; þar eptir lifdi hann stadfastur í ótta Drottins. Þetta dæmi áfýsi sérhvern er stendur, ad sjá vel til, ad hann ecki falli í syndina; þad má og vera þeim til huggunar, sem af alvøru ydrast drýgdra glæpa, hversu Davíd var aptur til nádar tekinn. (2 Sam. 11. 12. Cap. Psálm. 51.)

98. Hvada sérdeilis mótlæti ratadi Davíd í?

Hans eigin son Absalon vildi svipta hann lífi og ríki, en Gud veitti sigur mønnum Davíds, og á flóttanum festist Absalon á hárinu í einu eiki-tré, og þá hann héck svo, var hann gégnum skotinn þremur spjótum. Hans

hryggileg æfilok séu sem spegill öllum börnum, er hrædi þau frá óhlýdni og andvaraleysi. (2 Sam. 15. 18. Cap.)

99. Hver var hinn þridji Einvalds Kóngur?

Salómón, sonur Davíds, hverjum Drottinn veitti mikinn vísdóm, aud og vyrdíngar, hann óttadist einnig Gud og uppbygdi hid prýdilega musteri í Jerúsalem, hvert hann med ágjætri bæn innvígdi, og stjórnadi um lánga tíma vel þar eptir. (1 Kóng. b. 3. 8. Cap.)

100. Hversu vegnadi honum, þá hann elltist?

Þær mörgu heidnu konur, er hann hafdi tekid sér, snéru hans hjarta, til afguda-dýrkunar, hvers vegna Gud uppvakti í gegn honum marga óvini, og svipti hans son Róbóam mestum hluta ríkisins, svo frá árinu 3029 eptir heimsins sköpun, urdu tvö adgreind Kónga ríki, nefnilega: Js-

raels og Júda. Gud veiti vorum Kóngi og yfirváldi speki, sem góð ríkisstjórn útkrefur, og varðveiti þá frá því, að falla frá sér, svo løndum og lýðum standi ecki óhamíngja nockur þar af! (1 Kóng. b. 11. og 12. Cap.)

---

## Þriðji Parturinn.

Høndlar um hina fjórðu þúsúnd ára øld eptir skøpun heimsins.

---

101. Hvað er helzt athugandi á þessari þúsund ára øld?

Í fyrstu er að athuga hverjir Ísraels og Júda Konungar hafa verið undir eins, þar næst hverjir Kóngar hafi verið yfir Júda ættqvísl til herleiðíngarinnar; og

lokzins Gydínganna frelsi og þeirra stjórnendur til Jesú fæd=íngar.



## 6. Kapítuli,

Gétur um Israels og Júda Konúnga, er lifdu ásamt á sømu tímum.

102. **Upptel mér þá Konúnga, er stjórn=udu Israels ríki.**

Jeróbóam hinn fyrri, Nadab, Baesa, Ela, Simri, Omri, Ach=ab, Ahasía, Jóram, Jehú, Jóa=chas, Jóas, Jeróbóam hinn síd=ari, Sacharía, Sallum, Mena=hem, Pekaja, Pekah, Hósea. Þessir stjórnudu í hálft þridja hundrad ár yfir þeim 10 ættqvísl=um, og bjuggu í Samaría, og vóru, því midur! allir vondir.

103. **Hvad gjørdi Jeróbóam hinn fyrri?**

Þar hann óttadist, ad þegnar

sínir mundu falla frá sér til Júda Kónga á ný, ef þeir árlega ferduduſt upp til Jerúsalem ad offra þar, þá tilsetti hann tvo blótkálfa, er dýrkast skyldu. Þess vegna lét Gud einn spámann hóta honum og hans afkomendunum eydileggíngar, sem einninn frammkom á þeim. (1 Kóng. b. 12. og 14. Cap.)

104. Getur þú sagt mér nockud um Kóng Achab?

Hann var hinn vesti Kónganna og blótadi Sydonítanna afgud Baal; drottníng hans Jessabel lét grýta Naboth í hel til ad ná hans víngardi, og offókti spámanninn Elías, sem varadi þau vid hinu illa; hvers vegna þau urdu strøffud med hardæri og umsátri; Achab var skotinn til bana í strídinu mót þeim Sýrlendsku, Jessabel varpad út um glugga og þar uppetin af hund=

um og gjørvalt hennar afspreingi afmád. (1 Kóng. b. 16 til 22. Cap. 2 Kóng. b. 9. og 10. Cap.)

105. Hvad er ad lesa um spámanninn Elías?

Þessi vandlætíngarsami þjónustu madur Guds var mjög ofsóktur af Jessabel drottníngu, en Gud veitti honum þann staka velgjørníng, ad hrafnar færdu honum fædslu á hallæris tímanum; fyrir hann vakti Drottinn upp einn daudann pilt í Sarepta, og lét eld falla af himni er uppbrenndi hans offur, til vitnisburdar þar um, ad Drottinn einasta væri sannur Gud, hvar eptir Elías lét slátra Baals prestum; loksins vard þessi trúlindi Guds þénari lifandi til himins uppnuminn. Gudi séu þess þackir, ad þar er bædi hjálp til og eitt betra líf fyrir þá réttlátu. (1 Kóng. b. 17. til 19. Cap.)

106. Var nockur merkilegur spámadur eptir Eliam?

Pad var sá gudhræddi Eliseus, sem einnig hlaut lída hardar ofsóknir. Børn nockur, er drógu gis ad honum, urdu sundurrifin af tveimur bjarndýrum og fyrir hans hønd gjordi Gud ýmisleg kraptaverk, einkum uppvakti hann af dauda eitt barn í Sunem. (2 Kóng. b. 2. til 4. Cap.)

107. Hvad hafdist Jehú ad?

Eptir skipan Guds afmádi hann affspreingi Achabs og Baals hof, og fyrir þessa hans randlæting hét Drottinn honum, ad synir hans í fjórda lid skyldu sitja á Israels stóli. Þó blótadi hann kálfana, líkt - sem hinir fyrri Kóngar; en þetta hálfverk líkadi ecki Gudi; hann vill láta þjóna sér af øllu hjarta, ef vér skulum vera honum þóknanlegir. (2 Kóng. b. 10.)

108. Hver af Israels Konúngum rikti leingst?

Jeróbóam hinn annar, sem stjórnadi 41 ár, undir hvers stjórn ad Israels fólk naut fridar og ársældar, en þess vegna fellu þeir til sællífis og oforsjárju, svo Drottinn þar fyrir lét segja þeim fyrir þeirra eydilegg'ng. Eptir dauda Kóngsins hófust óspektir miklar í ríkinu. Þannig er gudleysi víst merki til hrøpunar. (2 Kóng. b. 14.)

109. Lifdi nockur spámadur um þessar mundir?

Jónas, sem átti fyrirframm ad tilkynna Ninivitunum þad straff þeim var búid, hverju Guds bodi hann vildi ecki hlýda, heldur flýdi sjóleidis, en honum vard þar fyrir, vegna stormins, varpad í sjóinn. Strax svelgdi hann stór fiskur nockur, í hvers qvidi hann, eptir Guds rádstøfun, var í 3

daga. Í þessu var Jónas fyrirmyndan Jesú greftrunar og upprisu. (Jón. 1. Cap. Jóh. 3. Cap.)

110. Hvad hét hinn sídasti Kóngur, er ríkti yfir Israel?

Hóseas, sem tók af lífi þann Kóníng er næstur ríkti fyrir hann, en vard þar á eptir sigradur af Salmanassar Kóngi, sem, eptir hótan Drottins, færdi Israels fólk fángad til Assyríen, en í þess stad setti nockra af þegnum sínum í þau hérød, sem Israels fólk ádur byggt hafdi. Þessir heidíngjar vildu undir eins tigna þann sanna Gud og sína afgudi, hvert trúarbragda sambland engan veginn kunni Drottni þóknast. Þetta skédi árum eptir heims sköpun 3283. (2 Kóng. b. 17. Matth. 15.)

111. Hverjir Koníngar stjórnudu yfir Júda ættqvísl medan Israels ríki varadi?

Róbóam, Abía, Asa, Jósaphat, Jóram, Ahasía, Athalía, Jóas, Amasía, Ussía, Jótham, Achas. Þessir með sínum eptirkomendum voru allir að lángfedga tali af Davíd komnir, eptir fyrirheiti því, Gud hafdi veitt honum. (1 Kóng. b. 11.)

112. Gékk vel til medan Róbóam ríkti?

Nei, heldur byggdi Júdæ ættqvísl hædir, stólpa og lunda sínum afgudum, og géngu eptir øllum heidíngjanna svívyrdíngum. Þess vegna straffadi Gud Kónginn og þegna hans fyrir hønd Sesaks, Kóngs í Egyptalandi, hver ed lét burt flytja fjársjóduna úr Guds húsi og Kóngsins húsi. (1 Kóng. b. 14. Cap.)

113. Seig mér nockud af Kónginum Asa?

Hann hafdist það að, sem rétt var fyrir augliti Drottins, rak burtu saurlífis menn og eyddi skurgoda villu. Gud gaf honum

einnig frid lánga æfi og sigur yfir Morlendskum. Loksins gjørdi hann sáttmál vid þann Assyriska Kóng móti Israels ríki, og leitadi ecki Drottins í sínum sjukdómi, heldur reiddi sig uppá læknarana. Hvert eitt Guds barn ætti af þessu dæmi draga sér þá hugvekju, nákvæmlega ad vaka yfir hjarta sínu, ad þad ei, þegar lífid er nær á enda kljád, yfirgéfi Gud sinn, hvern þad þángad til hafdi óttast. (2 Chron. b. 15. og 16. Cap.)

114. Hversu hegdadi Jósaphat sér?

Hann eyddi gjørsamlega heidnum átrúnadi, sendi út Levítana vídsvegar ad kénna fólkinu, og setti løg og lands rétt í sínu ríki. Vegna øruggrar Drottins adstodar vann hann sigur á síns ríkis óvinum, en breytti þó illa í því, ad hann gjørdi samband vid þann illa Kóng Achab. (2 Chron. b. 17. og 20. Cap.)

115. Hvada lærdóm kunnum vér draga oss af þessu?

Gud er sá, hvern vér eigum óttast og uppá hvern vér skulum reida oss, sem bædi kann og vill hjálpa sérhverjum, er í einlægni hjartans gánga á hans vegum. Það er einnig harla naudsynlegt, ad bidja fyrir sínum yfirbodurum, því þá þeir óttast Drottinn, géngur undirgéfnum vel. (1 Tím. 2. Cap.)

116. Hvad getur þú sagt mér um Jóas?

Þegar drottníngin Athalía tók ad sér stjórn ríkisins, og lét myrda Ahasias børn, var Jóas falinn af sinni fødur-systur og ólst upp í Musterinu, uns drottníngin, fyrir tilstilli Jójadæ prests, var drepin; hvar eptir hann ríkti gudrækilega og var luckugéfinn. En þar hann loksins af sínu rádaneyti lét sig locka til afguda-dýrkunar, og lét deyda Zakaríam

son Jójadæ, sem hafdi advarad hann, þá gaf Gud hann í hendur þeirra Sýrlendsku, og hans eigin þénarar slóu hann í hel. (2 Chron. b. 24. Cap.)

117. Viltu fylgja hans dæmi?

Nei, Gud fordi mér vid því! Hvad gagnar góð uppbyrjun, án þess eg sé stødugur til enda? og því skyldi mér kjærara vinfengi veraldarinnar enn míns Guds? Eg vil ei heldur gódu íllt gjalda. (2 Pét. 2. Cap.)

118. Stjórnadi Asaría, eda Usía vel?

Hann var frægur Herra, vegna síns Guds ótta, sinna sigurvinnínga og stiptana, þó offradi fólkid enn nú reikelsi á hædunum. Þegar hann loksins vegna ofmetnadar vildi veifa reikelsi í Musterinu, vard hann líkþrár til dauda-dags, en á medan gjætti Jótham stjórnarinnar og óttadist Gud. (2 Chron. b. 26. 27. Cap.)

119. Var Achas Jóthamsson gódur madur?

Nei, heldur ógudlegur, og þess vegna urdu Kóngarnir, sem í grend ríktu, honum yfirsterkari. Þó hét Drottinn honum ad frelsa hann, og gaf honum til huggunar þad teikn, ad ein mey skyldi fæda Immanúel. En Achas kalladi Kónginn af Assúr sér til lidveitslu, þó til lítils gagns kæmi; lét þar á eptir uppbyggja stalla framandi godum, og apturlæsa Musterinu. Illt hjarta getur þannig ordid stakleg a ógudlegt (nær þad óvyrdir Guds ord og fyrirheit), og mjøg blindad til sinnar eigin ólucku. (2 Chron. b. 28. Es. 7. Jerem. 17. Cap.)

120. Hverjir þessara beggja ríkja Konúngar stjórnudu um sømu mundir?

Róbóam og Abía ríktu undir eins og Jeróbóam hinn fyrri.

Assa undir eins og Jeróbóam

fyrri, Nadab, Baesa, Ela, Simri, Omri, Achab.

Jósaphat, undir eins og Achab, Ahasía og Jóram, Israels Kóngar.

Jóram og Ahasía, undir eins og Jóram Israels Kóngur.

Athalía stjórnadi undir eins og Jehú.

Jóas undir eins og Jehú, Jóachas og Jóas Israels Kóngar.

Amasia undir eins og Jóas Israels Kóngur og Jeróbóam annar.

Usía undir eins og Jeróbóam annar, Sacharía, Sallum, Menahem, Pekaja, Peka.

Jótham undir eins og Peka.

Achas undir eins og Peka og Hósea.



# 7. Kapítuli,

Um átta Júda Konúnga, til herleidsugarinnar.

---

**121. Gétur þú gjørt grein á nøfnum þessara Kónga?**

Ezechías, Manasse, Amon, Jósías, Jóachas, Jójakim, Jechonías og Zedechías. Þessir, ásamt sínum formønnum í ríkisstjórninni, ríktu, frá því einvalds stjórn Gydínga skiptist, í hálft hid fjórda hundrad ár yfir Júda og Benjamíns ættqvíslum og høfdu sitt adsetur í Jerúsalem.

**122. Hver var sá spámadur, er spádi frá Usía Kóngs til Manassis tíma?**

Esaías, sem ávítadi fólkid vegna þess synda, sagdi fyrir þess eydilegging og þess óvina, og spádi um Jesúm heimsins Endurlausnara, samt þad ágjæti sem Guds

søfnudur hans vegna ødlast mundi. Þess vegna kallast hann hins gamla Testamentis Guds spjalla madur. Það er mælt, að Manassis Kóngur hafi látið saga hann í sundur með tré-søg. (Es. 53. 55.)

123. Hvað er það þú veitst um Kónginn Ezechías?

Á hans sjøtta ríkisstjórnar ári var Israels ríki eydilagt. Hann gjørdi hvað rétt var í augliti Drottins, burtrýmdi allri skúrgoða þjónkan, niðurbraut blóthæðir og stólpa, en hreinsaði Musterið og helt Páska. Hann treysti uppá Drottinn og veik ei af hans vegum. Guð var þess vegna með honum; hann breytti skinsamlega og frelsaðist frá þeim Assyriska Konúngi Senacherib, hvers her var að velli lagður af einum Engli. (2 Kóng. b. 18. 2 Chron. b. 30.)

124. Féll hann ei í þúngann sjúkdóm?

Hann vard daud=sjúkur, en þegar hann bad um bót á sínum sjúkleik, lagdi Drottinn 15 ár til hans aldurs, og til frekari vissu þar uppá, geck skugginn tíu línur til baka á sigurverkinu. Gud, sem er Herra náttúrunnar og hennar skapari, kann umbreyta hennar venjulega hlaupi, þegar hans alvitsku sýnist þad gagnlegt. (2 Kóng. b. 20. Cap.)

125. Hvad getur þú tekid þér til lærdóms af þessum Kóngi?

Eg vil læra af hans dæmi Guds ótta, bæn og ákallan, hvar á eptir mun fylgja miskun, hjálp og frelsi; eg vil einnig taka mér til vidvörunar, í tíma ad búa mig til daudans, ad eg, nær hann kémur, megi í trúnni gledjast þess, ad fá ad líta Gud eilíflega í himni gledinnar og vegsemdarinnar. (Es. 37. 38.)

126. Hverjir spámenn lifdu um þessa tíma?

Hóseas, Jóel, Amos og Micha, hverjir med sínum rædum áttu mótstødu veita ógudlegu framferdi hinna vondu. Þessir, ásamt ødrum átta, kallast þeir smærri spámenn, því þeir hafa eptir sig látid stuttar bækur. (Hós. 14.)

127. Var Manassis, sonur Ezechíæ, gódur madur?

Þad fer fjærri; hann leiddi fólkid afvega til skurgoda blóts, eptir sid heidinna manna, jós út miklu saklausu blódi og óvyrdti Guds advaranir, er skédu fyrir spámennina. Honum til straffs leiddi Gud, ad hann fánginn fluttist til Babýlon. (2 Chron. b. 33.)

128. Hvernig hegdadi hann sér í þeim-stad?

Þar audmýkti hann sig fyrir Gudi, sem lét hann þá fara heim aptur. Eptir þad dýrkadi hann Drottinn af allri alvøru, og burt

tók allar svívyrdíngar, er hann ádur hafdi tilsett. Hann ríkti alls 55 ár, og þar fyrir leingur, enn nockur af þessum Kóngum. (2 Chron. 33.)

129. Hvern nytsamlegann lærdóm gétur þú tekid þér af þessu?

Tilgángur typtana Guds er sá, ad menn snúi sér frá sínum syndum og leiti nádar, til lífernisins endurbótar, hvar af sjálfir þeir ødlast mikid gagn, jafnvel optlega í þessu lífi. (Hós. 6. Cap.)

130. Hvílíkt var safnadar Guds ásigkomulag um þessar mundir?

Stundum var søfnudur hinna trúudu augljós, stundum (ad útvortis háttum) dulinn, eptir því sem Konúngarnir hegdudu sér. Þeir gódu urdu tídum svo undir þryktir, ad þeir mørgum sinnum þordu ei ad kannast vid trú sína edur Guds ord. (1 Kóng. b. 18. og 19. Cap.)

131. Skír mér eitthvað frá Jósía?

Þegar hann lét hreinsa Musterið, fundu menn Mósis lögmáls bók, sem upplesin var opinberlega fyrir Gydíngum; þar eptir braut hann öll skurgoð, brenndi búka og bein þeirra er þau blótudu, og með miklum sóma tilsetti hátíðlegt Páskahald. Um þessa endurbót í Guðs þjónustu var áður fyrri spáð í tíð Jeróbóams hins fyrra, og Josías á nafn nefndur þrem hundruð árum áður enn hann fæddist. (2 Köng. b. 22. 23. Cap.)

132. Lét hann þá aðspyrja Drottinn, um lögmálsins hótanir?

Já, hann lét aðspyrja Drottinn fyrir þá spákonu Hulda, og fékk það svar: að án efa skyldi ólucka koma yfir landsins innbyggendur, vegna þess, að þeir höfðu afrækt Drottinn, þó skyldi friður haldast meðan Jósías var

á døgum, því hann hafdi auð-
mýkt sig. Þanninn uppvekur
Guð optlega þá, er vidrétti sína
fallna kirkju, að hverra alvøru-
gésni honum vel gédjast, svo hann
hlísir landinu um þeirra daga.
(2 Chron. 34.)

133. Hverjir vóru Jósíæ synir?

Jóachas, Jójakim og Zedechí-
as, allir ógudlegir. Hinn fyrsti
var fánginn eptir þriggja mán-
ada stjórn og fluttur til Egypta-
lands af Kónginum Nechó. Hinn
annar eptir ellefu ára, og sonur
hans Jechonías var eptir þrigg-
ja mánada ríkisstjórn rekinn til
Babýlon; sømu hrakfarir hitti
sá þridji bródir fyrir, eptir það
hann hafdi ríkt í ellefu ár. Hér af
má ráda, hversu fjandmenn um-
turna øllum hlutum í einu ríki,
þá þeir gódu eru undir lok lidn-
ir, og þeir, sem eptir lifa, óttast
ecki Drottinn. (2 Chron. 36.)

134. Lifdi nockur spámadur um þessar mundir?

Já, Jeremías, sem ávítadi fólksins syndir, lygar, yfirdrepskap og afguda-dýrkan, drambsemi, ydrunarleysi, hóranir og manndráp, en vard þess vegna settur í fángelsi. Nær um sømu mundir spádu þeir Nahum, Habakuk og Zephanía. (Jer. 5. til 7. Cap.)

135. Hvad sier þú af þessu?

Guds yfirvættis gódgyrnd og eptirlaungun til ad umvenda og frelsa oss, þar hann midt í vorri fordjørfun sendir sína sannleiks votta og ydrunar prédikara. Sá sem engu ad sídur heldur áfram í sinni vondsku, hefur þad ei, hvar med hann sig afsaka kunni, þá honum refsad verdur. (2 Chron. 36.)

136. Var enginn annar spámadur uppi?

Medal Israels fólks, er fyrst

var hernumid, spádi Ezechiel um Júda rikis vissa eydileggíng og Guds safnadar ásigkomulag; hann varadi þá einnig vid þeirra afbrotum, en honum var ei hlýdt. Honum veittust ýmislegar sjónir og opinberanir, sem skédu af Guds hálfu. (Ezech. 12. 33. 40. Cap.)

137. Hvad lesum vér einkar illt um Kong Jójakim?

Hann lét lesa fyrir sér spádóma Jeremíæ, óttadist þó ei gudlegar hótanir, heldur þegar fáein blød vóru útlesin, skar hann þau úr bókinni og uppbrenndi. Drottinn lét segja honum fyrir, ad hann skyldi drepinn verda, og álíkt sem einn asni, ecki ná ad greftrast. Guds ord og áminníngar eiga þess vegna haldast í vyrdíngu og ei fyrirlítast. (Jer. 22. 36. Cap.)

138. Hver urdu afdrif hins sídasta Júda Kóngs?

Zedechias var sigradur af Nebúcadnesar, og ásamt þegnum sínum fluttur til Babel í fángelsi, það ár 3416. Jórsalaborg ásamt Musterinu, uppá hvad Gydíngar reiddu sig, vard uppbrennd, til vitnis þar um, ad útvortis hræsnis þjónusta er Gudi vidurstygd. (2 Kóng. 25.)

139. Slapp einnig sá fángni Jeremias missa lífid?

Nei, Konúngurinn af Babýlon leyfdi honum ad vera hvar honum vel líkadi. Þar eptir, þegar fólkid, sem eptir vard í landinu, fór til Egyptalands, tók það hann med sér þángad, hvar hann einnig spádi. Þanninn getur Gud hvatt upp heidíngjana til þess, ad straffa þá, sem óvyrda hans myskun, og þar á mót mýkja þeirra hjörtu þeim til hagsælda, er hann óttast. (Jer. 40. 41.)

140. Hvert efni var til þess, að Júda ríki skyldi eydileggjast?

Að Konúngarnir og Furstarnir, Prestar og innbyggendur héldu fastlega áframm í afgudadýrkan og ødrum syndum, einnig høfdu að hádi Drottins sendiboda, er fyrr og sídar komu til þeirra. Látum oss þar fyrir eckí draga gis að Gudi! því hverju einn sáir, það mun hann og uppskéra. (2 Chron. b. 36.)



## 8. Kapítuli,

Um Gydínganna frelsi, og þeirra stjórnendur til þess Jesús fæddist.

141. Hversu lengi varadi sú Babýloniska herleidíng?

Hún varadi í 70 ár, frá því Gydíngarnir vóru fyrst herleidd-ir, eins og Gud hafdi talad fyr-

ir Jeremíam. Á þessum tíma hófst spámadurinn Daníel til stórra vyrdínga í Babel, hvar hann sagdi fyrir þau fjøgur heimsins Einvalds ríki, og Jesú híngadkomu og pínu. Um sama leiti halda menn Obadías spámadur hafi lifad. (Jer. 29. Dan. 9. og 10. Cap.)

142. Frelsadi ei Gud þrjá Gydínga um þessar mundir?

Jú, þar þeir ei vildu tilbeidslu veita gull-líkneski Nebúcadnesars, og þeim þess vegna var varpad í glóandi ofn, þá bægdi einn Engill loganum frá þeim, svo þeir hlutu þar af enganu skada. Þar eptir skipadi Kongúngurinn opinberlega ad sérhver skyldi óttast Gud þessara manna. (Dan. 3.)

143. Í hvern háska ratadi sjálfur Daníel hér eptir?

Af hatri til hans komu Lands-

høfdíngjar Darii af Meden til leidar þeirri skipan, ad engum leifdist í heilann mánud annann ad tilbidja enn sjálfann Kónginn. Nú sem Daníel bad til síns Guds á degi hverjum, eins og ádur, var honum kastad í eina grøf, hvar ljón vóru inni fyrir; en Drottinn frelsadi hann þadan ómeiddann. (Dan. 6.)

144. Hvad lærir þú af þessu?

Ad heidíngjarnir høfdu gott tækifæri til þess ad þeckja Gud og ad Drottinn frelsar þá, sem lída einúngis þess vegna, ad þeir óttast hann. Eg ætti sífeldlega bidja Gud þess, hann vilji vardveita minn Konúng og yfirbodara fyrir vondu rádaneyti og tilloekunum. (Dan. 4.)

145. Hver gaf Gydíngum leyfi til þess, ad þeir mættu reisa til sinnar ættjardar?

Sá Persiski Einvalds Kóngur Cýrus, hvern Gud laungu

ádur hafdi á nafn nefnt fyrir spámanninn Esaías. Musterisins kér lét hann i hendur selja Zóróbabel, sem var af Kónga ættum kominn, hver ásamt þeim ypparsta Presti Jósúa flutti allann þorra fólksins heim til Gydíngalands.

146. Uppbyggdu þeir þá Musterid á ný?

Þeir byrjudu med þad, en óvinir þeirra, hinir Samverskú, hindrudu þá leingi, uns spámennirnir Haggai og Sacharías ásýstu þá til verksins framqvæmdar. Daríus Kóngur, ad auknefni Nóthus eda Bastardur, veitti þeim einnig nockurn abla til þess. (Esr. 4. 6. Cap.)

147. Hvad sýnir þetta oss?

Guds erindi hefur tídast sína mótstødu menn; en þá vér í réttri djørfúng, eptir hans ordi og í hans nafni, med fullkomnu trausti til hans fulltíngis, látum

þá sønnu Guds þiónustu vera vora helztu vidburdi, svo getur öll helvítis makt ei hindrad oss. (Esr. 5.)

148. Komst ecki ein kona, sem var Gydínga kyns, til stórra metorda?

Ad vísu: sú fátæka Esther vard drottníng Ahasveri, eda Xerxis, í hvers tíd sá ypparsti hof = þén=ari Haman (vegna þess ad Gyd=íngurinn Mardochæus vildi ei lúta honum) útvegadi leyfi til þess, ad allir Gydíngar á tilteknum degi mættu aflífast. En Esther kom því til leidar, ad þessi ætlan snérist annann veg, svo Haman vard heingdur, en Gyd=íngarnir fengu leyfi til ad hefna sín á þeirra óvinum, á þeim sama tíma, sem fyrr var ákvedinn. (Esthers b. 2. 3. 7. Cap.)

149. Hittir ei tídum hid illa þann, er því hefur til leidar komid?

An efa; sá fellur opt í sømu

grøf, er hann øðrum gróf. En þá neyðin gengur hærst yfir góða menn, þá er hjálpin nærst; enda hefur Guð laungu áður tilreidt meðølin, þeim til frelsunar. (Esth. 4.)

150. Ferðuðust enn fleyri Gydingar til Jerúsalem?

Á þeim tímum, sem Artaxerxes hinn minnugi ríkti, fór Esdras Prestur þángað, ásamt mørgum øðrum, setti í rétt lag útvortis Guðs þjónustu, safnaði saman bókum hins gamla Testamentis, og útskýrði fyrir þeim, hver Guðs vilji væri. Þessu nærst fór upp til Jórsala, Nehemías, sem byggði upp múra borgarinnar, setti hana í gott stand, og með ágjætri frammsýni hafði hennar umsjón um lánga tíma. Þannig sendir Guð sínu fólki hvað eptir annað frelsi og fullting. (Esr. 7. Neh. 2. 13. Cap.)

151. Lifdir um þessar mundir nockur spámadur?

Malachías, sem ávítadi Gydínga fyrir þeirra hræsni og fleiri syndir; spádi einnig um Jesú híngadkomu. Þar eptir høfdu þeir engann spámann í 400 ár, svo þeirra laungun yrdi því sterkari, med gyrnd og gledi móttøku ad veita þeim stóra spámanni og alls heimsins lærifødur Jesú Kristó. (5 Mós. b. 18. Malchiæ 1. og 3. Cap.)

152. Hverjir stjórnudu Gydíngum um þessar mundir?

Þeir yppurstu kennimenn veittu lýdnum forstødu yfir hálft annad hundrad ár. Um þetta skeid snéru Gydíngarnir í Egyptalandi bókum hins gamla Testamentis á gríska túngu, sem þá geck alla vega; hvad ed var ágjætt hjálpar medal heidíngjunum, ad undir-

bua þá till Jesú híngadkomu. (Sýrachs. 50. Cap.)

153. Hversu géck loksins þessum kénnimønnum?

Brædur Onías hins þridja, med því nafni, képptust hver vid annann ad fá sér til handa keypt hid ypparsta kénnimanns embætti af Antíóchó hinum gøfga, Sýrlands Kóngi, hver, þá hann kom í Gydíngaland, þvíngadi marga ad falla frá Guds løgmáli til skúrgoda blóts, og saurgadi þar ad auki helgidóminn. (1 Maccab. 1. og 4. Cap.)

154. Setti enginn sig í gégn honum?

Jú, einna helzt Mathathías Maccabæus, hvers son Júdas, fyrir adstod Drottins, féck sigur og hreinsadi Musterid ad nýu. Hans brædur og eptirkomendur stjórnudu þar eptir bædi sem yppurstu kénnimenn og Kongar nær því í hundrad ár, en

loksins setti sá eini þann annann af embættinu.

155. Hverjir vóru þeir, er tóku ríkis vøndinn, (edur þau ædstu stjórnarráð) frá Júda?

Þeir Rómversku, vid hverja Gydíngar høfdu sáttmál bundid, komu og skildu þá ad, nádu til sín ríkisstjórninni og settu til Kóngs Heródem, þann Ydumæara. Um þessar mundir hófst til ríkis sá Rómverski Keisari Octavíanus Augústus. Matth. 2. Cap.)

156. Hvad lærir þú af øllu þessu?

Ad Gud sendir sinn hirtíngarvønd, þegar rétt trúarbrøgd vanvyrdast eda ránglega um hønd hafast, en hann brýtur þann sama vønd, eptir þad hann hefur typtad. Eg sje einnig hér af, hversu samheldisleysi er orsøk til eydileggíngar landa og lýda. (Es. 87. 4. Cap.)

157. Uppkomu ei nockrir villu lærdóms flockar á þessum tíma?

Jú, einkum Sadducæi, sem ei trúdu ad til væru Englar, upprisa edur efsti dómur; Pharisæi, sem meintu ad sönn Guds þjónusta væri innifalin í útvortis verkum og manna setníngum. Þessir vóru optlega til baka rekn-ir af vorum Endurlausnara. (Marc. 12. Cap.)

158. Hversu hegdadi sér þessi nýi Gydínganna Konúngur?

Þessi Heródes, sem kallast hinn mikli, byggdi upp Musterid nær því ad nýu, svo hann kynni þócknast Gydíngunum. Samt var hann grimmur í skapi, og drap marga þá honum skildir vóru og vendsladir, hann lét myrda smá börnin í Bethlehem, þar hann hugdi, hann mundi missa ríki sitt vegna Jesú Fædíngar. Af hans sonum var He-

ródes Antipas, sem stjórnadi í Galílæa; Philippus í Ituræa, og Archelaus í Júdæa, en þessi var sídar rekinn frá ríki, og einn Rómverskur Jarl (edur lands-stjórnari) settur í hans stad. (Matth. 2. Lúc. 3. Cap.)

159. Hvad uppfylltist med þessu?

Spádómur forfødursins Jacobs, ad vor fridar-høfdíngi skyldi í heiminn koma, þegar Gydíngarnir høfdu ei lengur Konúnga yfir sér af sinni egin þjód. Svo uppfylltust og allar annara Guds spámanna fyrirsagnir, sem í allann máta eiga heima hjá Jesú af Nazareth en engum ødrum, svo vér med føgnudi og fullvissu vitum, ad hann er þad fyrirheitna qvinnunnar sædi og heimsins Endurlausnari. (1 Mós. 49.)

160. Hver var Jesú fyrir-rennari?

Jóhannes Skírari, sem kenndi og skírdi, en var sídann hálshøgg-

ádur hafdi á nafn nefnt fyrir spámanninn Esaías. Musterisins kér lét hann i hendur selja Zóróbabel, sem var af Kónga ættum kominn, hver ásamt þeim yppársta Presti Jósúa flutti allann þorra fólksins heim til Gydíngalands.

146. Uppbyggdu þeir þá Musterid á ný?

Þeir byrjudu med þad, en óvinir þeirra, hinir Samverskú, hindrudu þá leingi, uns spámennirnir Haggaí og Sacharías ásýstu þá til verksins framqvæmdar. Daríus Kóngur, ad auknefni Nóthus eda Bastardur, veitti þeim einnig nockurn abla til þess. (Esr. 4. 6. Cap.)

147. Hvad sýnir þetta oss?

Guds erindi hefur tídast sína mótstødu menn; en þá vér í réttri djørfúng, eptir hans ordi og í hans nafni, med fullkominu trausti til hans fulltíngis, látum

þá sönnu Guds þjónustu vera vora helztu vidburdi, svo gétur øll helvítis makt ei hindrad oss. (Esr. 5.)

148. Komst ecki ein kona, sem var Gydínga kyns, til stórra metorda?

Ad vísu: sú fátæka Esther vard drottning Ahasveri, eda Xerxis, í hvers tíd sá ypparsti hof = þénari Haman (vegna þess ad Gydíngurinn Mardochæus vildi ei lúta honum) útvegadi leyfi til þess, ad allir Gydíngar á tilteknum degi mættu aflífast. En Esther kom því til leidar, ad þessi ætlan snérist annann veg, svo Haman vard heingdur, en Gydíngarnir fengu leyfi til ad hefna sín á þeirra óvinum, á þeim sama tíma, sem fyrr var ákvedinn. (Esthers b. 2. 3. 7. Cap.)

149. Hittir ei tídum hid illa þann, er því hefur til leidar komid?

An efa; sá fellur opt í sem-

grøf, er hann øðrum gróf. En þá neyðin gengur hærst yfir góða menn, þá er hjálpin nærst; enda hefur Guð laungu áður tilreidt meðølin, þeim til frelsunar. (Esth. 4.)

150. Ferðuðust enn fleyri Gydingar til Jerúsalem?

Á þeim tímum, sem Artaxerxes hinn minnugi ríkti, fór Esdras Prestur þángað, ásamt mørgum øðrum, setti í rétt lag útvortis Guðs þjónustu, safnaði saman bókum hins gamla Testamentis, og útskýrði fyrir þeim, hver Guðs vilji væri. Þessu nærst fór upp til Jórsala, Nehemías, sem byggði upp múra borgarinnar, setti hana í gott stand, og með ágjætri frammsýni hafði hennar umsjón um lánga tíma. Þannig sendir Guð sínu fólki hvað eptir annað frelsi og fulltíngi. (Esr. 7. Neh. 2. 13. Cap.)

151. Lifdu um þessar mundir nockur spámadur?

Malachías, sem ávítadi Gyd-ínga fyrir þeirra hræsni og fleiri syndir; spádi einnig um Jesú híngadkomu. Þar eptir höfdu þeir eingann spámann í 400 ár, svo þeirra laungun yrdi því sterkari, med girnd og gledi móttøku ad veita þeim stóra spámanni og alls heimsins lærifødur Jesú Kristó. (5 Mós. b. 18. Malchiæ 1. og 3. Cap.)

152. Hverjir stjórnudu Gydíngum um þessar mundir?

Þeir yppurstu kennimenn veittu lýdnum forstødu yfir hálft annad hundrad ár. Um þetta skeid snéru Gydíngarnir í Egyptalandi bókum hins gamla Testamentis á gríska túngu, sem þá geck alla vega; hvad ed var ágjætt hjálpar medal heidíngjunum, ad undir-

búa þá till Jesú híngadkomu. (Sýrachs. 50. Cap.)

153. Hverśu géck lokþins þessum kénnimønnum?

Brædur Onías hins þridja, med því nafni, képptust hver vid annann ad fá sér til handa keypt hid ypparsta kénnimanns embætti af Antíóchó hinum gøfga, Sýrlands Kóngi, hver, þá hann kom í Gydíngaland, þvíngadi marga ad falla frá Guds løgmáli til skúrgoda blóts, og saurgadi þar ad auki helgidóminn. (1 Maccab. 1. og 4. Cap.)

154. Setti enginn sig í gégn honum?

Jú, einna helzt Mathathías Maccabæus, hvers son Júdas, fyrir adstod Drottins, féck sigur og hreinsadi Musterid ad nýu. Hans brædur og eptirkomendur stjórnudu þar eptir bædi sem yppurstu kénnimenn og Kon-úngar nær því í hundrad ár, en

lokśins setti sá eini þann annann af embættinu.

155. Hverjir vóru þeir, er tóku ríkis vøndinn, (edur þau ædstu stjórnarráð) frá Júda?

Þeir Rómverskn, vid hverja Gydíngar høfdu sáttmál bundid, komu og skildu þá ad, nádu til sín ríkisstjórninni og settu til Kóngs Heródem, þann Ydumæara. Um þessar mundir hófst til ríkis sá Rómverski Keisari Octavíanus Augústus. Matth. 2. Cap.)

156. Hvad lærir þú af øllu þessu?

Ad Gud sendir sinn hirtíngarvønd, þegar rétt trúarbrøgd vanvyrdast eda ránglega um hønd hafast, en hann brýtur þann sama vønd, eptir þad hann hefur typtad. Eg sje einnig hér af, hversu samheldisleysi er orsøk til eydileggíngar landa og lýda. (Es. 87. 4. Cap.)

157. Uppkomu ei nockrir villu lærdóms flockar á þessum tíma?

Jú, einkum Sadducæi, sem ei trúdu ad til væru Englar, upprisa edur efsti dómur; Pharisæi, sem meintu ad sönn Guds þjónusta væri innifalin í útvortis verkum og manna setníngum. Þessir vóru optlega til bäka reknir af vorum Endurlausnara. (Marc. 12. Cap.)

158. Hversu hegdadi sér þessi nýi Gydínganna Konúngur?

Þessi Heródes, sem kallast hinn mikli, byggdi upp Musterid nær því ad nýu, svo hann kynni þóknast Gydíngunum. Samt var hann grimmur í skapi, og drap marga þá honum skildir vóru og vendsladir, hann lét myrda smá börnin í Bethlehem, þar hann hugdi, hann mundi missa ríki sitt vegna Jesú Fædíngar. Af hans sonum var He-

ródes Antípas, sem stjórnadi í Galílæa; Philippus í Ituræa, og Archelaus í Júdæa, en þessi var sídar rekinn frá ríki, og einn Rómverskur Jarl (edur lands-stjórnari) settur í hans stad. (Matth. 2. Lúc. 3. Cap.)

159. Hvad uppfylltist med þessu?

Spádómur forfødursins Jacobs, ad vor fridar-høfdíngi skyldi í heiminn koma, þegar Gydíngarnir høfdu ei lengur Konúnga yfir sér af sinni egin þjód. Svo uppfylltust og allar annara Guds spámanna fyrirsagnir, sem í allann máta eiga heima hjá Jesú af Nazareth en engum ødrum, svo vér med føgnudi og fullvissu vitum, ad hann er þad fyrirheitna qvinnunnar sædi og heimsins Endurlausnari. (1 Mós. 49.)

160. Hver var Jesú fyrir-rennari?

Jóhannes Skírari, sem kenndi og skírdi, en var sídann hálshøgg-

inn eptir skipan Heródis Antípæ, því hann hafdi fundid ad hans gifting, er hann batt lag sitt vid Philippi, síns bródurs, konu. (Lúc. 3. Marc. 6. Cap.)

# Fjórdi Parturinn,

Høndlar um þá fyrstu hundrad ára øld eptir Kristí Fæding.

161. Hvad sýnist þér helzt til hugleidingar takandi, af því sem til hefur borid á þessari hundrad ára øld?

Pad er fyrst míns Herra Jesú líferni, pína og himnaför; þar nærst athafnir þeirra heilögu Postula.

# 9. Kapítuli,

## Um Jesú Kristí framferdi og himnafør.

162. Med hverju móti var Jesús gétinn?

An allrar syndar, því sá heilagi Andi kom yfir Jómfrú Maríu og kraptur hins hæsta yfirskyggdi hana; þar eptir var Jesús fæddur í Bethlehem, hvar hann var reifum vafinn og lagdur í eina jøtu, hvad menn halda skéd vera á því 4000, jafnvel þó adrir haldi á því 4002, en nockrir á 3967 ári eptir skøpun heimsins. Þessu til endurminníngar høldum vér Jóla=daginn helgann. (Lúcæ. 1. 2. Cap. Mich. 5.)

163. Vissi nockur af því, hvílíkur hann var?

Já, Englarnir bodudu þad nockrum fjár=hirdurum, þá sømu Jóla nótt, sem hann fæddist. Því næst prísadi og þackadi Gudi í

Musterinu sá gamli Símeon fyrir hans híngadkomu í holdid. Vitríngunum úr Austur = veigi byrtist einnig stjarna, sem áfýsti þá til ad leita hans og veita honum lotníng, oss øllum til eptirdæmis. (Lúc. 2. Cap.)

164. Hvar ólst hann upp í sinni æsku?

Í Nazareth hjá fóstra sínum Jóseph, er var tré=smidur, og þá hann var 12 vetra kénndi hann í Musterinu medal þeirra skriftlærdu. Þegar hann var þrítugur lét hann Jóhannem skíra sig, og kom þá sá heilagi Andi yfir hann í dúfu líkíng, og Fadirinn kalladi hann sinn Son; þessu nærst var hann freistadur af djøflinum; þar eptir útvaldi hann sér tólf Lærisveina, og kénndi opinberlega í þrjú ár. Matth. 3. 4.)

165. Seig mér inntak hans kénnínga?

Snúid ydur og trúid Evangelíó. Hann kénndi fólkinu, ad

hann væri Guds eingétinn Sonur, kominn ad lída pínu vor vegna, ad hver á hann trydi, skuli ecki fyrirfarast heldur eignast þad eilífa líf, einnig ad Drottinn líti eptir hjartans hreinleika og einlægni, til trúarinnar og þess traustz, menn eiga á honum hafa. (Matth. 6—8. Cap. Marc. 1. Cap. Jóh. 6. til 8. Cap.)

166. Hver røk færdi hann til þess, ad þad væri sannleikur, er hann kénndi?

Til styrktar sínum lærdómi gjørdi hann stór jardteikn í margra nærveru; hann læknadi hallta, blinda og líkþráa, mettadi mørg þúsund manns med fáum braudum, stillti stormvedur, uppvakti dauda og útrak djøfla, alleinasta med einu ordi. Á líkann hátt sagdi hann frá því, sem adrir hensktu, sagdi fyrir sinn dauda og Gydinganna eydilegging. (Marc. 4. 6. Cap. Matth. 23. Cap.)

167. Hverja vegsemd ødladist hann?

Hann forklárадist á nockru fjalli, svo hans andlit skein sem sól. Þar eptir, þegar hann reid inn í Jerúsalem, fylgdi fólkid honum med pálma-vidum og gladværdar hrópi, en Jesús gret þá yfir þeirri ólucku, sem þeim var búin, þar þeir ei vildu umvenda sér. (Matth. 17. Lúc. 19.)

168. Seig mér, hvad hann gjørdi hina sídustu nótt, ádur hann inngéck sína pínu?

Hann innsetti Sacramentum Altarisins til sinnar endurminníngar. Þar eptir géck hann út í grasgardinn Gethsemane, hvar hann leid helvítska sálar ángist, sem vér lída áttum vegna vorra synda; hann stríddi vid daudann, svo hann sveittist blódinu. (Lúc. 22.)

169. Hverjir tóku Jesúm til fánga í þessum grasgardi?

Pharíseanna þénarar, eptir

tilvísan hans eiginn Lærisveins, Júdasar Ischariot, en hinir hans Lærisveinar flýdu þá frá honum. Þar eptir dæmdu Prestarnir og rádid hann til dauda, vegna þess hann vidurkénndi þad hann Guds Sonur væri. Þessa sømu nótt slógu og dárudu þénararnir hann mjøg skammarlega. Símon Pétur stadfesti med eydi, ad hann ei þeckti Jesúm, og Júdas heingdi sjálfann sig af ørvænting. (Marc. 14. Jóh. 18. Cap.)

170. Til hvers færdu þeir hann um morguninn eptir?

Til þess Rómverska landstjórnara, sem var Pontíus Pílatus, fyrir hverjum þeir gátu þó ei sannad uppá hann nockra dauda-søk. Dómarinn vitnadi sjálfur, ad Jesús væri sikn saka; samt, svo eckért upphlaup skyldi verda, vildi hann þægja þeim í því, ad vor Frelsari væri af lífi tekinn,

en sú søk skyldi á þeim bitna. (Lúc. 23.)

171. Hversu var hann þá medfarinn?

Stríds-mennirnir húdstrýktu hann hørmulega, þreingdu þyrni kórónu ofan á hans høfud, hræktu í hans ásjónu og spottudu hann, því nærst var hann útfærdur til fjallsins Golgatha, og á høndum og fótum negldur fastur vid einn kross millum tveggja ræníngja. (Jóh. 19.)

172. Gjørdist Jesús ei þá óþolinmódur?

Aungvanveiginn! hverki af-sakadi hann sig né møgladi, held-ur bad hann fyrir þeim, hann líflétu, og huggadi sína módur, med hverju hann audsýndi sig ad vera hid ædsta þolinmædinnar eptirdæmi fyrir oss, í þeim hørd-ustu þjáníngum. Eg veit einn-ig ad hann elskar þá, sem gjøra sanna ydran, því hann hét Para-

dísar fagnadi þeim ydrandi ræn-
íngja. (1 Pét. 2.)

173. Hvad gjørdu þeir vid hann á Krossinum?

Þeir lugu uppá hann og spott-
udu, þeir gáfu honum edik ad
drecka, og einn strídsmannanna
rak spjóti í hans sídu. Pílatus
setti þessa yfirskrift á krossinn:
Jesus af Nazareth Gydínganna
Konúngur: sem þannig hljódar
í Latínu-máli: *JESUS NAZAR-
ENUS REX IUDÆORUM.* Hvad
menn eru vanir þannig ad skamm-
stafa, med því ad rita einúngis
ordanna upphafs-stafi: *J. N.
R. I.* (Luc. 23.)

174. Skédi nockur bísn um þetta leiti?

Já, sólin misti sitt skyn um
þrjár stundir, og í sama mund
fann hann ei til huggunar eda
léttirs í sinni bitru pínu. Þeg-
ar hann andadist, skédi stór jard-
skjálfti, svo bjørgin í sundur klofn-

udu, og vid þessi undur snérust nockrir. (Matth. 27.)

175. Hvers vegna leid Jesus svo ósegjanlegar pýslir?

Vegna minna og alls heimsins nda, hvert straff hann leid góðviljuglega, því hann elskadi oss. Med þessum hætti kom hann mér í sátt vid Gud, er eg hafdi egnt til reidi, og afrekadi mér eilífa sáluhjálp; því vegna hátignar hans guddómlegu persónu hafdi hans blódugi daudi óendanlegann krapt og dyrmæti. (2 Cor. 5.)

176. Um hvad ertu honum á mót skyldugur?

Ad trúa og reida mig uppá hans forþénustu, elska hann af øllu hjarta, vera honum hlýdinn í sérhverju, strída gégn syndinni, og viljuglega umbera allt mótlæti eptir hans vilja. Þar til vyrdist hann ad veita mér sína náð og Anda! (Ebr. 4. 10)

177. Hvernig var hann greftradur?

Rétt heidarlega í grøf þess rád-herra Jósephs, sem var útheggin í steini, og var þar eptir velt stórum steini ad grafarmunnanum, hvern stein Prestarnir innsigludu, og settu voku-menn yfir, er hans skyldu gjæta. Ur þessari grøf reis hann lifandi á þridja degi næst eptir; og í minning hans upprisu høldum vér Páskahátídina. (Matth. 27. Cap.)

178. Fengu Lærisveinarnir ad sjá hann aptur?

Í fjørutygi daga opinberadist hann tídum fyrir þeim, og med því móti gjørdi þá vissa um sína upprisu. Hann gaf þeim makt til, ad fyrirgefa syndirnar þeim ydrandi, baud þeim ad prédika og skíra allar þjódir í nafn þess þríeina Guds. (Jóh. 20. Matth. 28.)

179. Fór Jesús sídan frá þeim?

Hann blessadi þá og fór til himins, hvar hann bidur fyrir oss, stjórnar og hjálpar sínum søfnudi. En ad lokum þessa heims kémur hann synilega aptur til ad dæma alla menn, eptir því sem hverr einn hefur hagad sér í þessum heimi. (Post. G. b. 1. og 10.)

180. Til hvers skal allt þetta áfýsa þig?

Til þess ad tigna og tilbidja Jesúm ásamt Fødurnum og þeim heilaga Anda; í trúnni ad færa mér í nyt hans ord og Sakrament; hugga mig í mínum breiskleika vid hans dauda og fyrirbón; einskis virda heimsins eptirlæti, heldur láta mig lánga eptir hans aptur-komu, mér til ævarand[i] frelsunar. Sjálfur hann veit mer þar til sína náð! (1 Joh. 2. Cap.)

## 10. Kapitulli,

### Um athafnir þeirra heilögu Postula.

181. Seig mér nøfn Postúlanna?

Símon Pétur, Andreas, Jacob Zebedæison, Jóhannes, Philippus, Bartholómæus, Thómas, Matthæus, Jacob Alphæison, Júdas Thaddæus, Símon af Cana, Júdas Ischarioth, en í þessa sídasta stad var Matthías sídar meir útvalinn fyrir hlutkesti. (Post. G. b. 1.)

182. Hvad bar vid á Hvítasunnu-hátídinni?

Sá heilagi Andi kom yfir Postulana, í líking eldlegra túngna, hvers vegna þeir strax gátu prédikad fyrir hverri þjód í ýmsum túngumálum. Þar eptir snérist til kristilegrar trúar fyrir Péturs rædu þrjú þúsund manneskjur. (Post. G. b. 2.)

183. Hver vóru helztu verk og athafnir Postulanna?

Þeir rituðu einn tíma eptir annann bækur hins nýa Testamentis og prédikuðu í öllum áttum; Drottinn sjálfur erfiðaði með þeim, og stadfesti orðið með jarðteiknum, sem þeir gjörðu í hans Nafni. Gyðíngarnir ofsóktu þá að vísu, settu þá í fángelsi og húð-strýktu þá, en þeir héldu framm kenníngunni öruggir, því Guð frelsaði þá, og gaf þeim djörfúng að tala orðið án ótta. (Post. G. b. 3. og 4. Cap.)

184. Skír mér frá því, hvað Pétur aðhafðist?

Hann læknaði einn mann, sem halltur var fæddur; ávítaði hann lygara Ananías, sem í sama vetfángi féll dauður niður; hann vakti af dauða Tabitham, og framm fylgdi lærdómi réttrar trúar sköruglega. Sagt er, að hann

lokšins hafi krossfestur verid í Róm, eptir vors Endurlausnara spádómi. Rádvandir menn fá tídum ei annad til launa af heiminum, enn hatur og ofsókn, hvar til Satan upphvetur sína þjóna. (Jóh. 21. Post. G. b. 5. og 9. Cap.)

185. Hver urdu æfilok Jacobs Zebedæisonar?

Heródes Agrippa lét hálshøggva hann. Slíkar hørmungar sagdi Jesús sínum Lærisveinum fyrir, og þeir umbáru þær viljugir, til vitnis þar um, hversu fullvissir þeir vóru þess, ad þad þeir kénndu ødrum, væri óbrygdanlegur sannleiki og frá Gudi kominn. Því høfum vér enga rétta orsøk ad efa þeirra kénníngar. (Post. G. b. 12. Cap. Matth. 10. Cap.)

186. Hvad veitstu ad seigja mér um Jóhannes?

Domitianus Keisari rak hann til þeirrar eyar, er Pathmus hét, hvar Jesús opinberadi sig fyrir honum, og sýndi hversu til mundi gánga í kristilegri kyrkju, edur Guds søfnudi, til dómadags. Þessi Lærisveinn var mest eptir Jesú sinni, og hans Sendibréf eru eintómis upphvatníngar til trúar og kjærleika. (Opinb. b. 1. Cap. 1 Joh. 4. Cap.)

187. Hvad fyrir einn var Jacob Alphæison?

Hann veitti forstødu søfnudinum í Jerúsalem og ritadi eitt Sendi-bréf til Gydínga, er snúist høfdu til kristilegrar trúar, og hingad og þangad vóru út dreifdir. Undir hans tilsjón var haldid eitt allsherjar mót af Postulunum, hvar kyrkju løgmál Gydínga var af tekid, sem hverki gátu þeir né þeirra fedur haldid. Fyrir hvert kristilegt frelsi oft

byrjar af alhuga ad þacka vorum Endurlausnara, og giæta þess, ad ei misbrúkum þad syndinni til yfirhylmíngar. (Post. G. b. 15. Gal. 3. Cap.)

188. Seig mér nockud af Mattheó?

Adur enn hann snérist, var hann Tollheimtumadur, þar eptir skrifadi hann sitt Evangelíum um Jesú æfi og pínu; á líkann hátt skrifadi Marcús, sem var fylgjari Péturs, einnig Lúcas, sem var samferda Páli, og Jóhannes. (Matth. 9.)

189. Á hvern hátt var sorgad fyrir þeim fátæku?

Þeir ríku seldu eignir sínar og gáfu þeim til uppheldis. Þeim fátæku til forstödu, vóru valdir sjø rádvandir og vitrir menn, af hverjum einkanlega eru greinandi þeir Stephanus og Philippus. (Post. G. b. 6.)

190. Hver urdu æfi = lok Stephans?

Hann var fullur trúar og styrkleika; þess vegna þráttudu Gydínganna kénnendur gégn honum, og báru hann rángri søk. Nú þar' hann í sinni rædu lastadi þeirra þvermódsku, hnepptu þeir hann út af Borginni og grýttu, hvad Hann bad Gud ad fyrirgéfa þeim. Þannig á vandlæting gégn syndinni, og kjærleiki, einnig til ódvina, ríkja í hjørtum kristinna manna. (Post. G. b. 7.)

191. Hvad framqvæmdi Philippus?

Hann snéri til réttrar trúar mørgum Samverskum og hofþénara nockrum frá Morlandi, prédikadi einnig á ýmsum stødum. Hans fjórar dætur spádu. Gud veri þess lofadur, ad hann hefur sinn nádar bodskap látid útberast medal heidíngjanna, því þess háttar vóru mínir forfedur. (P. G. b. 8.)

192. Hafdi søfnudur Guds nockurn nafnkenndann offóknara?

Mørgum af þeim rétt=trúudu kastadi Saul í fángelsi, en þá Jesús varadi hann vid slíku af himni, snérist hann og prédikadi Evangelium med gódum frammgángi, gjørdi kraptaverk og leid mikid illt. Eptir þad hann umsnérist kallast hann Paulus. Þannig kann einn stór syndari myskun ødlast, þá hann án yfirdrepskapar snýr sér til Guds. (Post. G. b. 9. og 1. Pist. til Timóth. 1 Cap.)

193. Upptel mér nockur kraptaverk Páls?

Hann læknadi einn mann, sem halltur var frá módur lífi; útrak af einni stúlku Pytons= edur Sannsagnar=anda, sem hrópadi, ad Postularnir væru þénarar hins ædsta Guds; vakti upp Evtychum, sem sofandi fell nidur úr einu vindauga; Gud snéri einn=

ig, fyrir hans þjónustu, mørgum heidíngum, einkum í Corinthó og Ephesó, hvar hann dvaldi nockur ár. Þau fyrstu Sendi-bréf, er hann ritadi, vóru til þeirra í Thessalonika. (Post. G. b. 14. og 20.)

194. Veittu Gydíngar honum hardar offóknir?

Þeir komu því til leidar, ad hann var útrekinn úr mørgum stødum, og eggjudu innbyggendurnir í Lystra til þess, ad grýta hann; þó fyrir Drottins fulltíngi upp stód hann ómeiddur. Honum var í Jerúsalem varpad í fangelsi og lá vid sjálft, hann yrdi þar af døgum rádinn, en hann skaut sínu málefni undir úrskurd Keisarans, og hlaut þess vegna ferdast til Rómaborgar. Þangad komst hann loksins, eptir þad hann hafdi lidid skipbrot, kénndi hverjum einum, sem sóktu á hans

fund, og ritadi þar flest øll sín Sendi = bréf. (Post. G. b. 21. til 28. Cap.)

195. Hvada dóm lagdi Keisarinn á mál hans?

Hann dæmdi Pál síknann saka; en Páll reisti þar eptir um kríng og styrkti søfnudina, medal hverra hann ádur fyrri hafdi prédikad Evangelíum Guds ríkis. Nú þegar hann ad nýu ferdadist til Róm, er mál manna, hann hafi hálshøggvinn verid, og ritadi hann skømmu ádur sitt sídara Sendi = bréf til Biskupsins Tímótheus. Hann er eptirdæmi uppá einn rétt = trúadann Jesú Kristi strídsmann. (2 Tím. 4. Cap.)

196. Hversu lyktadi ad sídustu fyrir Jerúsalem?

Eptir spádómi vors Endurlausnara var hún eydiløgd af Rómverjum, en Gydíngar ann=

adhvert sættu líftjóni fyrir sverds-eggjum, af húngri og drepsótt, eda máttu rekast um øll lønd, til vitnisburdar um Guds sannleika og Drottins vandlæting gegn þeim, er óvyrda hans miskun. (Luc. 21. Róm. 11. Cap.)

197. Hvad nefnast þær bækur heilagrar Ritníngar, sem skrifadar vóru ádur enn Jesús fæddist?

Þad gamla Testament, og eru þær þessar: fimm Mósis bækur, Jósúæ bók, Dómara bók, Rúths bók, tvær bækur Samúelis, tvær Kónga bækur, tvær Chroniku bækur, Esræ bók, Nehemíæ bók, Jobs bók, Davíds Psálmar, Salómons Ordsqvidir, Prédikari og Lofqvædi. Hér til heyra og Spámennirnir.

198. Hverjir vóru þessir Spámenn?

Fjórir þeir stóru: Esaías, Jeremías, Ezechíel, og Daníel; tólf þeir minni: Hóseas, Jóel,

Amos, Obadía, Jónas, Micheas, Nahúm, Habakuk, Zephanía, Haggaí, Sacharías, Malachías. Allar þessar bækur eru guddómlegar, og kallast Canoniskar, eda Reglu = réttar.

199. Hvad heita hinar adrar gamla Testamentisins bækur, sem leggjast til þessara?

Tobíæ bók, Júdits bók, stycki sem tilheyrir Esthers bók, Spekinnar bók, Sýraks bók, af Barúk, stycki sem tilheyra Daníel, tvær Maccabæanna bækur og Manassis bæn. Þessar kallast yfir höfud Apócryphiskar, edur huldar, því þær vóru ei opinberlega fyrir alþýdunni lesnar í Samkundu = húsunum.

200. Hvad heita þær bækur Biblíunnar, sem ritadar eru eptir Kristí himnaför?

Gudspjalla bækur Matthei, Marci, Lucæ og Jóhannis, Postulanna Gjörninga bók. Páls Sendi = bréf til Rómverja, tvø

til þeirra í Corinthuborg, til þeirra í Galatía, Epheső, Philippis, Cólossis og til þeirra í Thessalonika tvø. Til Thímótheum tvø, eitt til Títum, til Philimónum og Ebreskra. Jacobs Pistill, tvø bréf Péturs, þrjú Jóhannis og eitt Júdæ. Jóhannis Opinberínga bók. Allar þessar eru einnig guddómlegar og Canoniskar, sem þéna oss sem ein regla, eptir hverri laga eigum trú vora og framferdi.



# Rockur minnis vers,

Ort af

Síra Þorláki sál. Þórarinssyni.

---

Fjalla nøfn úr heilagti Ritníngu.

Hér skal fjalla heiti þjóð
herma, þau er Ritníng tér.
Ararath var eptir flóð
Orkina med sínum her.
Þaut af Sína þrumu hljód,
þadan géfid Løgmál er.
Knáft af Ebal kífou hnjód
Kénnimanna bølvanir.
Baudst af Grizim blessan gód
bádum, Amen sagdi hver.
Uppá Hór hann Aaron tród,
afklæddann þar lesum vér.
Bjó á Seir med børn og fljód,
bródir Jacobs hylli-þver,
sjø á Pæor Zipors jód,
Sjón ølturu byggdi ver.
Tjøld á Sapher reisu rjód,

reistu fylkin erfda = grér,
Baala nær med benja skód,
bjuggu Júda kyn = hætter.
Ephrahim ei var vidbjód,
besta kyn þá fold yrkir,
Salmon, Hebron, enn í ód,
Ephron, Heres, skriftin lér,
midt af Pisga, mót Azdod,
Móses hvildar = landid sjer.
Hann á Nebó heljar slód,
hitti senn og geck yfir.
Heit af Sion hrinda mód,
hæd þá Davids slot gyllir.
Flaut af Hermon hins á lód,
hly nátt = døgg og frjóssemdir.
Mesta borg á Moría stód,
Musterid og heiløg kér.
Hár Líbanus, fregn er fród,
frægan Cedrus vid geymir,
Hraut á Carmel himin glód,
hremmdi tvenna fimmtyger.
Fjøll Gilbóa víg um vód,
versti daudi Saul þar skér,
Fleytti Thabor føgrum sjód,

Forklárunar prísinn ber,
Á Golgatha útrann blóð,
allann heim er friðþægir,
Olíveti heiðri flóð,
Herrans pín og uppfarir.
Þegnum fjalla þulin ljóð,
þanninn falla skulu hér.

---

Tíu plágur Egyptalands.

Egyptanna uppteiknast,
átta reiði-sløg og tvenn,
Blá vøtn øll í blóð snúiast,
beisk-yldist hver lækurinn,
Illar pøddur áþreingjast
allann lýð og Konúnginn,
Moldar-lúsum mor-qveikjast,
Menn og dýr við aftøkin,
Svartir ormar sambyrjast,
svelgja og víða matvælin,
Drepsótt æðir dálegast,
deyðir hjarða frumburðinn,
Eldingar með hagli hast,

helslá bædi fé og menn.
Bruna kaunin holdid hvast,
hrísa, nær sem glódausin,
Eingispretur fánga fast,
flesta landsins ávøxtinn,
Himna ljósin heidmyrkvast,
hvergi sást um dægur brenn,
Frumgétningar foreydast,
fannst ei nockur ódrepinn,
Loksins rauda rán ad brast,
rauk þar allt í hel=køfin.



# Viðætir,

Innihaldandi hið styttsta ágrip þeirra merkilegustu hluta, sem til hafa borið í Guðs kyrkju frá Postulanna døgum framm til nálægra tíma, hvar af Guðs safnaða ásigkomulag kann nockurnveginn sjást.

## 1. Kapítuli,

Um tilstand kristilegrar kyrkju frá Postulanna døgum, til þess árs 319 eptir Kristi Fæðing.

1. Hvílíkt var lærdómsins ásigkomulag í kristilegri kyrkju á þessum tíma?

Eptir það vor Drottinn Jesús Kristur og hans Postular høfðu ei einasta í Gyðingalandi heldur og víða annarsstaðar lagt grund-

vøll til réttrar trúar og sida=lærdóms, héldu Postulanna Lærisveinar og vel flest-ir þeirra tilheyrendur, við þann sanna lær-dóm, hver einkum á hinni fyrstu øld, var einfaldlega og án fordildar kénndur af fram-ar gudhræddum ennu, eptir þessa heims á-liti, lærdum mønnum; en á þeirri annari og hélzt þridju hundrað ára øld, viku marg-ir af kénnendunum frá þeirri sønnu trúar-innar einfeldni, og þókti fágurt og framm-sýni gégna, þá þeir í útskíríngu trúarinnar høfud=greina, brúkudu ord og tals=hætti til káns tekna úr ritum heidinna spekínga edur og Gydínga; líklega þess vegna, ad þess-um því heldur skiljast kynnu kristin trúar-brøgd, og ad þau væru ei med øllu frá=leit lærdómum þeim, algeíngir vóru í Austur-álfunni; hvar af þó spruttu á sídari tímum flóknar spurníngar, rángar útleggíngar og misklídir í lærdóminum; loksins brúkudu þessa adferd, nockrir til þess, ad hylma yfir ráng-ann lærdóm.

2. Hvílíkt var útvortis ásigkomulag Krists kyrk-ju, og hverjir sidir í henni helzt tídkanlegir?

Þad rættist snemma, ad Kristi ríki er ei af þessum heimi, því hans lærdómur vard Gydíngum tídum ad ásteitíng og vitr-

íngum þessarar veraldar ad heimsku; svo Kristí brúdur var svørt og sorgleg ad ytri ásýnd, og mátti sæta þúngum ofsóknum. Þeir rétt-kristnu vøndudu mjøg sitt framferdi, og leyfdu ei hverbrotnum glæpa mønnum ad vera í sínu samqvæmi, fyrr enn þeir gjørdu alvarlega yfirbót. Þeir komu saman á vissum tímum, einkanlega Sunnudøgum og á hvatt-døgum *) til æfíngar síns kristindóms, svo sem ad lesa Guds ord, sýngja og bidja, skrifta þá breisku og safna ølmussum. Auk Sunnudagsins héldu þeir helgann hann fyrsta Páska- og Hvítasunnudag **), og þeim sem skírdust var slíkt em-

*) Ad laugar- eda hvatt-dagurinn hafi leingi framm eptir brúkadur verid til gudlegrar þjónustu, sjest medal annars af því sem ályktad var á því alda-ríngs-móti er haldid var í Laodicea hér um 370, hvar skipad er menn skyldu lesa Evangelium og adrar bækur Heilagrar Ritníngar á laugardøgum en ei halda hann jafn helgann edur framar enn Sunnudaginn.

**) Adrar hátídir voru sídar innsettar; þó eru þeir til, sem meina ad Uppstigníngar hátíd vors Frelsara hafi sídla á þeirri þridju øld haldin verid, þá hafi og innleidst sá sidur ad krossa sig.

bætti veitt einna helzt á þessum hátídum. Þá Sakramentum Altarisins var handtérad, vóru haldnar kjærleiks máltídir. Þeir veiku vóru stundum smurdir vidsmjöri, og fyrir þeim bedid eptir Postulans Jacobs skipan í hans Pist. Cap. 5. v. 14. Engvar vissar föstur vóru af Postulunum tilsettar, heldur var þad undir hvers eins kjörum komid, nær hann fasta vildi (1 Cor. 7. v. 5.) en sídar meir leiddist þad í vérnju, ad vissir dagar vóru til þess teknir. Vissar stéttir vóru einnig medal þeirra, er forstödu veittu Guds söfnudi á þeirri fyrstu öld, svo sumir kölludust Fedur, Spámenn og Evangelistar, adrir Biskupar, Öldúngar, Djáknar; og var þessi mismunur í tilliti til þess starfs, þeir á höndum höfdu, til safnadanna stærdar, er þeir vóru yfir skipadir; og nockurskonar forgángs réttar, en ei yfirdrottnunar þeirra á millum. Nú sem safnadirnir fjölgudu á annari og þridju öld, óx myndugleiki og álit þeirra, sem settir vóru yfir söfnudinn í þeim fólkriku stödum; hvad grundvöllur sýnist verid hafa til þeirra fjögra elstu og yppurstu Biskupa-stóla, er vóru í Róm, Antiochía, Alexandría og Jerúsalem, hverra formenn sídan kölludust

Patríarchar *). Um þetta tíma = skeid útbreiddist kristileg trú um þau helztu ríki í þremur álfum heimsins.

3. Hverjir vóru þeir nafnkunnugustu Lærifedur, sem eptir Postulanna daga framfylgdu kristnibodinu?

Af þeim mørgum, hverra rit flestøll eru undir lok lidin, eda oss ei sérdeilis nytsamleg, gét eg einasta þessara: á hinni fyrstu øld var 1) Clemens Biskup í Róm hvers fyrra bréf til Chorintíos lærdir menn halda honum eignandi, en hid sídara ecki. 2) Ignatíus, Biskup í Anotíochía, Postulanna Lærisveinn, hverjum, eptir Keisarans Trajaní skipun, var árid 107, eda þarum bil, varpad fyrir villudýr, og hann af þeim í hel rifinn. 3) Pólycarpus, foríngi safnadarins í Smyrna, hérum í 70 ár, og var

*) Vegna þeirra þúngu ofsókna tóku menn fyrir sig einsetur og ad flackn um í eydimørkum, og vàr slíkra foríngi cinna fyrst Páll frá Thebe. Antonius hét sá, er fyrstur setti múnklífi, og var Róm sú fyrsta borg, hvar Klaustur var sett. Melania, ein gøfug kona í Róm og mjøg rík, var sú er setti fyrst Nunnu = Klaustur í Jórsølum; og skédi þetta øndverdlega á þeirri fjórdu øld.

af lífi tekinn vegna viðurkenníngar kristilegs lærdóms, árið 167. Á annari öld, auk áður nefndra, lifðu þeir Irenæus, Biskup í Lugdunum, Clemens frá Alexandría og Tertullianus, sem er hinn elsti, er ritað hefur á Latinska túngu heilög fræði. Á hinni þriðju öld: 1) Origenes, sem samanskrifaði útleggíng yfir heilaga Ritníng, er allvíða hefur vikið frá orðanna eiginlegri meiníngu. 2) Cyprianus, Biskup í Chartagó, einn hinn merkilegasti Biskup á þessari öld, sem hálshögginn var þann 14. Sept. 258 og 3) Gregorius, Biskup í Nýu-Cæsarea, hver ed vegna kraptaverka, er honum til-leggjast, almennilega nefnist Thaumaturgus.

4. Hvað var það, sem einnamest hindraði útbreiðslu kristilegrar trúar?

Fyrst kunna menn að nockru leiti nefna hér til þær þúngu ofsóknir, kristnir urðu fyrir, þá mikill fjøldi af þeim misti lífið, frið og frelsi; en allmargir þar á mót mettu eigið gagn og jarðneska fullsælu framar enn þann lærdóm, sem manni holdlega sinnuðum rís hugur við. Þó sýnist enn meiri hindrun hafi kristniboðinu gjørt þær álygar, hatur og ófrægðar umtal, kristnir urðu fyrir, af

sínum óvinum, sem sáu, ad ef kristin trú fengi yfirhønd, mundi undir lok lída átrúnadur, sem spilltu náttúrufari var margra hluta vegna gédfeldur, og þessa lífs hégómahætti og hagsældum þéna sýndist *). En mestu hindran Guds kirkju eblíngar hynnu álitast orsakad hafa þær skadlegu og mørgu villur, er þeir útbreiddu, sem høfnudu opinberum blótum, en ad ordi qvednu til betri trúar snéruft, og héldu vid ein og ønnur hindurvitni og rángar meiníngar, þeir í øndverdu numid høfdu annadhvørt af Gydíngum, þeim offsóknurum krossins Kristí, eda heidíngum. Þessar villur voru, sem strax var sagt, skadlegar, því þær stefndu til þess ad kollkasta grundvelli vorrar trúar og sáluhjálpar; þær vóru og margar, því þared meiníngar þeirra, er vér hér køllum villumenn, en sig kølludu

*) Þetta sýnist ei hin minnsta orsøk til þess, hvar fyrir Rómverjar stódu svo mót kristni bodinu, þar þeir þó lidu annarleg trúarbrøgd Grikkra, Egyptskra og annara þjóda; kristnir vissu ei ad seigja nema af einum veigi, og þó þraungum, til sáluhjálpar; en heidíngjar þar á mót blótudu margar vættir, og þær gøtur, er leida skyldu til farsældar, vóru svo margar og margbreyttar í þeirra augum, sem hvarflandi hugbod, vidtekinn háttur, og sérþótti þeim ávísad hafdi.

Gnosticos *) vóru sín í milli ólíkar, einkum hvad snertir þá ædstu veru, þær ýmislegar verur, sem af henni skyldu hafa framflotid, um Englanna náttúru, yfirrád og verkanir í heiminum, um sálu mannanna, um líkamlegra hluta eiginlegleika, uppruna hins illa og fleira þess kyns; þá er audrádid, ad eptir því sem inngrónar meiníngar og ótamid hugbod var margslags og óstødugt, svo muni þeim trúarbrøgdum álíka hafa farid, og þeim fánýta og ólíka grundvelli, þau vóru yfirbygd.

5. Hverjir vóru þeir, sem helztar villur útbreiddu á þessum tíma?

Ecki einasta þeir, hverra getid verdur af Postulum Drottins og mótstédu þeirra kénníngum **) heldur þessir, auk margra annara

*) Ad Gnostici hafi verid viss flockur villumanna, sem sumir segja uppkomid hafi á þeirri annari øld, er ei víst; sá hálærdi Mosheim er heldur á þeirri meiníngu, ad þessu vísinda nafni hafi sig kallad allir þeir, sem á þeim fyrstu øldum hafa viljad laga og útskýra kristinn lærdóm eptir þeirra heidnu heimsspekínga meiningum.

**) Slíkir vóru Nicolaitæ. (Opinb. b. 2.) Símon, hinn Samverski, galdramadur. (P. G. b.) Hermógenes og Phygellus. (2 Tím. 1.) Hymenæus og Philetus. (2 Tím. 2.) Alexander. (1 Tím. 1.) og Diotrephes. (3 Jóh. v. 9. 10.)

sem helzt eru nafnkénndir. Á hinni fyrstu øld lifdi Menander, Lærisveinn og landsmadur Símonar galdramanns; Cerinthus, sem neitadi Kristí guddómi, og móti hverjum menn halda Jóhannes hafi skrifad sitt Gudspjall, og Ebion, sem álíktadi, ad kyrkjusidir þess gamla Testamentis ættu vid haldast. Á hinni annari øld, Satúrnínus, Basilídes og Carpócrates, er sínar villur útbreiddu hvad helzt um Egyptáland og Sýrland; hverja ad hugviti og skarpleika sýnist yfir hafa geingid Valentínus, er smídadi sér eitt nýtt lærdóms form, veljandi vissar meiníngar úr frædum Platónis, Pythagoræ og annara heidínga og villumanna, svo hann því, sem honum henta þókti, gjæti med einhverju móti samankomid vid lærdóm kristinna manna; af hverju hans samsulli spunnust margar villur og flockadrættir. Á þeirri þridju øld, vóru Sabelliani og Samósateniani, svoleidis nefndir eptir sínum foríngjum, er neitudu Kristí guddómi; Manichæí, er søgdu tvø upphøf allra hluta, gott og íllt, med ødrum þar af fljótandi villum. Medal þeirra skadlegustu kristninnar óvina má reiknast sá heidni spekíngur Ammoníus Saccas, sem, haldinn

er foríngi eda jafnvel høfundur þeirrar nýari Platónisku heimsspeki; hann skarpur af náttúru og mjøg kindugur hagadi svo sínum lærdómum, ad mørgum, sem grunnhygnir vóru, sýndust þeir ei lángt víkja frá því kristnir kénndu, enda gaf hann bædi þessum og ødrum flockum nockud eptir, svo hann kynni þann medal veg hitta í lærdóminum, er fæstum væri mjøg mótfallinn. Kristnir þess vegna, og þeir vóru ei fáir, gjørdu stórann skada Guds kyrkju, sem fylgdu lærdóms hætti Ammonii; margar trúarinnar greinir, í sjálfum sér ljósar og skiljanlegar, urdu, eptir þad þær vóru íklæddar lørfum ordsnildar mannlegrar vitsku, sjálfum sér næsta ólíkar, hvar af spruttu rángar meiníngar, hégómleg vidhøfn í Guds þjónustu og all margra fráfall frá þeim einfaldleika sem er í Kristó, til þvílíks trúarbragda samblands, sem er af þessa heims anda, en ecki Guds. (1 Pist. Cor. 2. 12).

6. Hverjum blódugum ofsóknum mætti einkanlega Kristí søfnudur um þessar mundir?

Auk þeirra hann mætti af Gydíngum (hvar um talad verdur í Postulanna Gjørnínga bók) sætti hann þýngstu ofsóknum af heidnum mønnum, einkum Rómverjum, sem þá vóru

og vídlendastir; teljast almenniliga tíu *) höfud offóknir, er nockrir af þeim Rómversku Keisurum létu yfir þá kristnu gánga, nálega optast um allt sitt veldi, auk margra annara, þeir lída máttu í vissum héródum og stórstödum. Sú fyrsta offókn skédi undir Neroni, á 63 ári eptir Kristí fædíng, en hin sídasta og þýngsta undir Keisurunum Diocletiano og Maximiano, sem byrjadi um árid 303, og varadi hér um 9 ár.

---

*) Eg held ad sönnu vid þá vidteknu tölu höfud offóknanna, en ad þær allar séu Keisurunum eignandi: efast eg um; þvi Tertúllianus (sem lifdi á 2. og 3. öld) tekur á þann hátt til orda í sínu Forsvars-skrifi kap. 5. „Nefnid mér einhvern (segir hann) af Keisurunum frá þvi Domitianus var drepinn (sem skédi árid 96) til þess nú, sem offókt hafi kristna menn?" og nockru sídar segir hann: „Enginn Hadrianus, enginn Vespatianus, enginn Pius, enginn Verus hefur offókt kristna menn." Þó er ei hérmed neitad, ad kristnir hafi lidid margfaldar offóknir af lands-höfdingjum Rómverja, þó án skipunar Keisaranna sem lifdu á annari öld; og var med þessu móti (auk margra annara) Símon Cleóphasson, ættingi Kristi, sem í heil 40 ár hafdi Biskup verid í Jerúsalem, eptir Jacob Postula, liflátinn, þá hann var 60 ára gamall, fyrir tilstilli Attici, landstjórnara á Sýrlandi.

Sú adferd almennilega brúkud vár, til ad kúga hina kristnu, ad nídast á trú sinni, var hvert-tveggja hin kyndugasta og grimmasta. Í fyrstu var á kristna leitad med blídmælum og føgrum lofunum margskonar ágjætis og fullsælu, ef þeir vildu kasta trú sinni; þá slíkt hrøck ei, var þeim kastad í fjøtur og fángelsi; en dugdi þvílíkt enn ecki, máttu þeir kristnu sæta mestu píslum; þeir vóru hálshøggnir, brennimerktir, sundurtogadir og stegldir, steiktir yfir eldi, sundursagadir og límadir, heingdir, beinbrotnir, krossfestir, grýttir og til dauda húdstrýktir; þeim var kastad í vatn, í eld, í sjódandi olíu, fyrir villudýr og fiska, er þá qvika skyldu sundurrífa; og eckért var nálega þeim það píslarfæri og qvala-kyn sparad, er grimdarfullt hyggju-vit, og af helvíti upptendrad ædi gat uppáfundid og í frammi haft. Ut af slíkum qvalanna ofni útgéck engu ad sídur lof-søgn og gledinnar saungur; og Gud, eptir sínu fyrirheiti, fjølgadi sína dýrkendur, en mínkadi ecki, hann gjørdi þá heidarlegri enn ei minni, hann frelsadi þeirra sálir út af svikrædinu og ofríkinu. og þeirra blód var dýrmætt haldid fyrir honum, Jer. 30. Psálm. 72. O, hversu undarlegir eru veg

ir Drottins! og hans handleidsla, sem frelsar, addáanleg!

7. Nú þar óffóknir og villumenn stódu svo fast móti kristnibodinu, og útbreidslu Kristí safnadar; hver var þá helzta orsök til þess, ad Guds ríki útbreiddist nálega um mestann part heimsins á ecki leingri tíma?

1) Guds almætti og addáanlega rádstöfun, er hann sýndi þar í, ad hann, fyrir embætti audvyrdilegra manna, nidurbraut, fyrir ordsins krapt, allar þær hindranir, Djöfullinn og hans útsendarar, villumenn og tyrannar, settu gégn Guds ríkis útbreidslu. 2) Þeirra kristnu, einkum á þeim fyrstu tímum, stök gudrækni og rádvendni, afneitan sjálfs síns og veraldlegs munadar, einnig þeirra velflestra yfirnáttúrleg stadfesti í trúarinnar vidurkénníngu midt í grimmustu ofsóknum og sjálfum daudanum, er þeir Guds vegna gladir lidu; hvad ei kunni annars, enn sýna þann yfirvættis Guds krapt, sem í breiskum er máttugur, og undir eins uppvekja forundran hjá hinum, er vissu til slíks. 3) Kraptaverk þau, er gjördust fyrir hendur Postulanna, og yfirnáttúrlegar gáfur (svo sem ad tala framandi túngumál án mannlegrar undirvísunar, vekja upp frá daudum,

tækna með orðum, o. s. fr.), sem þeim af heilögum Anda voru veittar, hverjar og þeir, fyrir handanna uppáleggíng, kunnu aptur öðrum meðdeila.

8. Hvað kunnum vér af áður töldu draga oss til hugleiðíngar?

1) Að Guðs myskun er óútseigjanlega stór, sem heiðíngjana, er án Guðs voru í heiminum, kallað hefur til sinnar náðar og eilífrar sáluhjálpar,

2) Að Guðs kyrkju, í tilliti til hennar viðgángs og aukníngar, má samlíkja við því líkt í fyrstu lítið sæði, er öðrum aldinum verður stærra. (Matth. 13.)

3) Að evangelíum er kraptur Guðs, sem hjálplega gjörir alla þá, sem þar á trúa, af því að þar opinberast inni það réttlæti, sem fyrir Guði dugir, hvert eð kémur út af trúnni, til trúarinnar eblíngar og auglýsíngar. Róm. 1. 16. 17.

4) Að Guðs almættis= og vísdóms=fulla stjórn lét sig hvað helzt í ljósi í þeim blóðugu ofsóknum, sinni kyrkju til varðveitslu, til fulltýngis og aukníngar.

5) Hvað af Guði er fædt, yfirvinnur heiminn, og það er hin sanna trú, sem

þeimfinn sigrar, (1 Jóh. 5.) hvad, medal annars, af píslarvottanna lífs frammgángi og endalykt nóglega hefur ásannast.

---

## 2. Kapítuli,

### Um tilstand kristilegrar kyrkju, frá hér um byrjun þeirrar fjórdu aldar til hinnar sjøundu.

---

9. Skédi nockur merkileg umbreytíng á útvortis ásigkomulagi Guds safnada ondverdlega á þeirri fjórdu øld?

Já, þegar Keisarinn Constantín hinn Mikli, var setstur ad ríkjum (eptir þad hann í herfør sinni mót Mági síuum Maxentió hafdi sjed á himnum krossmark, med yfirskrift þeirrar meiníngar, ad fyrir þess fullthyngi, er þad þýddi, mundi hann fá sigur) snérist hann algjørlega til kristilegrar trúar; sídan hindradi hann ei einasta ofsóknirnar og kalladi til baka í sitt ríki þá kristnu útlaga, heldur gaf út margar réttarbætur, kristinndóminum til eblíngar, nidurbraut hof og hørga, en byggdi

af lífi tekinn vegna viðurkenningar kristilegs lærdóms, árið 167. Á annari öld, auk áður nefndra, lifðu þeir Irenæus, Biskup í Lugdunum, Clemens frá Alexandría og Tertullianus, sem er hinn ellsti, er ritað hefur á Latinska túngu heiløg fræði. Á hinni þriðju øld: 1) Origenes, sem samanskrifaði útleggíng yfir heilaga Ritníng, er allvíða hefur vikið frá orðanna eiginlegri meiníngu. 2) Cyprianus, Biskup í Chartagó, einn hinn merkilegasti Biskup á þessari øld, sem hálshøgginn var þann 14. Sept. 258 og 3) Gregoríus, Biskup í Nýu-Cæsarea, hver eð vegna kraptaverka, er honum til-leggjast, almennilega nefnist Thaumaturgus.

4. Hvað var það, sem einnamest hindraði útbreiðslu kristilegrar trúar?

Fyrst kunna menn að nockru leiti nefna hér til þær þúngu ofsóknir, kristnir urðu fyrir, þá mikill fjøldi af þeim mistu lífið, frið og frelsi; en allmargir þar á mót møttu eigið gagn og jarðneska fullsælu framar enn þann lærdóm, sem manni holdlega sinnuðum rís hugur við. Þó sýnist enn meiri hindrun hafi kristniboðinu gjørt þær álygar, hatur og ófrægðar umtal, kristnir urðu fyrir, af

sínum óvinum, sem sáu, ad ef kristin trú fengi yfirhønd, mundi undir lok lída átrúnadur, sem spilltu náttúrufari var margra hluta vegna gédfeldur, og þessa lífs hégómahætti og hagsældum þéna sýndist *). En mestu hindran Guds kirkju eblíngar kynnu álitast orsakad hafa þær skadlegu og mørgu villur, er þeir útbreiddu, sem høfnudu opinberum blótum, en ad ordi qvednu til betri trúar snérust, og héldu vid ein og ønnur hindurvitni og rángar meiníngar, þeir í ønd verdu munid høfdu annadhvørt af Gydíngum, þeim offókuurum krossins Kristí, eda heidíngum. Þessar villur voru, sem strax var sagt, skadlegar, því þær stefndu til þess ad kollkasta grundvelli vorrar trúar og sáluhjálpar; þær véru og margar, því þared meiníngar þeirra, er vér hér køllum villumenn, en sig kølludu

*) Þetta sýnist ei hin minnsta orsøk til þess, hvar fyrir Rómverjar stódu svo mót kristni bodinu, þar þeir þó lidu annarleg trúarbrøgd Griskra, Egyptskra og annara þjóda; kristnir vissu ei ad segja nema af einum vegi, og þó þraungum, til sáluhjálpar; en heidíngjar þar á mót blótudu margar vættir, og þær gøtur, er leida skyldu til farsældar, vóru svo margar og margbreyttar í þeirra augum, sem hvarflandi hugbod, vidtekinn háttur, og sérþótti, þeim ávísad hafdi.

Gnosticos *) vóru sín í milli ólíkar, einkum hvad snertir þá ædstu veru, þær ýmislegar verur, sem af henni skyldu hafa framflotid, um Englanna náttúru, yfirrád og verkanir í heiminum, um sálu mannanna, um líkamlegra hluta eiginlegleika, uppruna hins illa og fleira þess kyns; þá er audrádid, ad eptir því sem inngrónar meiníngar og ótamid hugbod var margslags og óstödugt, svo muni þeim trúarbrøgdum álíka hafa farid, og þeim sánýta og ólíka grundvelli, þau vóru yfirbygd.

5. Hverjir vóru þeir, sem helztar villur útbreiddu á þessum tíma?

Ecki einasta þeir, hverra gétid verdur af Postulum Drottins og mótstédu þeirra kénníngum **) heldur þessir, a k mergra annara

*) Ad Gnostici hafi verid viss flockur villumanna, sem sumir segja uppkomid hafi á þeirri annari øld, er ei víst; sá hálærdi Mosheim er heldur á þeirri meiníngu, ad þessu vísinda nafni hafi sig kallad allir þeir, sem á þeim fyrstu øldum hafa viljad laga og útskýra kristinn lærdóm eptir þeirra heidnu heimsspekínga meiníngum.

**) Slíkir vóru Nicolaitæ. (Opinb. b. 2.) Símon, hinn Samverski, galdramadur. (P. G. b.) Hermógenes og Phygellus. (2 Tím. 1.) Hymenæus og Philetus. (2 Tím. 2.) Alexander. (1 Tím. 1.) og Diotrephes. (3 Jóh. v. 9. 10.)

sem helzt eru nafnkénndir. Á hinni fyrstu øld lifdi Menander, Lærisveinn og landsmadur Símonar galdramanns; Cerinthus, sem neitadi Kristi guddómi, og móti hverjum menn halda Jóhannes hafi skrifad sitt Gudspjall, og Ebion, sem álíktadi, ad kyrkjusidir þess gamla Testamentis ættu vid haldast. Á hinni annari øld, Satúrnínus, Basilídes og Carpócrates, er sínar villur útbreiddu hvad helzt um Egyptaland og Sýrland; hverja ad hugviti og skarpleika sýnist yfir hafa geingid Valentínus, er smídadi sér eitt nýtt lærdóms form, veljandi vissar meiníngar úr frædum Platónis, Pythagoræ og annara heidínga og villumanna, svo hann því, sem honum henta þótti, gjæti med einhverju móti samankomid vid lærdóm kristinna manna; af hverju hans samsulli spunnust margar villur og flockadrættir. Á þeirri þridju øld, vóru Sabellíaní og Samósateníaní, svoleidis nefndir eptir síuum foríngjum, er neitudu Kristi guddómi; Manichæí, er søgdu tvø upphøf allra hluta, gott og íllt, med ødrum þar af fljótandi villum. Medal þeirra skadlegustu kristninnar óvina má reiknast sá heidni spekíngur Ammoníus Saccas, sem haldinn

er foríngi eda jafnvel høfundur þeirrar nýari Platónisku heimsspeki; hann skarpur af náttúru og mjøg kindugur hagadi svo sínum lærdómum, ad mørgum, sem grunnhygnir vóru, sýndust þeir ei lángt víkja frá því kristnir kénndu, enda gaf hann bædi þessum og ødrum flockum nockud eptir, svo hann kynni þann medal veg hitta í lærdóminum, er fæstum væri mjøg mótfallinn. Kristnir þess vegna, og þeir vóru ei fáir, gjørdu stórann skada Guds kyrkju, sem fylgdu lærdóms hætti Ammonii; margar trúarinnar greinir, í sjálfum sér ljósar og skiljanlegar, urdu, eptir þad þær vóru íklæddar lørfum ordsnildar mannlegrar vitsku, sjálfum sér næsta ólíkar, hvar af spruttu rángar meiníngar, hégómleg vidhøfn í Guds þjónustu og all margra fráfall frá þeim einfaldleika sem er í Kristó, til þvílíks trúarbragda samblands, sem er af þessa heims anda, en ecki Guds. (1 Pist. Cor. 2. 12).

6. Hverjum blódugum ofsóknum mætti einkanlega Kristí sofnudur um þessar mundir?

Auk þeirra hann mætti af Gydíngum (hvar um talad verdur í Postulanna Gjørnínga bók) sætti hann þýngstu ofsóknum af heidnum mønnum; einkum Rómverjum, sem þá vóru

og vídlendastir; teljast almennilega tíu *) høfud ofsóknir, er nockrir af þeim Rómversku Keisurum létu yfir þá kristnu gánga, nálega optast um allt sitt veldi, auk margra annara, þeir lída máttu í vissum hérødum og stórstødum. Sú fyrsta ofsókn skédi undir Neroni, á 63 ári eptir Kristí fædíng, en hin sídasta og þýngsta undir Keisurunum Diocletiano og Maximiano, sem byrjadi um vorid 303, og varadi hér um 9 ár.

---

*) Eg held ad sønnu vid þá vidteknu tølu høfud ofsóknanna, en ad þær allar séu Keisurunum eignandi: efast eg um; þvi Tertúllianus (sem lifdi á 2. og 3. øld) tekur á þann hátt til orda í sínu Forsvars-skrifi kap. 5. „Nefnid mér einhvern (segir hann) af Keisurunum frá þvi Domitianus var drepinn (sem skédi árid 96) til þess nú, sem ofsókt hafi kristna menn?" og nockru sídar segir hann: „Enginn Hadrianus, enginn Vespatianus, enginn Pius, enginn Verus hefur ofsókt kristna menn." Þó er ei hérmed neitad, ad kristnir hafi lidid margfaldar ofsóknir af lands-høfdingjum Rómverja, þó án skipunar Keisaranna sem lifdu á annari øld; og var med þessu móti (auk margra annara) Simon Cleóphasson, ættingi Kristi, sem í heil 40 ár hafdi Biskup verid í Jerúsalem, eptir Jacob Postula líflátinn, þá hann var 60 ára gamall, fyrir tilstilli Attici, landstjórnara á Sýrlandi.

Sú adferd almennilega brúkud vár, til ad kúga hina kristnu, ad nídast á trú sinni, var hvert-tveggja hin kyndugasta og grimmasta. Í fyrstu var á kristna leitad med blídmælum og føgrum lofunum margskonar ágjætis og fullsælu, ef þeir vildu kasta trú sinni; þá slíkt hrøck ei, var þeim kastad í fjøtur og fángelsi; en dugdi þvílíkt enn ecki, máttu þeir kristnu sæta mestu píslum; þeir vóru hálshøggnir, brennimerktir, sundurtogadir og steigldir, steiktir yfir eldi, sundursagadir og límadir, heingdir, beinbrotnir, krossfestir, grýttir og til dauda húdstrýktir; þeim var kastad í vatn, í eld, í sjódandi olíu, fyrir villudýr og fiska, er þá qvika skyldu sundurrífa; og eckért var nálega þeim þad píslarfæri og qvala-kyn sparad, er grimdarfullt hyggju-vit, og af helvíti upptendrad ædi gat uppáfundid og í frammi hast. Ut af slíkum qvalanna ofni útgéck engu ad sídur lof-føgn og gledinnar saungur; og Gud, eptir sínu fyrirheiti, fjølgadi sína dýrkendur en mínkadi ecki, hann gjørdi þá heidarlegi enn ei minni, hann frelsadi þeirra sálir af svikrædinu og ofríkinu. og þeirra blód var dýrmætt haldid fyrir honum, Jer. 3 Psálm. 72. O, hversu undarlegir eru veg

ir Drottins! og hans handleidsla, sem frelsar, addáanleg!

7. Nú þar ofsóknir og villumenn stódu svo fast móti kristnibodinu, og útbreidslu Kristí safnadar; hver var þá helzta orsök til þess, ad Guds ríki útbreiddist nálega um mestann part heimsins á ecki leingri tíma?

1) Guds almætti og addáanlega rádstøfun, er hann sýndi þar í, ad hann, fyrir embætti audvyrdilegra manna, nidurbraut, fyrir ordsins krapt, allar þær hindranir, Djøfullinn og hans útsendarar, villumenn og tyrannar, settu gégn Guds ríkis útbreidslu. 2) Þeirra kristnu, einkum á þeim fyrstu tímum, støk gudrækni og rádvendni, afneitan sjálfs síns og veraldlegs munadar, einnig þeirra velflestra yfirnáttúrleg stadfesti í trúarinnar vidurkénníngu midt í grimmustu ofsóknum og sjálfum daudanum, er þeir Guds vegna gladir lidu; hvad ei kunni annars, enn sýna þann yfirvættis Guds krapt, sem í breiskum er máttugur, og undir eins uppvekja forundran hjá hinum, er vissu til sliks. 3) Kraptaverk þau, er gjørdust fyrir hendur Postulanna, og yfirnáttúrlegar gáfur (svo sem ad tala framandi túngumál án mannlegrar undirvísunar, vekja upp frá daudum,

tækna með orðum, o. s. fr.), sem þeim af heilögum Anda vóru veittar, hverjar og þeir, fyrir handanna uppáleggíng, kunnu aptur öðrum meðdeila.

8. Hvað kunnum vér af áður töldu draga oss til hugleiðíngar?

1) Að Guðs mýskun er óútsegjanlega stór, sem heiðíngjana, er án Guðs vóru í heiminum, kallað hefur til sinnar náðar og eilífrar sáluhjálpar,

2) Að Guðs kyrkju, í tilliti til hennar viðgángs og aukníngar, má samlíkja við því líkt í fyrstu lítið sæði, er öðrum aldinum verður stærra. (Matth. 13.)

3) Að evangelíum er kraptur Guðs, sem hjálplega gjörir alla þá, sem þar á trúa, af því að þar opinberast inni það réttlæti, sem fyrir Guði dugir, hvert eð kémur út af trúnni, til trúarinnar eblíngar og auglýsíngar. Róm. 1. 16. 17.

4) Að Guðs almættis= og vísdóms=fulla stjórn lét sig hvað helzt í ljósi í þeim blóðugu ofsóknum, sinni kyrkju til varðveitslu, til fulltýngis og aukníngar.

5) Hvað af Guði er fædt, yfirvinnur heiminn, og það er hin sanna trú, sem

þeimsinn sigrar, (1 Jóh. 5.) hvad, medal annars, af píslarvottanna lífs frammgángi og endalykt nóglega hefur ásannast.

## 2. Kapítuli,

### Um tilstand kristilegrar kyrkju, frá hér um byrjun þeirrar fjórdu aldar til hinnar sjøundu.

9. Skédi nockur merkileg umbreyting á útvortis ásigkomulagi Guds safnada ondverdlega á þeirri fjórdu øld?

Já, þegar Keisarinn Constantín hinn Mikli, var setstur ad ríkjum (eptir þad hann í herfør sinni mót Mági sínum Maxentíó hafdi sjed á himnum krossmark, med yfirskrift þeirrar meiníngar, ad fyrir þess fulltyngi, er þad þýddi, mundi hann fá sigur) snérist hann algjørlega til kristilegrar trúar; sídan hindradi hann ei einasta offóknirnar og kalladi til baka í sitt ríki þá kristnu útlaga, heldur gaf út margar réttarbætur, kristinndóminum til eblíngar, nidurbraut hof og hørga, en byggdi

upp kyrkjur og skóla og lagdi mikid fé til, svo fyrir hans framqvæmd útrýmdist heidinn átrúnadur allvída í hans ríkjum, en Kristi søfnudur naut almennilegs fridar og forsvars, efldist einnig og útbreiddist undir hans ríkisstjórn og hans eptirkomara, sem vid hreinann lærdóm héldu. Sat hann fyrst í Rómaborg, en þar hennar innbyggendur vóru mjøg fastir fyrir, ad hafna blótum og heidínglegri villu, þá flutti hann sig frá Róm til Bizantium, hvern stad hann efldi sídan og kalladi eptir sínu nafni Constantínópólis, er vér køllum Miklagard, og var sú borg innvígd árid 330 til Keisaralegs adseturs stadar. Hann skipti ríkjum sínum í viss Herradæmi, Fylki og Sýslur, og eptir því ad nockru leiti var lagud sú andlega stjórn, svo sídan, eptir ýmsri stærd safnadanna, hétu þeirra forstjórar annadhvert Patríarchar, Erki-biskupar, Lýd-biskupar og Öldúngar, undir hverra yfirrádum og tilsjón vóru hinar lægri stéttir, svo sem Erki-Djáknar, Djáknar, Sub-Djáknar, Barnafrædarar, dyra-verdir Acoluti, etc.

10. Hvílíkt var tilstand lærdómsins og sidanna í kristilegri kyrkju á þessum 300 árum?

Ætíd fundust þeir, sem vidurkénndu þann

sanna Evangelíi lærdóm, jafnvel þó honum mótstadid eda brjálad væri af ýmsum villumønnum; en eptir þad kristnir høfdu fengid almennann frid, og vóru komnir til metorda og velstands, fór hjá allmørgum hnignandi hin gamla einfeldni í lærdómsins framburdi, sannur Guds ótti og gódir sidir; metorda gyrnd þar á móti medal safnadanna forstjóra, ýfirlæti og margskonar nýúngar innsmeigdu sér hvad eptir annad í opinbera Guds þjónustugjørd, og þetta illgresi spillti þess framar Guds akri og útbreiddi sig, því leingra sem leid frá þeim tíma, óvinurinn hafdi sád því. Í þeirri útvortis vidhøfn, sem brúkud var í opinberri Guds þjónustugjørd var samt nockur mismunur medal safnadanna, eptir því sem þeirra forstødu menn vóru lyndir til, einnig eptir því, sem tímanna og stadanna ásigkomulag útheimti. Á þeirri fjórdu øld vóru vissir føstu-tímar tilsettir, en á fimmtu øld var fluttur til baka Jóladagurinn frá 6ta Jan. til 25ta Decembris, þá vóru aftekuar þær gømlu kjærleiks máltídir, og þá veitti Leó Páfi, sem kallast hinn Mikli, stór-syndurum leyfi heimuglega ad skriftast fyrir sínum Presti, hvad ádur skédi opinberlega fyrir søfnudinnm. Þeim sem skírdir

vóru, var látid salt í munninn, og vóru þeir sídan 7 daga í hvíta = vodum. Ei einasta Jóla = nóttin, bodunar = og hreinsunar-hátíd-ir Maríu og Jónsmessa, heldur á 5. og 6. øld, ár = tídir helgra manna vóru haldnar heilagar. Nú var Múnk = lífum fjølgad, og lærdómurinn, sem stód í blóma, medan Constantín Mikli og fyrir hans lífdu, snérist eptir þeirra daga í hjátrú og optsinnis hverxl-anlegar þráttanir, hvar til sá mikli fjøldi ó-lærdra klaustra manna ei lítid hjálpadi *). Það er og engin sómi þessum tímum, ad

*) Harðlífi, og ad yfirgéfa alla veraldlega umsýslan, meintu menn á þessum tímum vissasta veg til Paradísar, og hér af hafa sinn uppruna þær mørgu og, á sídari tímum, margføldudu múka = stéttir. Slíka stétt setti fyrstur Antonius, árid 305, sem útbreisdist fyrst um Egyptaland, sídan Sýr-land, Gydingaland og vídar annarsstadar; en færd-ist í þá vestlægu kyrkju fyrir tilstilli Marteins Biskups Turonensis. Þar eptir á hinni 5. øld fyrirsettu vissar lífs reglur múkunum Augústínus, Basilius og fleiri, eptir hverjum formønnum þess-ar stéttir nefndu sig. Á þeirri 6. øld jóku þenn-ann Klaustra fólks grúa Congallus Enski, Columbas Irski og hinn helgi Benedict, hvørs reglum fylgdi nær ótølulegur skari reglu = bundinna manna í þeirri Rómversku kyrkju.

þeim tilefnkast svo kallaðar *piae fraudes* *), eður svik, er styrkja skyldu trúarbrøgðin, og vóru tídkanleg leingi framm eptir øldunum; enn síður er sæmandi sá ákafi, með sverði, eldi, fángelsi eða útlegð að offækja þá, er rángar meiníngar sýndust hafa um Guð og guðlega hluti; þar hið fyrra var nauðsynjalaust og gétur ei saman átt við guðhræðslunnar sannleika; og hið síðara ei við Evangelii hógværðar anda.

11. Hverjir vóru helztu yfirboðarar þeirrar sýnilegu kyrkju um þessar mundir?

Sú ypparsta makt var hjá Keisurunum,

*) Híngað lúta ýmisleg rit og bækur, sem á fyrri og síðari tímum uppdiktaðar, ránglega eignast nú vissum spákonum í fornum sið, sem nefnast Sybillæ, nú Lærisveinum Drottins, eður þeirra tilheyrendum, svo sem eru Postulanna Canones og Statútur, sem Clemens Rómaborgar Biskup skyldi hafa samantekið, etc. Híngað heyrir og slægð og veiði = brellur þeirra, hverjum til ábata og frama horfði að qveikja og næra ýmsa hjátrú meðal alþýðunnar, sem færðu með sér (frá þeim støðum, er eitthvað heilagleikans ágjæti øðrum framar meintust hafa), svo kallaða helga dóma, sem þóktust með færíngum hamlað géta ásóknum illra anda, sem smíðuðu ýmsar frásagnir um margskonar bisn og undur, er styrkja skyldi þar hégylljur, þess háttar mønnum var um géfið að útbreiða.

ad því leiti sem þeir vóru kyrkjunnar fósturfedur, en á sídari tímum vildu þá andlegu stjórn undir sig draga Patríarcharnir í Róm, í Miklagardi, í Antíóchía á Sýrlandi, í Alexandría á Egyptalandi og sá í Jerúsalem; svo Guds söfnudur, í tilliti til þessara höfud fedra, kalladist af sumum Qviniverter, edur fimm=höfdadur. Þó deildu helzt um þau ædstu metord Rómaborgar og Miklagards Biskupar, og hefur ei ad fullu, eda til leingdar, um heilt gróid þeirra á milli.

12. Upptel mér nockra af þeim helztu Lærifedrum!

Á þeirri fjórdu öld lifdu, 1) Athanasíus Biskup í Alexandría, er vasklega stríddi fyrir þann hreina lærdóm, og mátti þess vegna þola útlegd og þúngar ofsóknir, af þeim, er héldu med Arii lærdómi. 2) Evsebius, Biskup í Cæsarea, nafnkénndur Sagnaskrifari. 3) Hérónymus, hálærdur madur, útlagdi á latínu bækur heilagrar Ritníngar. 4) Aurelíus Augústínus, Biskup í Hypponeso í Africa, er deydi 305. 5) Jóhannes, vegna sinnar ordgnóttar og málsnilli kalladur Chrysostomus (gullmunnur) var Biskup í Miklagardi; Hann mætti stórum ofsóknum og deydi 407. 6) Basi=

lius Magnus, Biskup í Cæsarea og hans bródir Gregorius, Biskup í Nyssía, Item: Ambrosius Biskup í Maylandi. Á þeirri fimmtu øld: 1) Cyrillus, Biskup í Alexandría. 2) Arnobius hinn yngri. 3) Severus Sulpitius. Á hinni sjøttu øld: Gregorius hinn fyrsti þess nafns, Biskup í Róm, kalladur hinn Mikli; þá var og uppi sá frægi Rím=meistari Dionysius, hinn Litli, Abóti í Róm, ættadur úr Svíþjód hinni køldu, er leiddi árstal kristinna manna frá Kristí fæding og deydi 540.

13. Skédi enn framar nockur merkileg umbreyting í því Rómverska Einvaldsdæmi, sem álítast kann nockurskonar undirrót til þeirra biltínga og ofsókna, sídar uppkomu í kristilegri kyrkju?

Ad vísu: þeir bræður Gratianus og Valentinianus Keisarar tóku sér til medhjálpar í ríkisstjórninni Theodosium, sem vegna síns manndóms og ágjætrar framqvæmdar kallast hinn Mikli; ad þeim bræðrum daudum vard hann allsherjar Keisari þess Rómverska veldis, og eptir 16 ára ríkisstjórn deydi hann árid 365. Hann átti sér tvo sonu, hét hinn eldri Arcadius, en

hinn yngri Honorius, milli hverra skipt var Keisaradæminu. Fékk Honorius þau ríki er láu til vesturs frá Miklagardi, nefnilega: Italíam, Hispaníam, Gallíam, einnig Brettland, Þýdskaland, Ungaren, og þau ríki Sudurálfunnar, sem liggja næst Midjardar-sjónum; en Arcadius fékk þad austlæga Keisaradæmi, hverju ad tilheyrdi: 1) í Austurálfunni, sú litla Asía, sem nú um stundir kallast Natolia, Turcomannia, sem fyrrum hét Armenia Major, Diarbeker, Arabía, Sýrland og Gydingaland. 2) Í Sudurálfunni, Egyptaland og Lybía, sem nú kallast Barcan. 3) Í Nordurálfunni þau land-pláz, sem liggja vid fljótid Dóná allt til Belgrad, og heila Grickland. Þad austlæga Keisaradæmi varadi til 1453 þá Mahómet annar inntók Miklagard. En þad vestlæga Keisaradæmi varadi miklu skémur, nefnilega: til ársins 486, þegar Romulus Momyllus, sem vegna þess hann var lítill verti kallast Augustulus, var gjør landflótta af Odoacer, Kóngi þeirra Herulorum, er hafdi sitt adsetur í Ravenna. Þessir Heruli meinast þýdskt fólk er í øndverdu bjuggu í grend vid Eystra Salt. Brutu undir sig um þessar mundir ýms ríki

þess vèstlæga Keisaradæmis herkóngar þeir, sem komu úr þeim norðlægu löndum, af hverjum flestir, ef ei allir, fylgdu Arii villu. Gautar, edur Gothr, inntóku Spaníaland og part af Gallía, en hinn partinn brutu undir sig Frænkis menn úr Pýðskalandi komnir, hvaraf landid kallast sídan Frackland edur Fránkaríki. Genserik Vinda Kóngur upprètti nýtt ríki í Africa árid 455, og ríktu þar hans eptirkomendur til ársins 533 þegar Belisarius, Keisarans Justiniani Hers = höfdíngi, vann þad og lagdi undir Keisaradæmid. Vestur = Gautar inntóku part af Gállía og Hispanía árid 411. Austur = Gautar ráku Herulos burtu úr Italía árid 493, og var þeirra fyrsti Kóngur Pidrek (Theodoricus) er hafdi sitt adsetur í Verona. Peirra sídasti Kóngur Tejus misti lífid í þeirri orustu, er hann átti vid Narses, einn Persískann géldíng, sem var Hers = höfdíngi þess Gríska Keisara Justiniani ens 1ta árid 553. En þared Narses þóktist ei fá makleg málagjöld fyrir svo frægann figur, er hann hafdi unnid Keisaranum, gjördi hann uppreist mót honum og kalladi inn í Italíam úr þeim nordlægu ríkjum þá svo kallada Lángbarda (Lon=

gobardos *) sem inntóku nyrdra hlut Vallands, sem nú kallast Lombardíe, og ríktu þar leingi sídan. Yfir Róm og Sudur-partinn af Italía settu þeir Grísku Keisarar Jarla, er skyldu halda ríkinu undir þá, hvad ed vidhéldst 184 ár, uns Aistolfur Lángbarda Kóngur árid 752, inntók stadinn Ravenna, og rak í burt þann sídasta Jarl edur Landstjórnara Evtychum. Þeirra sídasti Kóngur hét Desiderius, sem var yfirunninn af Karli Mikla (sem annars kallast Karla-Magnús) Frackakóngi, og færdur til Fracklands, eptir það, ad það Longobardiska ríki hafdi stadid í 206 ár. Eignadist þá Páfinn **) í Róm það ríki er þeir Grísku Jarlar vóru yfir settir, ad

*) Þessir Lángbardar vóru um flackandi fólk komid frá Jótlandi, Holsetulandi og vída annarsstadar, fóru fyrst til Gautlands, sídan til Re, hvar þeir skyldu skip sín eptir; þar eptir fóru þeir landveg og lendtu loksins í Italía, hvar þeir, einnig út á Pul, festu fót. *V. Annal. Visby. min. ad ann.* 686.

**) Páfa- edur Fødur-nafnid var í öndverdu almennilega tillagt safnadanna forstødu-mønnum, en þeim Rómversku Biskupi Gregorio þeim sjøunda var það, sem sérlegt vyrdingar nafn, í fyrstu gefid, hvad og fylgt hefur sídan hans eptirkomendum.

gjøf Pipins Kóngs og sonar hans Carls; hvar í mót Páfinn gaf Keisara nafn = bót Carli Kóngi.

14. Hverjar villur hindrndu hvad helzt um þetta tíma = skeid útbreidslu kristilegrar trúar?

Á fjórdu øld villu-lærdómur 1) Arii, er neitadi því Sonurinn væri samrar veru og Fadirinn. Pessi villa útbreiddist mjøg vída bædi í þeirri Grísku og Rómversku kyrkju, og kom af stad stærstu offóknum, er gengu yfir þá rétta trú høfdu, einkum yfir hennar helztu forsvarsmenn, sem var Athanasius og Osius Biskup í Corduba. 2) Photini, er neitadi Kristí guddómi, og ad hann væri guddómleg persóna. Á fimmtu øld: 1) Pelagii (sem var Enskur ad ætt og hét Morgan réttu nafni, sem þýdir: sjómann), er neitadi uppruna = syndinni, og sagdi menn kynnu uppfylla løgmálid af eiginn krøptum. 2) Nestorii, sem var Biskup í Miklagardi, en sídan afsettur; hann álycktadi ad tvær persónur væru í Kristó, í stadinn fyrir tvær náttúrur, og ad hans módir María mætti ei Guds módir kallast *). 3) Lucidi, er meinti Gud

*) Margir meina, ad Nestorius mundi ei hafa talinn ordid med villumønnum, ef hann hefdi betur ad-

fortakslaust útveldi sama til eilífs lífs, og á sama hátt adra til eilífra qvala. Á sjøttu øld villa Eutychis, er Biskup var í stadnum Sirmio í Illyría landi, hann vildi til baka reka Nestorium, en féll í adra villu, neitandi adgreining náttúranna í Kristó.

15. Hvad var hid tídkanlegasta medal í kristninni, ad koma í veg fyrir þessar villur?

Um þessa tíma settu Keisararnir allsherjar Biskupa þíng og víss Öldúnga mót, á hverjum skéra skyldi úr þeim þrætum, sem uppkomu lærdómi, kyrkju-sidum og hennar stjórn vidvíkjandi. Hid fyrsta þess háttar, eptir Postulanna daga, var þad, Constantín hinn Mikli setti árid 325 í borginni Nicea

---

gjætt hvad náttúra og persóna séu, og med meiri kempni hefdi prófad verid hans málefni; en hvad um þad, þá veik hann frá ordanna vidtekinni þýding, og med samlíkingum, dregnum af mannsins náttúrufari, vildi úrskíra þann leyndardóm, sem ógripanlegur er mannlegri skynsemi. Einginn af hans Lærisveinum hefur framar útbreidt hans kénningar enn Barsumas frá Nisbi, er útvegadi hjá Pherosi Persa Kóngi, øruggt hæli þeim er Nestorii lærdóm fylgdu, svo þeir jafnvel til þessa dags eru í Seleucia og Ctesiphonte, og hafa þar sinn Patriarcha.

Bithyniæ sem liggur í litlu Asía, hvar Arii villa var fordæmd. Þar af kom það, ad Osius Biskup, sem var formadur þessarar samkomu, og Athanasius, saman tóku trúarjátnínguna, sem sídar var stadfest á því Öldúnga móti, sem undir Theodosio Mikla haldid var í Miklagardi 381, sem reiknast almennilega hid annad allsherjar þíng. Á líkann hátt setti hid þridja Biskupa=þíng Theodosius yngri, Miklagards Keisari, það ár 431 í borginni Ephesó, til ad fordæma villu Nestorii; hid fjórda slíkt setti Marcianus Keisari, árid 451, í Calcedone móti villu Evtychis. Það sem ályktad hefur verid á þessum fjórum ádur tédum Biskupa þíngum, lærdómi trúarinnar vidvíkjandi, er, sem viss regla og heilagri Ritníngu samhljóda, vidtekid almennilega í kristninni, einnin af þeim, sem brotist hafa undan Páfans oki *). Á eptirkomandi öldum vard það sídan all tídt ad halda slíkar samkomur, sem skjaldan gjördu minni skada enn bót í kristninni.

*) Um þetta skeid tölbast þeir almennilega í flocki þeirra rétt=trúudu, sem medtóku (svo kallada) Postulanna og Athanasii Trúar=játníng.

16. Hverjir vóru um þetta skeið helztu ofsóknarar Guðs safnaðar?

Á þeirri fjórðu öld Julianus er átti Elínu, dóttur Constantíns Keisara hins Mikla. Hann var að sönnu uppfræddur í þeirri kristilegu trú, en þar hann lagði sig mjög eptir veraldlegum vísdómi, þá er meiníng manna, að þeir heiðnu spekíngar, er kénndu og numu bóklegar méntir í Athenuborg, með hverjum hann umgéckst, hafi lockað hann frá réttri trú; því þá hann varð Keisari, kastaði hann ei einasta trú sinni, heldur má álítast hinn þýngsti og skaðlegasti óvinur hennar. Eldri dæmi sýndu honum, hversu þúngt það veitti þeim hinum fyrri heiðnu Keisurum með píslum og mann-drápum, að uppræta kristinndóminn, og því brúkaði hann aðra meðferð; hann kallaði til baka þá í útlegð reknu Biskupa, til að qveikja innbyrðis óeiníng meðal þeirra kristnu; hann svipti þá virðíngum, embættum og eignum, svo þeir yrðu auðvirðilegir í augum heiðíngjanna, er hann setti til æðstu valda og hafði sér handgengna; sjálfur blótaði hann skúrgoð og offraði, en þá kristnir qvörtuðu yfir því ofríki og fémissu, þeir líða máttu, svaraði hann þeim með þessum Kristí orð-

um: Sælir eru fátækir. Hann var Gyd-íngunum mjøg hlidhollur, og til ad hnekkja Ritníngarinnar sannleika, leyfdi hann þeim ei einasta, heldur og veitti þeim mikinn abla til ad uppbyggja Jerúsalems Musteri, í sama stad þad ádur hafdi stadid; en fyrir Guds tilstilli, sem ei lætur ad sér hæda, hindrad-ist þetta áform, med því þar kom upp úr grundvellinum eldur, er fortærdi byggíng-unni sjálfri, og mørgum þeim, er ad því verki stódu; hvad medkénna hljóta vinir Jú-líaní, og kristninnar óvinir, sá heidni Sagna-skrifari Ammíanus Marcellinus og Gyd-íngurinn Rabbí Gedalía. Til lucku fyrir Guds kristni géck þessi ský-flóki vonum brád-ara yfir, því Júlíanus deydi á 31 aldurs ári, þá hann hafdi ríkt 1 ár og 8 mánudi, en árinu eptir Kristí fædíng 363.

Á þeirri fimmtu øld og sjøttu øld offókti rétttrúada Attila Húna Kóngur, Genser-icus og nockrir adrir Her-kóngar, er komu úr þeim landsplátzum er liggja vid Austur-sjóinn *) og hverra ádur er lítid gétid, þar

*) Þó er vel merkjandi, ad framar eru offóknir þess-ar eignandi Miklagards Keisurum og Vandala Kóngum, enn hinum Her-kóngum, er kénndu sig

þeir ve!flestir fylgdu Arii lærdómi; og það var hørmulegt til þess að vita, hversu sá eini flockur kristinna manna offsókti hinn annann, þó hann væri í vissum meiníngum eda talsháttum hinum ólíkur. Auk þessa sættu kristnir offsóknum af Persa Kóngum, einkum Sapore, Isdigerde og Cosroe.

17. Hverjar þjódir snérust til kristilegrar trúar á þessum tíma?

Constantinus hinn Mikli (hvers ádur er getid), lagdi alla stund á, ad snúa sem flestum frá heidínglegri villu til kristilegrar trúar, sem vóru í hans veldi, og það án kúgunar og offsókna. Auk þessa snérust á hinni fjórdu øld adrar þjódir, er ei láu undir Keisara dæmid. Georgius, sem kallast Illuminator, snéri Armeniskum og þeirra Kóngi Tiridati. Iberi, ein þjód er liggur í grend vid fjallid Caucasum, snérist til kristilegrar trúar fyrir fortølur einnar konu, sem af þeim var hernumin. En hin merkilegasta trúarbragdanna umbreytíng skédi í

vid Austur = og Vestur = Gauta; og ei hefi eg fundid, ad Þidrik Kóngur hafi offsókt þá, er vidurkénndu kristilega trú; en ad kristnir hafi mátt sæta þúngum búsifum af yfirferd og ágángi þessara víkinga, þá þeir inntóku ríkin, er auðrádit.

Morlandi (Ethiopia) fyrir framqvæmd Frumentii, hvar kristinndómurinn hefur vidhaldist til þessa. Þar Morlendskir hafa litid samblendi vid adrar þjódir, svo meina lærdir menn ad kyrkju=sidir þeirrar gømlu kyrkju, þvílikir sem þeir vóru á 3 og 4 øld, séu hjá þeim óbrjáladir; þvi þeir halda sér frá því sem kjæft er, og frá blódi, halda bædi Þvott=daga og Sunnu=daga helga, og lída ei bílæti í sínum kyrkjum og tilláta Prestunum ad giptast. Þar Frumentius þeirra fyrsti Postuli var sendur til þeirra frá Biskupinum í Alexandría, þá hafa þeir jafnan sídan legid undir sama Biskups=stól, og þad sídan Tyrkjar brutu undir sig Egypta=land. Constantíus Keisari sendi til Indí=anna einn Indverdskann mann, er hét Theo=philus, er fylgdi lærdómi Arii, og snéri svo kølludum Homeritum, sem meinast þeir gømlu Sabæi, og fékk af þeirra yfirmanni ad byggja kyrkjur þar í landi. Á fimmtu øld, snérust margir af Frænkis=mønnum til kristilegrar trúar, þegar Clodovæus Kóng=ur þeirra kristnadist og skírdist árid 496, fyrir áeggjan Drottningar sinnar Klothildar. Pat=rik og Palladíus kristnudu á þessari øld mikinn fjølda af Irskum.

Á sjøttu øld sendi sá Rómverski Páfi Gregoríus hinn Mikli árid 597 Augústínum Múnk til Englands, sem þá var mestu heidid, og adgreint í 7 smá Kónga-ríki, af hverju þad stærsta var Kent. Þar ríkti þá Ethelbert, er átti sér kristna Drottníngu. Þessi kóngur lét sig kristna og margir af hans þegnum. Augústínus vard sídan Erkibiskup í Cantara borg og deydi 607. Colúmbanus írskur múnkur snéri Skottum; þá snérust og margar þjódir vid þad svarta haf (*Pontum Euxinum*) liggjandi, og Remigíus kostadi kapps um ad útbreida þá réttu trú enn framar medal Frænkis manna. Símeon, sem kallast Stylites*) snéri og ei allfáum

*) Þessi Símeon var einsetu madur, til hvers menn flyktust úr ýmsum stødum til ad heyra hans rædur; ad hann væri ei í samblendi med ødrum, stód hann í sífellu á einnri eikar styttu (hvar af hann fèck vidurnefnid) svo bægrum skipti, ýmist med útbreiddum ørmum, ýmist beigdi hann sig hvad eptir annad ad tám nidur, og ritar Holberg (K. H. 1. P. 245. S.) ad hann tólf hundrud fjórum og fjørutigi sinnum, hafi gjørt slíkt hvad eptir annad, svo hans gudrækni hafi helst verid innifalin í þessu bugti. Í fyrstu var hann álitinn sem vitfyrringur, svo adrir einsetumenn vildu eingin møk vid hann hafa, en loksins var hann álitinn af alþýdu sem heilagur madur, og þad ei litils háttar. Hann deydi á

í Arabía, líka vóru og Gydíngar kúgadir í sumum stødum til vidurkénníngar kristilegrar trúar.

18. **Hvad gétum vér dregid oss til lærdóms og íhugunar af þessara tíma ásigkomulagi.**

1) Af offóknunum sjáum vér Guds trúfesti og mýskunsemi, sem ad vísu tiptar sín børn, en setur þó freistíngum þeirra og offóknum víst takmark, ad þau undirþryckist ei med øllu.

2) Ad náttúrleg spillíng á bágt med ad þola góda daga; svo þá Kristí søfnudur hefur notid útvortis fridar og fullsælu, hefur honum hættast verid ad falla í andvaraleysi, og þvílíkar syndir, sem Guds hefnd hafa upp egnt, þeim til straffs, en ødrum til vidvørunar.

3) Þegar menn hafa ei Guds heilaga ord fyrir þá einustu réttar snúru sinnar trúar og framferdis, þá aka þeir seglunum eptir þess forblindada skilníngs innblæstri, eptir vidtekn=

---

sinni slyttu árid 461. Vegna slíkra og þvílíkra óyndis=láta og hjátrúarfulls hardlífis hafa margir á øllum øldum sídan verid annadhvert settir í tølu helgra manna, eda mikid álit haft hjá þeim, sem ei gjøra réttann adgreining á þeirri Guds þjónkan, sem ské á í anda og sannleika, frá þeirri, sem bygd er á bodordum manna og útvortis látædi.

um meiníngum og jardneskum hagnadi; hvad sérhvert fyrir sig er nóg tilefni til kristindómsins nidurdreps, og steita sig á slíku margir, sem ei eru innan vébanda kristilegrar kyrkju.

## 3. Kapituli,

### Um tilstand kristilegrar kyrkju frá byrjun hinnar sjøundu aldar til þess þúsund ár vóru lidin frá Kristi fæding.

**19. Hvílíkt var yfir høfud ásigkomulag lærdómsins á þessum 4 hundrud árum?**

Hanni Guds þekking fór hnignandi æ meir og meir. Sífeldar misklídir héldust vid medal kristinna. Eitt biskupa þíng eptir annad var haldid, en optast til þess ad forboda þann lærdóm er samþycktur var á ødru. Þau ædstu safnadanna høfud ofsóktu hvert annad og stundum bannfærdu; loksins vissi alþýda ei edur varla, hverju og hverjum trúa skyldi. Þeir her-kóngar, sem komu nordan og austan úr Þýskalandi og jafnvel frá Jótlandi, þegar þeir høfdu undir sig brotid þau bestu og stærstu ríki, er lágu sunnarlega í nordurálfunni, gjørdu sér lítil afskipti af bóklegum

mentum, og þar margir, eptir það þeir høfðu fest sinn fót í þeirn suðlægu ríkjum, tóku við Arii lærdómi, sem áður er sagt, þá sættu þeir, er fylgdu þeirri réttu trúarbrøgðum, þúngum búsifjum, einkum þeir sem lifðu undir Winda kóngum. Serkir (Saraceni) inntóku Spánía-land, og fleiri héroð, og fluttu þángað með sér Mahómeds villu, sem í þeim løndum, er þeir høfðu undir sig brotið, magnaðist æva og útbreiddist. Þrjú Patríarcha sæti í þeirri austlægu kyrkju løgðu Serkir undir sig. Á þeirri sjøundu øld var grundvøllur lagður til þess Rómversku biskups æðstu yfirráða í kristninni, hver í vissann máta fengu þó hnekkir af framgángi þeirn, Serkja-kóngar høfðu. Að fylgja í blindni Páfanna setníngum, í útvortis Guðs þjónustugjørð og trúa øllum þeim hindur-vitnum hjátrúar fullir Múnkar prédikuðu, var nú álitin af velflestum hin rétta Guðs dýrkan *). Að styrkja Páfans makt, útbreiða lærdóm þeirrar rómversku kyrkju, og ofsækja þá er í móti mæltu, var,

*) Í hverju áliti Múnkastéttir hafi verið á þessum tímum, má ráða þar af, að Karl Keysari, hinn Vellótti kallaður, stakk augun út á syni sínum Karló-manno, þar hann vildi ecki verða Djákni. Sjá *Rechenb. Hist. Eccl. in Sec. IX.*

í þeirri vestlægu kyrkju, haldin þjóð-gata til himins. Ei allfáar nýúngar innleiddust einninn um þessar mundir í kristilega kyrkju, til dæmis: á hinni sjøundu øld var messan í latínu (*Officium Gregorii Magni*) súngin í kyrkjunum, og það jafnvel í þeim stødum, hvar menn skyldu ei það túngumál, og var þetta kyrkju-skick innleidt í Franka-ríki á hinni níundu øld.

Persa Kóngur Syróes gaf Heraclíó, Miklagarðs Keysara, Kross tré, sem vor Frelsari skyldi hafa á pínst, hvert Keysarinn færdi aptur til Jerúsalem, hvaðan það hafdi rænt verid af Persum fyrir 14 árum; og var þess vegna árid 622 innsett krossmessa, sem bar uppá 14 Septembris. Á hinni áttundu øld kom á gáng tilbeidsla krossins og líkneskja helgra manna, einkum Maríu Guds-módur. Á hinni níundu øld, hófst sá sidur ad setja framlidna í tølu helgra manna til þess þeir opinberlega dýrkast mættu, og segir Bellarmínus, ad Leó 3 Páfi hafi fyrstur flutt slíkt embætti. Á þessum tímum vóru andlegrar stéttar menn hvad ákafastir ad leida í ljós, svo kallada, helga dóma framlidinna manna, og tilsetja vissa daga, er skyldu helg-

ir haldast þeim til dýrkunar og áheita *). Þá var tilsett Michaelis-messa, járnburdur, og fleiri þess slags skýrslur, sem þó sídar enn framar vidgengust. Á þessari øld meina menn sá sidur hafi uppkomid ad taka vissa messu texta úr gudspjøllum og pistlum **) Á þeirri tíundu øld var haldin allra sálna messa til fulltýngis þeim, er meintust vera í hreinsunar eldinum; tvær hátídir innsettar í minníng Maríu uppnumníngar, (sem fólk á þessum øldum trúdi) og hennar fædíngar. Hjónabandid bannad andlegrar stéttar mønnum, ad hverju mjøg fylgdi Dúnstanus Erkibiskup í

*) Á þeirri níundu øld þóktust menn finna helgann dóm Jacobs Postula, sem fluttur var frá Jórsølum til Compóstella í Spaníen, árid 816, og sækir þángad fjøldi Pílagríma. Um þessar mundir er mælt, nockrir Italienskir kaupmenn hafi nád úr kyrkjunni í Alexandría líkama Gudspjallamannsins Marci, og flutt til Venedig, hvers stadar forsvar hann enn er sídan álitinn.

**) Páll djákni Warnefrid, hvers sídar verdur getid, meinast høfundur til þessa, sem og skrifadi ágrip af Kyrkjufedranna Prédikunum textunum svarandi, og til adgreiníngar milli textans og útleggínganna ritadi þessi ord: *Post illa*, þad er: hér næst fylgir útleggíngin. Og hér af halda menn komid Postillu nafnid.

Cantara borg á Englandi*). Jóhann hinn 13di þess nafns Páfi í Róm, gèck undan ödrum í því ad skíra kluckur, og fylgdu honum adrir í því sama. Í stuttu máli: ad upptelja sérhverjar nýúngar, sem á þessum tímum uppkomu, er ofláungt, og svarar ei mínum tilgángi í þessu ágripi.

20. Seig mér nockud af Mahómet og hans lærdóms framgángi?

Mahómet var fæddur, árum eptir Guds burd 568 í þeim stad Mecca, er liggur í þeim parti Serklands, er kallast hin luckulega Arabiá. Hann misti snemma foreldra sína, og ólst fyrst upp hjá fødur-fødur sínum, þar eptir hjá fødurbródur sínum, og var brúkadur til kaupferda, uns hann á 25ta aldurs ári vistadist hjá ríkri kaupmanns eckju, sem hét Kadiga, hverri hann sídar giptist. Hann var af gøfugum ættum, en vegna sinnar fátæktar komst hann ei til þeirra forráda, hans lángfedgar høfdu haft í Mecca, hvar hann átti heima. Af náttúrufari var hann metordagjarn og slægvitur. Sumir af hans

---

*) Þessu var þó ei allstadar strax framfylgt í kristindóminum og vissulega laungu sídar hér í landi, sem sídar mun sagt verda.

landsmønnunn vóru kristnir ad kalla, adrir vóru heidnir og nockrir vóru Gydíngar, en allir ráfudú í stærsta þeckíngarleysi á þeim hlutum, er tilheyra réttskickadri Guds dýrkan. Eptir þad Mahómet, vegna sinnar gyptíngar, vard fjádur, gjørdist hann ríkisgjarn og vildi komast ei til minni metnadar, enn fedur hans høfdu haft í Mecca. Til ad undirbúa þetta, veik hann í nockra eydimørk, dvaldi þar nockra hríd, og þóktist hafa samrædur vid Engilinn Gabríel. Þá hann var fertugur ad aldri lét hann á sér heyra, hann væri Postuli Drottins, og á þeim fyrstu fjórum árum útbreiddi hann, þó í hylmíngu, sinn lærdóm, en ad þeim lidnum, quad hann þad upp fyrir alþýdu, er hann géck þúngbúinn med; samanskrifadi Koran eda Alkoran (sem inniheldur Tyrkjanna lærdóm) og hét sá Otmann er bókina yfirlas og lagfærdi; þó skrifa lærdir menn, ad Gydíngur nockur Abdías ad nafni, og Nestórianiskur Múkur er hét Sergius, hafi geingid Mahómet til handa, í því ad samantaka Alkoraninn. Sjálfur vildi hann ei hafa skuld fyrir, ad hann stiptadi ný trúarbrøgd, heldur ad hann væri af Gudi sendur ad hreinsa þau; en svo var stórt þeckíngarleysi hans landsmanna,

ad færstir rannsökudu hans lærdóm; stód þó sumum geigur af hans fyrirtektum, og risu í mót honum, hvers vegna hann vard ad flýa þadan, og settist ad í þeim stad Yatrib, er sídan kallast Medina Talnabi (þad er, Spámannsins adsetur). Flótti Mahómeds skédi árid 622 og frá þeim tíma reikna Serkir sitt ártal. Þar ed í Alkoraninum finnast sumstadar slíkir hlutir, sem eru hégyljur einar, og sín í milli gagnstædir, átti hennar höfundur bágt med ad forsvara þad allt, og lá vid sjálft, ad hann mundi skjótt missa þad álit, er hann þóktist eiga skilid af sínum tilheyrendum; og þar honum fýndist ei rádlegt ad gefa sig í ordakast til forsvars sínum lærdómi, þá skipadi hann þeim, er tekid höfdu vid hans villum, ad útbreida þær med herskildi. Hann safnadi ad sér í fyrstu sveit hermanna, inntók stadinn Mecca og þar eptir Arabíam (Rabita land) og á túnda ári eptir sinn flótta deydi hann 631. Hans eptirkomari var tengdafadir hans Abúbeker, sem eins og Mahómet, var bædi kóngur á Serklandi, og undir eins ypparsti Biskup eda tilsjónar madur þeirra tyrknesku trúarbragda; og fylgdust þessi embætti ad hjá Serkja kóngum, er sig kölludu Calipha, lengi

fram eptir, inn til þess þeirra Jarlar, edr Lands-stjórnarar, brutu sig til kóngsegrar tignar í þeim löndum, er þeir rédu fyrir, svo Calipharnir máttu ad lyktum nægjast med þad ypparsta Prests embætti og höfdu sitt adsetur í Bagdad, unz Tartarar lögdu undir sig þau ríki, sem vóru í austur-álfunni. Sídan hafa þeir tyrknesku Keisarar og Persa kóngar fengid í höndur þad ypparsta Prests embætti einhverjum þegna sinna, og kallast slíkur Biskup medal Tyrkja Múfti, en hinn hjá Persum, Seder. Mahómets fylgjarar kölludust í fyrstu Saraceni, edur Serkir; en hér um 100 árum eptir Mahómets dauda, tók sig upp eitt Schytiskt fólk, sem hétu Tyrkjar, og settu sína bústadi í Asía, í þeim löndum sem nú kallast Georgien, Turcomannia og Diarbeker, og áttu orustur vid Serki; en árid hérum 763 vard þad ad sætt þeirra á millum, ad þessir Tyrkjar skyldu taka vid Mahómets átrúnadi og sem einn madur færa stríd á hendur þeim kristnu; og þegar stundir lidu, urdu þessir flockar ei einasta ad einni þjód, heldur kallast nú almennilega þeir allir Tyrkjar, sem halda vid Mahómets villu lærdóm. Bædi Mahómed og hans Eptirkomarar vóru mjög sigursælir;

Kalífh Omar lagdi undir sig Sýrland og Gýdínga land, og eptir tveggja ára umsátur inntók Jerúsalem árid 636. Þrem árum sídar inntóku Tyrkjar Mesópótamíam og mikinn part af Persía, og árid 640 Egyptaland.

Yndverdlega á þeirri áttundu øld fóru Serkir híngad í nordurálfu heimsins, og brutu undir sig Spanía-ríki og yfirunnu þann sídasta Gauta konúng Roderik árid 713 og þannig ér hvad eptir annad þad tyrkneska ríki í austur-sudur- og nordur-álfunni, svo þar af er uppkomid eitt hid vídlendasta einvaldsdæmi í heiminum, sem í fullum blóma stód þrjú hundrud ár, en skiptist sídan í fleiri ríki, af hverjum hin helstu eru þad Tyrkneska, þad Persiska og ríki þess stóra Mógols.

21. Hvílík eru Tyrkjanna trúarbrøgd?

Í fáum ordum, þá eru þau nockurskonar samsull af lærdómum Gýdínga og kristinna manna, uppfyllt heimskulegum skrøksøgum; vidvíkjandi þeim opinberunum Mahómet þóktist hafa fengid, er styrktu hans lærdóm og affsøkudu hans framferdi og illsku *) en

*) Svo sem hann var mjøg lauslátur og hann kunni eí forkast ámæli qvenna sinna, þá bar hann fyri

ebldu hans ríkis og trúar útbreidslu. Tyrkjar trúa á einn Gud, og neita guddómi Sonarins og heilags Anda. Mahómed á ad vera sá huggari, sem Kristur talar um í Evangelíó (Jóh. 14.) og sá hinn ypparsti Spámadur, er hreinsa skyldi trúarbrøgdin, og ásamt Gudi dæma heiminn og endurgjalda hverjum eptir sínum verkum; þeir medkénna, ad Abraham, Móses, Davíd og Jesús hafi verid Guds sendibodar, til ad færa í lag trú og sidferdi manna, Jesús hafi gjørt mørg kraptaverk, og þá Gydíngar vildu krossfesta hann, hafi Gud numid hann burt til sín úr Gydínga høndum, sem krossfest hafi annann í hans stad óvitandi*). Alkóraninn segja þeir sé samanskrifadur í ønduverdu af Gudi, en Gabriel Engill, eptir Guds skipan, hafi géfid Mahómet smámsaman útskrift af honum, í hverri bók Tyrkjum er skipad med sverdi ad útbreida þá lær-

sig Guddómlega skipan eda tilhlutan, hvar fyrir hann yrdi æfa slíkar og þvílíkar ódygdir.

*) Þad mætti sýnast eptirtektaverdt, sem Mahómed talar um sína reisu í gégnum þá sjø himna; ad þá hafi Abraham, Móses og adrir helgir menn tilkosid sér hans árnadar ord hjá Gudi, en Jesús hafi látid þad ógjørt; og er af þessu ad ráda, sem sjálfum Mahómed sýnst hafi, ad Jesús hafi ei hans vid þurft í greindu efni.

dóma, þar inni eru ritadir. Himnaríki útmálast, sem einn stadur, hvar menn kunni lifa í allra handa býlífi, og njóta þesskonar sælgjætis, Serkir eru mest gèfnir fyrir. Umskurninni behalda þeir, og eru þeirra børn almennilega umskorin á sjøunda edur áttunda aldurs ári. Fimta dag viku halda sumir heilagann, adrir Føstudaginn; því þad er merkjandi, ad medal Tyrkja eru margar misklídir, trúarbrøgdum og kyrkju-skicki vidvíkjandi. Fimm sinnum á degi skulu menn bydjast fyrir, og ætíd þvo sig ádur. Þeir fasta árlega einn mánud, svo þeir njóta einskis matar um daginn en snæda þess meira á nóttunni, ad frá teknu svína-kjøti og því sem kjæft er, hvad þeim er bannad; þeir meiga og ecki drecka vín, en í þess stad hafa þeir adra áfenga drycki. Þeir géfa ølmusur, ei mønnum einasta, heldur og, svo kølludum skynlausum dýrum. Þeir upprétta allvída spitala fyrir reissandi fólk. Medal þeirra eru einsetu menn, og enn nockrir, sem vegna hardlífis skilja sig frá alþýdu, og vilja sýnast ødrum helgari. Ad hverjum manni sé fyrir sett víst lífdaga takmark, hverju þá hann nær, hljóti hann ad deya, enda nái Tyrkjar því ætíd, trúa þeir, og hefur slíkt mikid hjálpad

til þeirra sigurvinnínga og hardfengis. Leyft er hverjum manni ad gipta sig svo mørgum konum í senn, sem hann gétur forsorgad, og þar ad auki halda hjá-konur. Hvad bók-legum mentum vidvíkur, þá løgdu Serkir sig kostgjæfilega eptir þeim í fyrstu, en þad varadi ei lengi, skédi og ei allstadar, því þeirra Prestar sjá gjørla ad trúarbrøgd Tyrkja mundu af sjálfum þeim lítils metin, ef þeim væri ei í blindleika fylgt, hvar fyrir allur fjøldi Tyrkja rásar í mesta þeckíngarleysi. Vid þá kristnu fánga, sem þeir ná, høndla velflestir af þeim án minstu línkindar, einkum þá þeir ei géta lockad né kúgad þá frá trúnni.

22. Í hverju ásigkomulagi vóru þeir kristnu søfn-udir, í þeim stødum, hvar Tyrkjar fengu um þessar mundir yfirrád?

Í fyrstunni leyfdu Serkir þeim kristnu, einkum þeim, er álytust villufarandi frá þeim rétta lærdómi, ad halda vid sín fyrri trúar-brøgd, svo lengi þeir ei opinberlega løstudu Mahómed og hans kénníngar; því þeir sáu gjarnan, ad þeir kristnu, vegna innbyrdis sundurþyckis í lærdóminum, yrdu meir og meir ablvana, ad standa á móti þeirri yfirgáng-andi Mahómeds villu, sem, hversu órýmileg hún annars er í flestum greinum, inniheldur

þó nockra lærdóma, sem kristinni trú ecki eru gagnstædir. Þessi Tyrkjanna adferd kom því til vegar, ad kristnum þókti ei lakara ad búa undir þessara yfirrádum, enn hinna, er vidurkéndu Arii lærdóm, eda álitu þad sanna Guds þjónustu, med eldi, járni og margslags ofsóknum ad þraungva þeirra kostum, er ei vóru í øllum greinum þeim sam-dóma í trúarinnar lærdómum. Eingu ad sídur leid kristileg kyrkja mikinn skada vegna Tyrkjanna yfirgángs, þar margir féllu frá trúnni, en þeir vid hana héldu, lidu skada á audæfum sínum, og ydkun bóklegra menta fór ódum þverrandi; og þá Serkir ebldust ad ríkjum og fullsælu, urdu þeir kristnum æ þýngri í skauti, einkum þar þeir álitu þad síną skyldu, med hernadi ad útbreida sínar villur. Melchitæ, þad eru þeir, er fylgdu lærdómi Miklagards Keisara, vóru ætíd midur lidnir af Tyrkjum, enn þeir, sem héldu vid Nestórii, Arii og annara, svo kalladra, villumanna kénníngar; og þad vegna þess, ad Melkitar drógu framar taum stól kóngsins, og þóktu þar fyrir geigvænlegri. Sídar meir hefur stór munur verid á því, hversu Tyrkjar hafa nú fremur í einum stad enn ødrum áþjád kristna, eptir tímanna og persónanna ólíkum kríngumstædum.

23. Hver var uppgángur þess Rómverska biskups um þessar mundir?

Miklagards Keisari Phócas*) eptir þad hann hafdi drepid Mauritz Keisara og hans 5 børn, vard missáttur vid Miklagards biskup, og til þess ad hefna sín á hónum, tilbaud hann Bonifacio í Róm, ad hann skyldi kallast allsherjar biskup (*Episcopus Oecumenicus*) hverju tilbodi þessi Páfi tók gladlega móti, jafnvel þó Gregorius hinn Mikli lastadi fyrrum slíka nafnbót. Hér af kom þad, ad þeir Rómversku biskupar vilja álítast sem ypparsta høfud alls kristinndómsins, og undir því skyni hafa þeir viljad draga undir sig þann rétt, Keisurum og Konúngum tilheyrir. En þetta var ei einasta, sem styrkti Páfans yfirrád. Þegar Aistulfur, Lángbarda konúngur, hafdi undir sig lagt sudur partinn af Italía, sem tilheyrdi þeim grisku keisurum, ritadi Stefan, hinn þridji þess

*) Í hverju áliti Phócas Keisari var, má ráda af þeirri frásøgu, Holberg, í sinni kyrkju historíu um getur, ad finnist hjá þeim sagnaskrifara Cedrenó, sem er í stuttu máli þessi: ad þá einn heilagur madur spurdi nockrum sinnum Gud ad, hvar fyrir hann hefdi látid Phócam verda Keisara? skyldi ein raust af himni hafa svarad: því eg fann eingann verri.

nafns, Rómaborgar biskup, undir nafni Postulans Péturs, Pipin Fracka kóngi bréf til, og bad hann vildi frelsa Rómaborg og synnra part landsins, frá yfirgángi Aistulfs; Pipin brá strax vid, sigradist á Lángbarda Kóngi, og gaf þau hérød, er hann undir sig lagdi í þessari ferd, og þar med stadinn Ravenna, Postulanum Petri, edur, réttara ad segja, þeim Rómverska biskupi. Pipin deydi nockru sídar, árid 768. en son hans og erfíngi Karl, eptir bón Hadríani Páfa, mátti reisa til Italíam ad frida landid. Hann gjørdi enda á ríki Lángbardanna, er þeir høfdu haft í Italía hér um 200 ár. Hann stadfesti gjøf fødur síns til þess Páfalega stóls og gjørdist hans forsvars herra. Sídar, nefnilega árid 800 kom Karl til Róm, géck þá Páfi Leó þridji mót honum fjórar mílur vegar, og á sjálfann Jóladaginn setti Páfinn uppá hann þá Keisaralegu kórónu, og vard hann þá hinn fyrsti Rómverskur Keisari af þýsku kyni. Hann ríkti yfir Italíen, Frackland og Þýskalandi, og vegna sinna afreks verka og nytsamlegrar framqvæmdar í landsstjórn og bóklegra menta edlíng, kalladist hann, hinn Mikli, og deydi árid 811 þá hann hafdi tvo Vetur hins áttunda tugar. Þad jók ei heldur allítid Páf-

ans ríki og yfirgáng, ad þeir Engelsku Kóngar gjørdu sitt ríki skattgyldt þeim Rómversku stól, svo af hverju húsi skyldi géfast einn peníngur, sem kallast Denarius Petri. Þó hafdi enn nú ei sá Rómverski Páfi fengid svo mikil yfirrád, eins og skédi á þeirri elleftu øld; Keisararnir høfdu enn þá hin ædstu rád yfir þeim hlutum, sem tilheyrdu almennilegri landsstjórn, settu enn biskupa þíng, og høfdu tillhlutan til alls þess, sem heyrdi til velferdar underliggjandi landa og lýda.

24. **Þar bóklegum mentum fór svo mjøg aptur á þessum tímum, eru þá nockrir, sem vegna lærdóms einkanlega eru nafnkénndir?**

Já, þó fáir, og enn færri er jafnast kunna vid þá, sem á fyrri øldum lifdu; þó vil eg tilnefna þessa:

Á sjøundu øld lifdi 1) Georgíus Pisides, Djákn í Miklagardi, hverjum almennilega tileinkast sú Alexandrínisku Chronika, sem kallast Fasti Siculi. 2) Beda Prestur, Enskur ad kyni.

Á áttundu øld styrkti Karl Keisari bóklegar mentir, setti allvída skóla, og lagdi fé til, framadi lærda menn, og var sjálfur lærdur. Af þeim lærdu mønnum, sem á þessari øld uppi vóru, eru einna merkileg-

astir 1) Flaccus Aldinus eda Alcuinus, Lærisveinn Beda Prests. 2) Páll Warnefred, Cancelleri og Ritari Desiderii, þess sídasta Lángbarda Kóngs. 3) Jóhannes Damascenus, Prestur í Jórsølum.

Á níundu øld: 1) Nicephorus Miklagards Biskup, 2) Photius Biskup einnig í Miklagardi, hvers Romocanon og Bibliothecarius eru í afhaldi. 4) Jóhannes Erigena, Skotskur ad kyni, skarpvitur spekíngur, hvern Múnkar pikkudu til bana, þar hann fann ad þeirra lærdómsleysi og ódugnadi. 5) Paschasius Ratbertus og Walafrid Strabo.

Á tíundu øld: Sylvester annar Pási, Decumenius og Saidas, Grikkir, einnig Witikindus Múnkur í Corbey, fæddur á Saxlandi, og Aymonius, sem ritad hefur þá Frønsku historíu.

25. Hverjar vóru þær helztu villur og misklídir medal kristinna manna, á þessum tímum, sem mestum óróa af stad komu?

Yfir høfud kom mestum óróa á stad metnadur þeirra, er vildu kynast andleg høfud kristninnar. Sá Rómverski Pási vildi brjóta undir sig Biskupinn í Miklagardi, og þá søfnudi hann var yfirskipadur, undir því skyni,

hann væri kristninnar allsheijar Biskup, hvad og samþyckt hafdi Phocas Keisari; en Miklagards Biskupar vildu ei rænast þannig sínum rétti. Theodorus Biskup í Pharan í Arabía, Sergius Biskup í Miklagardi og fleiri adrir, sem vidurkénndu adgreining náttúranna í Kristó, útbreiddu þann lærdóm, hérum árid 630 ad þar væri þó ei nema einn vilji hjá honum, og kallast þeir því Monothelitæ, og á þessa meining fellst einnig Páfinn Honorius, sem fordæmd var á því Biskupa þíngi, er Constantín hinn síd-skéggadi (Pogonatus) hélt í Miklagardi árid 680. Svo kalladir Maronitar, er búa vid fjallid Líbanum, meinast í öndverdu fylgt hafa villu Monothelitanna, hversu sem þeirra afkomendur, einna helzt nú á sídari tímum, vilja yfir þad breida. Sérílagi er merkileg þræta sú, er reis af tilbeidslu krossins og líkneskjanna, sem med miklum skada og hneixli safnadanna, varadi hérum í hálft annad hundrad ár. Á þremur undanfarandi öldum var sá sidur, ad krossmarkid og líkneski heilagra manna og píslar votta vóru uppsett í kyrkjunum til endurminníngar hinna framlidnu; enn nú, þegar hjátrúin óx, byr-

judu menn ad tilbidja þau. Til ad hnekkja þessum átrúnadi lét Leo Isaurus, Philippus Bardanes og nockrir þeirra, er þeim fylgdu í ríkisstjórn þess austlæga Keisaradæmis, en með oflítilli lempni*), rífa burt úr kyrkjunum þessi líkneski, en Miklagards Drottníng Irene, hjátrúar-full og grimm kona, innleiddi á ný, hérum árid 787 dýrkun bilætanna, og fékk í fylgi med sér Páfann og marga Biskupa, í þeirri Rómversku kyrkju. Til ad hitta þann rétta medalveg í þessum deilum, setti Karl Keisari hinn Mikli eitt Biskupa-mót í Frankfurt árid 794, hvar ályktad var, ad slík bilæti kynnu ad sønnu lídast, en ættu þó ei tilbidjást. Þetta þíng, hvar saman vóru komnir 300 Biskupar, gjørdi þó ei enda á þessari þrætu, heldur urdu þau mála-lok, þegar Drottníng Theodora, medan Son hennar Michael Keisari var barn ad aldri, hafdi

*) Constantin Copronymus Miklagards Keisari var svo hardrádur vid þegna sína, einkum klaustra fólk, ad þad mátti annadhvert afleggja tilbeidslu bilætanna og gipta sig, eda úr þeim skyldu stíngast augun og rekast sídann í útlegd til eyunnar Cypur og sæta þar ágángi Serkja. Kusu þá flestir heldur ad giptast enn sæta sliku tor-rekti.

til sín dregið stjórn ríkisins, að það ár 842 á einn Biskupa þingi í Miklagarði var tilbeiðsla líkneskjanna sam-þyckt, og er þessi villa síðan viðtekin í þeirri Grísku og Rómversku kyrkju. Sú Gríska og Rómverska kyrkja þráttuðu einnig um það, hvert heilagur Andi framgeingi af Syninum. Hóf þessa þrætu Photius Miklagarðs Biskup mót Nicolao Páfa, og svo lángt er frá því, að hún kynni útkljáð verða um þeirra daga, að hún varir enn við til þessa dags. Á þeirri níundu öld kénndi Paschasius Radbert, að brauð og vín í Altarisins Sakramentó umbreyttist í Kristí líkama og blóð; hvern lærdóm nockrir ráku til baka í fyrstu; en þar hann var nýr, einnig gagnstæður réttri skynsemi og orðum heilagrar Ritníngar, en var hið hentugasta meðal að efla hjátrú, þá fékk hann meðhald af þessara tíma fáfræði, og er nú sem vissasta høfuðgrein trúarinnar viðtekin í þeirri Rómversku kyrkju.

26. Hverjum ofsóknum mættu kristnir á þessum øldum?

Á sjøundu øld stríddi Chosroes Persa Kóngur uppá Sýrland, Cappadociam, Armeniam og ønnur ríki þess austlæga

Keisaradæmis, og hlutu kristnir þá og líka Gyðíngar sæta afarkostum. Hvern skada Saraceni (Serkir) gjørdu kristninni, er ádur ávikid, hverjir, eptir þad þeir eblduzt, urdu æ verri vidureignar, sem sýndi sig á þeirri áttundu øld, þá þeir herjudu í Thracia, Sardinien og Spanía, hvar til sjálfir kristnir sýnast þó stundum hafa géfid nockra orsøk. Á hinni níundu øld herjudu Lodbrókar synir á England, Walland, og um Lombardí; slíkt hid sama gjørdu Gunnhildar synir, Gaungu-Hrólfur hinn Mærski og fleiri Her-kóngar og víkingar, sem komu frá Norveigi, Danmørku og nerdustu hérødum Þýdskalands, er drápu fjølda fólks, og eyddu þeim stødum, sem láu vid sjáfar-síduna.

27. Hverjar þjódir snérust til kristilegrar trúar á þessum 400 árum?

Þeir ed fylgdu lærdómi Nestorii Biskups løgdu alla stund á, ad útbreida kristnina í Austur-álfunni, og settu yfir sína søfnudi Biskupa, sem undirgéfnir vóru þeirra Patríarcha í Chaldea. Á sjøundu øld kristnudu þeir mikinn fjølda heidínga er bjuggu nordarlega í Asía, hjá og í Chínaríki; á þeirri áttundu øld kristnudu þeir Hyrcaniam, sem lá undir Persa Konúng og mikinn part af Tar-

taríinu; og á þeirri tíundu øld það landpláts Karit *) hvar kristnin stóð nockúrn veiginn í blóma framm á hina fjórtándu øld, til þess innbyrdis stríd og baráttur gengu sem hærst milli Chínisiskra og Tartara, undir þeim sigursæla Tamerlan, sem að mestu hélt við Mahómeds lærdóm og braut mikinn part Austurálfunnar undir sig. Á þeirri sjøundu øld snérist allur fjøldi manna á Bretlandi til kristilegrar trúar, og Columbanus hinn Irski með lagsmønnum sínum Kilian og Willibrod boðuðu kristna trú Frankis-mønnum og ýmsum hérøðum Þýskalands. Bonifacius hinn Enski, sem nefndist áður Winifrid **) og kallast almennilega Þýskra

*) Þeir sem bjuggu í þessu landsplatsi vóru mjøg bædi í nordur- og austur-álfunni frægir, vegna síns hardfeingis, ríkidæmis og góðra siða. Sinn kóng Malek Jóhana, edur Jóhn kóng, kølludu þeir Presbýtir. Þegar Pórtúgisistir á þeirri fimtándu øld vildu finna þennann ríka Jóhn prest, hugdust þeir hafa fundið hann í Morlandi, og hafa margir trúað þessari þeirra søgu-søgn. En þeir ed heldur vilja trúa órækum skjølum og vitnisburdum, enn óvissum frásøgnum sjéfarandi manna, þeir munu ei hika við að álita þennann Jóhn prest verið hafa Tartara kóng, í grend við Kína, en þó kristinnar trúar. Mósh. K. H. P. 1. pag. 597. 598.

**) Það var brúkanlegt á fyrri og síðari tímum, að

Postuli, snéri á þeirri áttundu øld Frísum, Hessum, Thyríngum og ødrum sveitum Þýskalands til þeirra Rómversku trúarbragda. Mætti honum margt vos og vandrædi, enda fulltíngdi hans fyrirtektum Páfinn og Karl Martellus Kóngur Frænkismanna; hann hafdi og fyrir nockru ad gángast, því hann fèck loksins Erkibiskups stólana í Meginzuborg, á Kolne og í Utrekt, og var þar ad auk Páfans umbodsmadur í Fránkaríki og Þýskalandi. Loksins var hann drepinn af Frísum árid 755. Á þessari áttundu øld braut Karl Keisari hinn Mikli undir sig Saxland, og eptir margar orustur lét hann skíra **Witikindum** 785, sem var hinn helzti oddviti heidinna manna í Saxlandi. Strax lét hann boda kristna trú innbyggendum Saxlands, Húnum, Frísum, setti Biskups-stóla, Múnk-lífi og skóla allvída, og eptir síd þessara tíma, sparadi eckért til þess med blídu og strídu, ad framfylgja kristnibodinu. Á þeirri níundu øld

þeir sem vygdir vóru til Páfa, Biskupa, eda jafnv þeir, er inngeingu munka-stétt, tóku sèr önnu nøfn, svo sem þeir vildu sýnast allir adirr men þeir ádur vóru. Hèr á landi man og þó ei sli hafi vidgengist.

sendi son hans Hløðver Keisairi, kalladur hinn Gudrækni, Ansgarium Abóta frá Corbey og Ebba frá Rimum til Danmerkur og Svíaríkis árid 816 ad snúa heidíngjum frá fornum blótskap til betri sida; hér um árid 850 sendi Theodora Miklagards Drottníng tvo Gríska Múnka Methodium og Cyrillum til þeirra í Mysia og Bulgaria, sídan til þeirra í Boheim og Morapía, med kristnibodid, sem fécк á þessum stødum sæmilegann framgáng, einkum þar nockrir ádur, fyrir tilstilli Carls Keisara, høfdu kastad heidni. Sídan hafa þeir í Mysia og Bulgaria legid undir Erkistólinn í Miklagardi, hvad þeirra trúarbrøgd og kyrkjustjórn áhrærir, þar þeirra fyrstu kénnendur vóru Grískir. Á þeirri tíundu øld lét Gaungu Hrólfur, son Røgnvalds Mæra Jarls frá Norveigi, leida sig til kristilegrar trúar fyrir frammfylgi og bænastad Carls Fracka Kóngs, er kalladist hinn Einfaldi, hver ed gifti honum Gíslu, (adrir kalla hana Ægidíu) dóttir sína, og gaf honum til forrædis þad ríki, sem nú kallast Normannia, en ádur hét Neustria. Eptir skírnina lét Hrólfur kalla sig Rodbert, og eru af honum komnir Englands Kóngar og

Rúdu jarlar. Á líkann hátt snérust til kristilegrar trúar Miecislaus Pólína Fursti, þá hann giptist dóttur furstans af Bohéim; Valdemar (Wolodimirus) kóngur í Gardaríki tók einnig kristna trú, þá hann giptist Önnu, er systir var Basilii yngra Miklagards Keisara*). Geisa konúngur í Húngaría, var skírdur 960 af Adalbjarti biskupi í Prag, og snérust þá margir af þegnum hans til betri átrúnadar, en þó miklu fleiri undir syni hans Stefáni (Stephanó), sem sídar vard kóngur, og kallast hinn helgi.

28. Seig mér í fám ordum hversu þau kristilegu trúarbregd vóru innfærd í Danmerk, Svíaríki, Norveg og undirliggjandi eyar?

### I. Um Danmørk.

Eptir øllum líkindum sýnist ad Carl keisari

*) Ad þetta sé sami Valdemar, hvers gétid er í søgu Olafs Kóngs Tryggvasonar, P. 1. Cap. 50. 64. og 90, sýna kringumstædurnar ei géti vel stadist. Drottning Valdemars, þess er gétid er í Olafs segu, kallast Arlogia, og ad Páll nockur frá Grycklandi hafi veitt þeim skírn; en þann Valdemar, hvers fyrr er gétid, heimfærir Mosheim til þeirrar 10du aldar. Gardaríki hafdi um þessar mundir fleiri kónga í senn, líka sýnist, ad kristin trú hafi í ýmsum stødum þessa stóra ríkis, og á ýmsum tídum bodud verid.

hinn mikli hafi viljad kristna Danmørk; en Hlødvi syni hans Keisara, enum Gudrækna, hlotnadist ad fulltýngja kristni-bodinu medal Dana; því um Sumarid 822 útvaldi hann Ebba, Erkibiskup í Rímum á Fracklandi, ad takast þetta starf á hendur: fór þá Ebbi strax á Páfa gard, og fêck leifi af Pascali Páfa, ad prédika rétta trú í Danmørku; kom Ebbi þángad tvisvar sinnum og snérust ei fáir vid hans prédikanir. Hinn fyrsti Jótlands Kónga, er tók vid kristni, nefnist Haraldur*), og var skírdur med skulda lidi sínu í Meginzu borg (Maynz) árid 876. Um sama bil var Ansgaríus biskup sendur til Danmerkur og dvaldi þar tvø ár, eda nockud lengur, og fór sídan á fund Hlødvers Keisara; sídar, nefnilega 850, eda þar um bil, fór Ansgaríus til Jótlands á ný, og leifdi þá Eirekur kóngur, kalladur hinn Ungi, ad kyrkja væri sett í Heidabæ, og Prestar til fengnir. Snérust þá margir frá heidínglegri villu, einkum í sydri hluta Jótlands; þó var

*) Danskar fradi bækur segja hér sé meintur Klack-Haraldur, en ad hér kunni ei meinast fadir Þyrí Danmerkur-bótar, módur Haraldar Blátanna:, sýnir Þormódur Torfason, í sínu Kónga-tali, 3 Bók. 15. Kap.

mesti hluti Danmerkur enn heidinn: og þá Gormur Kóngur hinn Gamli, son Hørda-Knúts hafdi undir sig lagt Jótland, allt sudur til Slez, og burtrekid Jarla þá og Fylkis Kónga á Jótlandi høfdu ríkt, sídan Ragnar Lodbrók skipti ríkjum milli sona sinna, gjørdist hann hardur kristnum mønnum og ehldi heidni*). Haraldur Kóngur Blátønn tók ríki eptir fødur sinn, líklega til ad géta hér um 939. Á hans døgum herjadi á Danmørk Ottó Keisari hinn Mikli, og sigradi hann, og lét skíra Harald Kóng og Svein son hans, og veitti honum sjálfur Gudsifjar, og kalladi hann Svein-Ottó. Þennann Svein køllum vér Tjúguskégg; þá var lidid frá burd vors Herra Jesú Kristi 950 ára; þad sýnist sem Haraldur hafi ei ad undanførnu verid mótfallinn kristnibod-

*) Gamlar sagna bækur géta þess, ad Unk (Húni, Hunó,) Erki-biskup i Brimum hafi komid i Danmørk til þeirra fedga Gorms og Haraldar, reyndist Gormur mótfallinn hans erindum, en Haraldur, sem þá ríkti med fødur sinum, gaf honum leifi ad framfylgja kristnibodinu, i vissum stødum, hvad hann og gjørdi. Haraldur var þó enn heidinn, og sýndi i þessu mikid mjúklæti þegnum sinum, sáheyrdu um þessar mundir, ad þeir mættu taka þá trú, er þeim sýndist betri.

inu, því tveim árum ádur enn hann var skírdur vígdi Adaldagur Brima biskup*) þrjá danska biskupa, Harald til Slesvíkur, Lífdag til Rípa, og Rímbert til Arósa. Sveinn Tjúguskégg tók ríki eptir fødur sinn, og níddist á trú sinni, hindradi og kristnibodid í sínu ríki, en þó segja danskar Kronikur hann hafi nockru fyrir sinn dauda (sem skédi **1014**) snúist til réttrar trúar og henni framm fylgt. (*conf. S. T.* Langeb. *Sc. R. D. M. Æ.* 2. *Tom. N. LXII & LXIII*).

## *II.* Um Svíaríki.

Ei einasta af þeim skiptum Svíar høfdu vid þá fedga Karl Keisara hinn Mikla og Hlødver son hans, heldur og fyrir framqvæmd Willerici Brima biskups og Herberts nockurs (sem skyldi af Karli Keisara vera sendur til Gautlands ad boda þar

*) Erki-biskups sætid, undir hvert lán Danir, Svíar og Nordmenn, var fyrst sett í Hamborg (Hamarsborg); en þá sá stadur var eydilagdur af Nordmønnum, var Erki-biskups stóllinn þadan fluttur til Brima á Saxlandi árid 845. Ansgarius var hinn fyrsti biskup í Hamborg, sídan í Brímum og deydi 3ja Febr. 865, og strax var Rembertus tekinn í hans stad.

kristni*) er líklegt ad nockrir af Svíum hafi yfirgéfid fornann átrúnad, og því hafi Svía Kóngur (eg meina Bjørn af Haugi) sendt til Hlødvers Keisara árid 829, med þeim erindum, ad hann sendi kénnimenn þángad ad boda kristna trú, þar margir vildu vid henni taka; Keisarinn vard næsta gladur vid þessa ordsendíng Svíanna, og sendi til þeirra Ansgaríum, sem þá fór frá Danmørk og kom loks til gømlu Sigtúna; tók Kóngur hønum og hans fylgjurum blídlega og leyfdi þeim ad framfylgja kristnibodinu. Rádgjafi Bjarnar Kóngs Hergeir, var einn hinn fyrsti, er lét skírast og bygdi þá fyrstu kyrkju í því ríki. Árid 831 fór Ansgaríus þadan, en Gautbertur, frændi Ebba Erki-biskups, var til biskups vígdur og þángad sendur, hver eptir vígsluna tók sér annad nafn, og kalladist, eptir Petri Postula, Símon**), og sýnist sem honum hafi tregt veitt ad framfylgja kristnibodinu, hvar fyrir Ansgaríus (líklega þad ár 853) reisti til Svíþjódar, og var þar eins árs tíma. Fann hann Olaf Kóng

*) Hér um má lesa J. C. Beers Leben, Regerung und Absterben aller Koenige in Schweden.

**) Fleira hér um má lesa i æfi-søgu Ansgarii, sem Rembert hefur samanskrifad.

(Bjarnarson) og tók Kóngur álitlega máli hans, og á 2 þíngum rœddi vid alþýdu um erindi Ansgarii, leifdi einnig þegnum sínum sida-skiptin; stódu Svíar fast á móti, og køstudu margir trúnni sídan. Sigurdur biskup Riki, hirdprestur Olafs Kóngs Tryggvasonar, og fleiri adrir, reyndu til ad kristna landid, hvad þeim tókst mjøg lítt, uns Steinkéll (sem af sumum kallast annar med því nafni) settist ad ríkinu, er med miklum skørúngskap braut hof og hørga, fékk Presta frá Hamborg ad telja trú fyrir Svíum, og var þá allur fjøldi hans þegna skírdur í Sigtúnum. Sídan hefur kristni þar vidhaldist, og var til Uppsala Erki-biskups stóll settur árid **1154** *).

*III.* Um Norveg.

Hákon, son Haraldar Hárfagra, ólst upp á Englandi hjá Adalsteini Kóngi og tók þar vid kristni, hverja, þá hann var Kóngur ordinn ad Norvegi og Eiríkur Blódøx hálfbródir hans hafdi stockid úr landi (**938** eda **939**), hann vildi innfœra í ríkid, og fékk því

*) Holb. K. H. P. 2. p. 74. En annálar útgéfnir af Hr. Langeb. T. 1. R. 37, segja ad Stefnir hafi heitid fyrstur Erki-biskup í Uppsølum, sem þángad vigdist 1163, en deydi 1181.

kénnimenn frá Englandi til kyrkna þeirra, er hann hafdi byggt á Mæri og í Raums-dal, og létu sig margir skíra; en þorri alþýdu, einkum Þrændur, stódu svo ríkt móti þessum nýúngum ad þessi gódi Kóngur neiddist ad láta af upptekuum hætti; en blót hófust þegar, og mögnudust æfa í tíd Haraldar Jalls Sigurdarsonar. Olafur Tryggvason, sem frá barndómi hafdi útlendur verid, numid kristna trú og skírdur í Syllíngum af Abóta nockrum vestur þar, kom til Orkneya og kalladi þar til ríkis, sem hann var til borinn. Sigurdur Jall Hlödversson hinn Digri hélt þá Eyarnar og Katanes og fundust þeir á Petlands fyrdi í Asmundar vogi, og þreyngdi Olafur svo kostum Jalls, ad hann lét skírast og fólk þad í Eyunum var. Eptir þetta sigldi hann til Norvegs um Sumarid 995, og gêck lands fólkid honum til handa, eptir dráp Hákonar Hlada-Jalls. Þá hann var ordinn einvalds Kóngur í Norvegi, bodadi hann strax kristna trú, og med blídu og strídu útbreiddi hana, á þeim 5 árum hann ríkti, nær um allt ríkid. Þá Olafur Tryggvason hafdi 2 vetur verid í Norvegi sendi hann eptir Sigmundi Brestissyni, hvern, þá hann hafdi tekid vid kristni, hann frá sér gjerdi

med þeim erindum, ad hann teldi trú fyrir Færeyingum. Leif hinn Heppna Eiríksson sendi Olafur Kóngur frá sér til Grænlands ad kristna þar landid, hvad Leifi tókst gyptusamlega.

Um Ísland sér í lagi.

Þegar Ísland var fundid af Nordmønnum, urdu þeir varir vid vistir kristinna manna, sem híngad høfdu komid vestan um haf, líklega frá Írlandi. Hét Aurligur sá, er fyrstur reisti kyrkju hér á landi, ad Esjubergi, annar Þorvaldur Spak-Bøtvarsson ad Ási í Hegranesi árid 984. Gétid er fleiri kristinna manna, er í landnáma tíd byggdu landid; en ad lidnum nær hundrad vetrum, frá því ey þessi fyrst byggdist, fór Þorvaldur Kodransson af landi burt, var skírdur á Saxlandi, og hafdi út híngad med sér þann bisskup, er Fridrekur hét; sátu þeir fyrst ad Gilja í Vatnsdal fjóra vetur, og vard þeim litid ágengt med kristnibodid, hvers vegna þeir fóru hédan af landi eptir fimm ára dvøl. Sá mikli atgjørfis og framqvæmdar madur Olafur Kóngur Tryggvason sendi um vorid 996 Stefni Þorgilsson út híngad ad kristna landid. Stód alþýda fast fyrir sída-skiptunum, en einna helst frændur Stefnis, og skipudust

menn litt vid hans kénníngar, svo Sumarid 997 var þad í løg leidt á Alþýngi, ad frændur hinna kristnu manna, skyldu sækja þá um gudlastan, þeir nánari vóru þridja brædra og fyrnari enn næstu brædra. Stefnir, sjáandi hve litíu hann mundi til leidar koma vid heidinn og hardsnúinn almúga, sigldi til Norvegs sam-sumars. Hird-Prestur Olafs Kóngs Þángbrandur vann þad til fridar sér, vid Kóng, vegna óspekta þeirra, hann hefdi gjørt, ad fara út til Íslands, og boda þar trú. Hann kom út híngad sama sumar, og Stefnir fór utan. Tók hann land í Alptafyrdi austur og skírdi Sídu-hall Þorsteinsson og siulda lid hans, þar sem nú heitir Þvottá. Þar eptir skírdi hann af høfdíngjum Gissur Hvíta og mág hans Hjalta Skéggjason, og enn sídar Gést Oddleifsson og marga af alþýdu. Eptir þad Þángbrandur hafdi dvalid hér tvo vetur sigldi hann til Norvegs árid 999 og ræddi mjøg um svadilfarir sínar fyrir Kóngi, og hvern fjandskap menn høfdu hér vid hann lýst, og kalladi einga von, ad kristni mundi hér vidgángast. Margir Íslendskir sigldu til Norvegs, sama sumar (á medal hverra var Gissur og Hjalti), og var vid sjálft búid, Kóngur

mundi láta koma nidur á þeim reidi sína vid frændur þeirra og foreldra; en fyrir umtölur Gissurar Hvíta (er bædi var frændi Kóngs, og fulltýngt hafdi Pángbrandi um hríd medan hann var hér) gaf Kóngur rúm reidi, og sendi þá mága Gissur og Hjalta út híngad, ad flytja erindi sín, vidvíkjandi kristnibodinu. Um vorid (1000) komu þeir út og tóku land í Vestmanna-eyum. Þar reistu þeir Kyrkju, fyrir nordann voginn, og ridu med miklum flocki til Alþýngis. En þá þeir báru upp erindi sín ad Løgbergi, vard sveitar-dráttur mikill, og søgdust hverjir úr løgum vid adra, enir kristnu menn og heidíngjar. Þá gengid var frá Løgbergi, bádu kristnir menn Hall á Sídu segja løg upp, er kristnir hafa skyldu. En med því Hallur sá, ad heidnir menn mundu ei sæta løgum þeim, er hann qvædi upp, enda hafdi hann ei vald þad, ad setja løg allri alþýdu, þá fékk hann til heidinn mann Þorgeir Ljósvetnínga Goda, er þá hafdi Løgsøgu, ad hann segdi Løg upp hvertveggi kristnum og heidnum, og til þess hann geingist undir þetta vanda mál, gaf Gissur honum hálft hundrad silfurs (edur 2 hundrud og 10 álnir á Landsvísu). Medan Þorgeir hugsadi þetta mál, høfdu heidnir

menn stefnu fjølmenna, og tóku þad rád, ad blóta tvo menn úr hverjum Fjórdúngi, og hétu á heidin god til þess, ad þau léti eigi kristni gánga yfir landid, og vóru til blótanna ætladir vestu menn. Þeir Hjalti og Gissur áttu adra stefnu vid kristna menn, og qvádust vilja veija ad mannkostum hina bestu menn, og kalla þad Sigurgjøf vid Drottinn Jesúm Kristum, og skyldu þeir, ed gáfu sig til slíkrar Sigurgjafar, lifa því betur og synd-varlegar enn ádur; næsta dag eptir taladi Þorgeir lángt erindi og snjallt fyrir øllum Þíng-heim, sýndi í hvad óefni komid var, ef menn skyldu ei ein løg hafa á landi hér; og þá hann hafdi lokid tølu sinni, játtu hvertveggi ad halda þau løg er hann rédi upp ad segja, og var þad uppsaga Þorgeirs, ad allir menn skyldu verda skírdir á Íslandi og trúa á einn Gud; en um barna útburd (sem ætíd þókti fúlmennska, nema naudsyn kræfi) og Hrossa-kjøts át skyldu haldast en fornu løg; menn skyldu blóta á laun ef vildu, en varda Fjórbaugs gardi ef vottum kæmi vid; Hof øll og Skurdgod skyldu óheiløg vera. Slitu þeir med því þínginu, ad kristni var løgtekin um allt Ísland. Vóru þá allir menn primsignadir, sem

á þínginu vóru, og margir skírdir, er ádur vóru heidnir, en er þíngmenn komu heim í hérød, þá var alþýda skírd á því Sumri, sem fyrst vard vid komid; mælti þá einginn móti kristnum dómi, og hefur sídan kristnin elst og aukist á Íslandi, aldrei eydst, en lengi óstyrk.

29. Hvad gétum vér tekid oss til íhugunar af ádur sagdu?

1) Þad er ad vísu satt, ad flestir sem snérust til kristilegrar trúar á þessum øldum (hvad optar skédi fyrir útvortis kúgan eda sakir veraldlegs ávinníngs, framar enn vegna þess þeir væru nóglega samfærdir um ypparlegleika og sannarlegt ásigkomulag og edli réttrar Guds dýrkunar) ad flestir, segi eg, vóru ei einasta sem úng og ný pløntud tré í akri Guds, heldur og næsta tryldir af útvortis manna setníngum; þó hafa án efa margir, eptir þad þeir høfdu smackad hid góda Guds ord og krapt eptirkomandi aldar (Ebr. 6.) ordid sannir limir hinnar ósýnilegu Guds kyrkju; og høfum vér, ei sídur enn adrir þeirra nydjar, þess ad notid, adløndin kristnudust, hvad ei fáum Gudi nóglega fullþackad.

2) Þá vér adgjætum þad stóra nidurdrep, kristileg kyrkja vard fyrir vegna Tyrkjanna

yfirgángs, sjáum vér undir eins Guds addáanlega rádstøfun, sem hefur útbreidt takmørk sinnar kyrkju víds vegar um nordur álfuna, og þad til hinna ytstu takmarka; hvad oss sem búum á þessum hala veraldarinnar, ætti uppvekja til réttskickadrar alvørugéfni, í því ad elska hann og hlýda hans ordi, svo ei sætum slíku straffi, sem yfir kom þá søfnudi, hvar Guds þecking stód í øndverdu í blóma, en eru nú sumir ad mestu, sumir ad øllu leiti afmádir; og ei hitti oss sú óhamíngja, ad þurfum hlaupa frá einu sjáfar hafi til annars, frá nordrinu til austurs, og leita eptir ordi Drottins, og finna þad þó ecki. (Amos. 8. v. 12).

## 4. Kapítuli,

Inniheldur þad helzta vid hefur borid í kristilegri kyrkju, frá byrjun hinnar ellestu aldar til þeirrar sextándu.

### 1) Um þad gríska edur austlæga Keisaradæmi, og þá kristnu søfnudi þar láu undir.

**30. Í hverju ásigkomulagi var þad gríska Keisaradæmi, og þeir kristnu safnadir, sem til þess láu?**

Því austlæga, edur Gríska Keisaradæmi,

fór ætíd hnignaudi, þar Serkja kóngar hrifu undir sig frá því eitt ríki og hérad eptir annad, en innbyrdis sundurþicki var milli sjálfra safnadanna, er reis af þeim misklídum, er tvinnudust af ólíkum meiníngum, er þeir høfdu, trúarinnar lærdómi og kyrkjusidum vidvíkjandi. Franskir inntóku Miklagard árid **1204** og høfdu þar útlendir Keisarar sitt adsetur til **1261**, þá Michael 8di kalladur Palæologus, inntók stadinn, en rak burt Baldvin Keisara, sem ásamt Patríarkanum Júístiníanó, komst nauduglega undan. Um þessar-mundir útvøldu Grikkir sér annann Keisara, þar þeir gátu ei lidid útlenda høfdíngja, og settist hann ad í Nicea, hvar sá fyrsti Keisari var Theodorus Lascares. Þessi adgreiníngur hinnar yppurstu stjórnar olli ad vísu miklu innbyrdis sundurþycki, en ei sídur þad, ad nockrir Grikkir Keisarar og Patríarkar gáfu sig um stund undir þann Rómverska stól, í þeirri von ad Páfinn mundi styrkja þá móti yfirgángi þeirra tyrknesku Keisara. Til slíkrar sameiníngar, millum þeirrar Rómversku og Grisku kyrkju var nockrum sinnum reynt, en sérílagi á árunum **1232** og **1234**, þó forgéfins. Nú svo Páfarnir eigi ad sídur gjætu fengid adra

Gríska søfnudi undir sín yfirráð, þá bauð Innócentíus 4. Nestoríanis og Jacóbitis *) (þó þeir álítist sem villú menn) að géfa sig undir þá Rómversku kyrkju, og sama tilboð gjørdi 1278 Páfi Nicolaus 4di Nestorianis, sem bjuggu nordarlega í àusturálfunni, og sýndust Biskuparnir, sem yfir þessa søfnudi vóru skipadir, ecki mótfallnir þessari sameiníng, úr hverri þó eckért vard. Milli þeirrar Grisku og Rómversku kirkju skédi loksins að ordi qvednu fullkomin sameiníng 1274 þannig, að sá Rómverski Páfi skyldi hafa ædstu vøld yfir kristninni. Miklagards Biskup Jóseph vildi ei læcka seglin, fyrir metnadi þess Rómverska Páfa, en var þess vegna afsettur. Jóhannes Beccus var í hans stad útvalinn er fylgdi drætti þess Rómverska Páfa, en kom á gáng þar med þeim stærstu óspektum í þeirri Grisku kyrkju, sem vid héldust medan Michael Keisari lifdi, en þá hans sonur Andronicus kom 1282 til stjórnarinnar mátti Beccus víkja; en Jóseph var á ný innsettur í Patríarka sætid, og sú sætt gjørd var vid þá Rómversku kyrkju,

*) Jacobitarnir hafa sitt nafn af Jacob Zanzalo sem var Eutychis Lærisveinn; þessir hafa sinn eiginn Patríarka, og finnast vída í Egyptalandi og Morlandi.

óhýttist. Sídar, nefnilega 1438 mætti Miklagards keisari á því Biskupa þíngi, Evgenius Páfi hafdi sett í Ferrara, og eptir þad leingi hafdi verid þráttad um hreinsunar eldinn, ósýrt braud í Altarisins Sacramenti og framgáng heilags Anda af Syninum, vard þeirri sátt á komid millum Páfans og Keisarans, ad sú Griska kyrkja skyldi leggjast til þeirrar Rómversku. En ad Keisarinn var svo audveldur í slíku sýnist framar skéd vera þess vegna, ad hann hefdi af þessari forlíkan veraldlegann ávinníng, enn ad þeir Papisku Prælatar hafi gétad med røkum affakad suma þá ránga lærdóma, er þeir Grisku skulduđu þá fyrir; því Keisarinn vildi ei undirskrifa þessa sáttargjørd, fyrr enn hann fengi fullvissu um fólk og peninga til styrktar ríki sínu; en þá Keisarinn kom heim, urdu þegnar hans uppvægir honum í gégn, og ødrum, er stódu ad þessu verki. Sídan hafa ei Páfarnir gétad ákomid þessari sameiníng; einasta hefur Gregorius 13di stiptad einn skóla, og lagt ærna fé til, þeim til kénnslu og uppheldis af Griskum, sem leggja sig eptir bóklegum mentum í Róm, í þeirri von, ad þeir sem Papiskir gjørast, útbreidi Papiskt trúarbrøgd medal landa sinna; og helst þessi stiptan enn vid.

31. Hvílíkt var ásigkomulag safnadanna, er láu undir þá Grisku kyrkju, í tilliti til lærdómsins og trúarbragdanna?

Þegar hjátrú og misklídir í lærdóminum fengu yfirhønd, þá dróg eitt ský eptir annad fyrir þá byrtu, sem Griskum søfnudum í ønd-verdu hafdi stadid af ljósi Guds heiløgu orda. Utvortis vidhøfn í Guds þjónustu, óandlegar þráttanir og stífsinni í því ad forsvara sínar meiníngar um þá hluti, sem annadhvert yfir-gánga mannlegann skilníng, eda lítid ridur á, innbyrdis ofsóknir, og flockadrættir, og yfir høfud, þvílíkt líferni sem kristnum ecki sómir; þetta og þvílíkt hjálpadi til kristindóms-ins nidurdreps, og þess heila Keisara-dæmis eydileggíngar. Sá eini Keisari rak opt þann annann frá ríkjum, og sá eini Patri-arki bannfærdi hinn annann. Af því Bogo-mili vildu ei tilbidja krossinn, þá vóru þeir, med sínum foríngja Basilio, á því stóra torgi, sem Nordmenn kalla Padreim, en Grickir Hippodromum, brenndir af Keisaranum Alexió á þeirri tólftu øld. Þá Múnkarnir á fjallinu Athos søgdust sjá Gud líkamlegum augum vegna sinna sífeldra gudræknis ydkana*) var því strax trúad, og

*) Þegar þeir beiddust fyrir, eda vóru í sinni Gudrækn-

þeirra hégiljur samþycktar á einu Biskupa þíngi sem haldid var í Miklagardi 1350. Grickir álykta ad heilagur Andi framgángi fyrir (*per*) Soninn, en ecki af (*ab*) Syninum, hafa þó ecki sýnt, hvert nockur eda hver mismunur á þessu sé; og fleira lítur hér ad, er sýnir stóra fákunnáttu medal þeirra. Alíkt var ástadt fyrir bóklegum mentum um þetta skeid. Prætur um þá hluti, er meintust tilheyra trúarbrøgdunum, gáfu ei andlegrar stéttar mønnum tóm ad ydka þær vandlega. Keisararnir og þeir veraldlegu høfdu ærid nóg ad verjast yfirgángi Tyrkjanna, og stilla innbyrdis upphlaup.

32. Upptel mér þó nockra, sem ødrum framar hafa, vegna lærdóms og eptirlátinna rita, gjørt sig nafnkunnuga?

Á hinni Elleftu øld, 1) Suidas, hann skrifadi eitt Lexicon Historicum, 2) Theophylactus, er skrifad hefur útleggíngar yfir bækur hins Nýa Testamentis 3) Georgius Cedrenus, er saman hefur tekid

is æfingu blýndu þeir augunum til þess stadar, hvar nafli þeirra var, og því kølludust þeir *Omphalopsychi*, eins og þeir skyldu meina, ad sálin væri í þeim parti líkamans; þeir sýnast annars í mørgu hafa verid líkir svo kølludum Qvietistis.

Annála. Á Tólftu øld, 1) Johannes Zonaras, sem saman hefur tekid Annála frá Heims upphafi til 1118. 2) Anna Comnena, hefur ritad í 15 bókum þad til hafdi borid medan fadir hennar Keisarinn Alexíus Comnenus ríkti. Á Þrettándu øld, Georgius Pachymeres, hefur í 13 bókum ritad Historíu þess Griska Keisaradæmis. Á Fjórtándu øld. 1) Jóhannes Cantacuzenus, Keisari og sídan Múnkur, hefur samantekid Historiam Byzantinam. 2) Manuel Chrysoloras, kom því til vegar, ad nockrir í þeirri Rómversku kyrkju løgdu sig framar eptir því Griska túngumáli, enn skéd hafdi í nærstu 700 ár. Á Fimtándu øld Bessario, er gaf sig frá þeirri Grisku kyrkju til þeirrar Rómversku og vard Cardinal.

### 33. Hver urdu endalok þess Gríska Keisaradæmis?

Eptir þad sá Tyrkneski Kóngur Amurath hafdi brotid undir sig þau ríki, sem tilheyrdu því austlæga Keisaradæmi, (svo þeir Grísku Keisarar rédu ei stórt yfir ødru, enn sínum Adsetursstad Miklagardi), kom árid 1451 til ríkis eptir ødur sinn Mahómed annar, hver ed einsetti sér ad gjøra endir á

því Grïska Keisaraveldi, og settist því um Miklagard med þrjú hundrud þúsundir manna, og þar ad auk stórum skipaflota. Keisarinn Constantínus Palæologus sýndi ágjæta vørn, svo leingi var tvísýnt, hverjir sigrast mundu; loksins fékk Mahómed yfirhønd, en Keisarinn, er ei vildi takast til fánga, ód med nakid sverd midt framm í fylkíng sinna óvina, og var til dauda fótum trodinn af þeim. Eptir þad Keisarinn var fallinn, vard eingin vørn fyrir, en í heila 3 daga æfdu Tyrkjar slíkann nídíngskap og grimd á sigrudu fólki, ad varla munu finnast dæmi til annars eins. Fjerutýgir þúsundir manna vóru myrdtar, og sextýgi þúsundir til fánga teknar. Þó þyrmdi Mahómet sjálfri borginni, því hann útvaldi hana til síns adseturs; þá kristnu, sem undan komust, kalladi hann til baka, og gjørdi sig blídann vid þá, og þar Patríarka sætid var nú lidugt, skipadi hann þeim kristnu, ad þeir skyldu útvelja sér nýann Biskup eda Patríarka, og vard fyrir því Georgíus Scolarius, sem almennilega kallast Gennadius, og setti sjálfur Mahómed hann inn med venjulegri vidhøfn og Cerimoníum. Þegar Mahómed hafdi nú þannig nád til sín því ausklæga

Keisaradæmi, árid 1453, lagdi hann einnig árid 1461, þad trapezundiska Keisaradæmi undir sig, sem upp rétt var 1215, og hét sá fyrsti-Keisari þar Alexius Comnenus, en hinn sídasti David. Þannig féll þad megtuga Keisaradæmi hinna Grísku, Tyrkjum í hendur, og hafa kristnir mátt sæta þúngum áløgum af þeim, þó þad eigi ad heita, ad þeir hafi sídan haft sinn Patríarka í Miklagardi, sem opt má dansa eptir því, sem Tyrkjarnir spila edur qveda fyrir.

## 2) Um Þá-vestlægu edur Rómversku Kyrkju?

### 34. Hvad tóku þeir Rómversku Páfar sér fyrir hendur, í tilliti til Guds kyrkju útvortis stjórnunar?

Vér sjáum af því sem ádur er ávikid í næst fyrirfarandi Capítula, hversu þeir Rómversku Páfar høfdu komist til ædstu metorda, svo þeir nú tignudust sem allsherjar Biskupar, og vildu álítast sem Kristí ædstu umbods menn, jafnvel þó þeim í þessu væri nockur mótstada gjørd af Miklagards Biskupum, einkum Photio; þeir vóru líka ordnir ad nockru leiti veraldlegir Furstar, sídan þeir ad gjøf Pipins Kóngs og hans nidja høfdu

eignast mikinn part af Italíu, og England var undir þá skatt gyldt; þó vantadi þá enn nú mikid til þess, ad ná undir sig þeim rétti, Keisarar, Kóngar og Furstar høfdu til réttr-ar landstjórnar, því Keisararnir Carl hinn Mikli, Ottó hinn Ríki, (fyrsti þess nafns), og fleiri, létu ei draga sér úr høndum þann rétt, þeir af Gudi høfdu þegid yfir þègnum sínum. En framm eptir þeirri elleftu øld sýnist, sem Keisarar og Kóngar hafi keppst hver vid annann, ad leggja frá sér þá um-hyggju, þeir bera áttu fyrir velferd landa og lýda, sem þeir vóru yfirskipadir; en þar á mót álitid, sem beinasta veg til himins, ad gánga í klaustur eda i blindni ad fylgja og trúa því, er þèckíngarleysi og hjátrú af þeim krafdist til edlíngar því Rómverska sæti. Henrik Keisari, sem kom næstur eptir Ottó hinn Unga, ásetti sér ad leggja nidur ríkisstjóru-ina, og gánga í klaustur, hefdi hann ei ver-id frá því talinn. Kasimir Pólína kóngur gaf sig einnig í Klaustur, og sá Grískí Keis-ari Michael Paphlago; slíkt hid sama gjørdi árid 1355 Miklagards Keisari Jó-hannes Cantacuzenus. Adrir Kóngar létu ei heldur sitt til vanta, hvar med þeir kynnu ávinna sér hylli Páfans og þeirrar

andlegu stéttar, hvers vegna nockrir eru færd-
ir í helgra manna tølu. En medan þessir
velltust þannig úr tign sinni, sjáum vér Páf-
ana hafa haft Péturs sverd á lopti. Beni-
dict 8di er í brjósti fylkíngar mót Serkjum,
tók til fánga þeirra Drottníng og lét háls-
høggva. Leó Páfi, 9di þess nafns, færdi
stríd á hendur Nordmønnum, er høfdu ad
ráda yfir Pul (Apulia) Calabrien og
Sicilien, og var tekinn af þeim til fánga
árid 1053. Loksins settist Hildibrandur,
er lét sig kalla Gregorium 7da í þad
Páfalega sæti. Hann skorti hverki hardfeingi,
stadfesti né undirbyggju til ad koma því í
verk, sem vantadi uppá Páfanna yfirdrottn-
an, og gjørdi eina Statútu er kallast Dict-
atùs, um Páfans veldi og ædstu yfirrád
1076 er vera skyldi sem allsherjar løg í
kristninni. Til hans yfirgángs hjálpadi ei
all-lítid ósamheldi þeirra veraldlegu Fursta,
þeirra og annara leik-manna hjátrú, fégyrnd
og adrir lestir, hvad Hildibrandur vissi ad
færa sér svo í nyt, ad hann, sem ypparsta
kristninnar høfud, undir því skyni hann ætti
setja maklegar skriftir stórbrota mønnum, og
hegna yfirgángandi ósida, tileinkadi sér þann
rétt, ad hann kynni leysa þad fridar og holl-

ustu-band, er samtengir yfir- og undir-menn til innbyrdis velferdar, svo þegnarnir þyrftu ei framar vera lýd-skyldir sínum köngum, en Páfinn áleit sanngjarnlegt vera; enda mátti það ei sanngjarnlegt heita, ef það í nockurn máta stríddi mót þeim yfirrádum Páfinn eignadi sér; þá hét það enn framar, ad enginn væri reglulega til andlegs embættis kominn, er Páfinn ei tilsetti; og ad andlegrar stéttar menn væru ei framar undir løgsøgn veraldlegra, heldur alleinasta þess Rómverska sætis, og vid eingann þann mættu kristnir samneiti hafa, sem væri í kyrkjunnar forbodum. Þessir og þesskyns lærdómar, hverjum engvir þordu móti mæla, er ei vildu falla í Páfans bann, vóru sem styttur þess andlega einvalds dæmis. Nú trúdu menn í Páfans valdi væri ad afsetja Kónga og Keisara, géfa Kónga ríki og taka þau aptur. Henrik 4di Keisari var nockrum sinnum bannfærdur, og þá hann sá, ad sínir þegnar mundu sig þess vegna yfirgéfa, mátti hann fara á Páfans fund, standa í 6 dægur samfeld í mesta frosti berhøfdadur og berfættur fyrir Páfans hallar dyrum, falla honum til fóta og standa skriftir; og þegar Keisarinn var af sumum þegnum sínum knúdur til ad hefna

flíkrar svívyrdíngar, lét Páfinn útvelja annann Keisara, Rúdolf, í stad Henriks; áttu þeir sídan bardaga, og féll Rúdolfur árid 1080. Samt var ei Henriki Keisara bodid til kirsetu, því son hans Henrik sékti eptir ríkinu undan födur sínum, í því skyni, ad nidur setja þær óspektir, sem vóru millum födur hans og Páfans. Feck Henrik 4di ósigur og deydi 1106. En þessi son hans Henrik, eptir þad hann vard Keisari, reyndist ei svo hagfeldur því Rómverska sæti, sem í fyrstu ætlad var, heldur géck hann í fótspor födur síns, kúgadi þá Rómversku Páfa nockrum sinnum, uns Páfi Calixtus 2ar æsti svo hans þegna mót honum, ad hann hlaut árid 1122 vinna þad til sætta, ad standa af sínum rétti, til ad veita andleg embætti. Fridrik Keisari, kalladur hinn Raud-skéggjadi, (Barbarossa) setti sig einninn mót Páfans yfirgángi, en hlaut þó loksins beidast fridar 1177 og segja nockrir, ad Páfinn hafi stigid á háls Keisaranum, þar hann lá flatur fyrir honum, og sagt: León og Høggorma skaltu undir fótum troda; hver ofstopi sýnist þó varla trúanlegur. Fridrik 2ar var einnig dæmdur af Páfanum frá Keisaralegri tign. Keisari Hlødver af Bayern, þar hann komst

til slíkrar tignar án Páfans samþyckis, var bannfærdur og afsettur af Páfanum Clemens 6ta árid 1346.

Ei einasta gjørdu nú Páfarnir þannig hardleikid Keisúrunum, heldur máttu Kóngar og Furstar lægja seglin fyrir þeim og innlendum Biskupum, hverja Páfarnir tóku í forsvar og brúkudu til eflíngar síns einvaldsdæmis. Svo sjáum vér, ad þegar Kasimir feck sig lausann úr því klaustri, hann hafdi inngengid, lagdi Páfinn skatt uppá þá Pólsku Herramenn, er svo-gott sem neiddu Kasimir til Ríkisstjórnarinnar. Henrik Kóngur mátti taka England í lén af Páfanum 1173, hver þó leingi hafdi forsvarad sinn rétt móti Páfanum og Thómási Erki-biskupi í Kantaraborg*). Innocentius 3ji bannfærir Eng-

*) Þessi Biskup, sem orsakadi mestu óspektir í Englandi, og kom því til leidar, ad þad heila ríki var sett í bann, var eptir sinn dauda settur í helgra manna tölu af Páfanum hérum 1170. En í hvada áliti hans helgi hafi verid í Englandi, má ráda þar af, ad í þeirri stóru kyrkju sem er í Cantaraborg, hvar Kristó var innvigt eitt altari, annad jómfrú Maríu og heilaga Thómasi hid þridja; þá var offrad á einu ári til Kristi altaris 41. Pd. St. jómfrúr Marju 822. Pd; en til heilaga Thómasar 10828. Pd; enn þó var offrid ójafnara ári sídar, því Kristur feck eckert,

land, og dæmdi Jóhann (sem kallast *Sine Terra*) frá ríki, en svo hann hefdi nockud vid ad styðjast, féck Páfinn honum í hendur, sem Umbods manni, England og Irland árid **1213**. Og er oflángt upp ad telja slíkann Páfanna yfirgáng; en eg legg þetta dæmi til fóta hinna; Jacob Erlendsson Erki-biskup í Lundi kom til vegar þeirri ályktan á einum samfundi er haldinn var á Jótlandi **1256**, í tíd Christófors Ita Dana Kóngs, ad veraldlegt yfirvald mátti ei straffa nockra ósidu, jafnvel þó landráda søk væri, sem Biskuparnir ad hefdust; svo ef Kóngar í slíku tilfelli vildu framfylgja lands-løgum og rétti, féllu þeir í bann af sjálfu verkinu, og þeirra undirsátar álitnir leystir, ad Páfans løgum, frá sinni þegnskyldu. Pad vestlæga Keisaradæmi og þau nordlægu ríki í Nordurálfunni vóru nú ordin ofþraung Páfanna metnadi, svo nú var einasta eptir ad fá komid undir Páfans ok því Grisska Keisaradæmi. Þess vegna reyndu Páfarnir med øllu móti til, ad þeir søfnudir, sem láu undir Patríarchann í Miklagardi samsinntu þeim lærdómum, er vidteknir vóru í þeirri Rómversku kyrkju, ad þeir þar

Marja 53. Pd; en Thómas 12400. Pd. Holb. K. H. P. 2. p. 91.

eptir medtækju sig, sem þeirra andlegann Föd-
ur og ædsta Hyrdir; og skédi þad, ad þeir
Grisku Keisarar, til ad njóta Páfans fylgis
móti sínum fjandmønnum, létu sig um tíma
leida til ad samþyckja slíkt; en þad sýnist opt-
ást verid hafa ad yfirbragdi. Eingu ad sídur
var Páfinn álitinn í þeirri Rómversku
kyrkju sem Gud á jørdunni, er ecki einasta
eignadi sér vald yfir Keisurum, Kóngum og
Ríkjum, heldur og sem sá, er hefdi lykla
Himnaríkis og Helvítis; hvad sýna hans
bannfæríngar og inntøkur í Himininn (Canonizationes).
Til ad stødva Páfans yfirgáng,
og mínka nockud þad álit, hann var
kominn í, þénadi einkanlega þrennt: 1) ad
Cardínalarnir urdu optlega ei á eitt sáttir
hver Páfi skyldi vera, og vóru þá stundum
tveir í senn útvaldir; skédi þad og þrávallt,
eptir þad Páfarnir Clemens 5ti og hans
eptirkomarar, høfdu tekid sér adsetur í Avignon
í Fránkaríki, sem varadi hér um 70 ár,
ad þeir í Italien útvøldu Italískann Páfa
en Franskir Franskann, og varadi þessi tví-
høfdada stjórn frá 1378 í 50 ár; urdu þessir
Páfar ad leita sér fulltýngis hjá Keisurum
og Kóngum, og þessvegna í sumu lægja sinn
metnad; bannfærdi sá eini Páfi þann annann,

og ónýtti hver þess annars gjördir, og hyktadi slík óeiníng ei fyrr enn annarhver var af baki ridinn; sá þá svo út, ad einginn endir mundi verda á slíkum óspektum, í þeirri Rómversku kyrkju, ef ei hefdi verid fundid nýtt rád, sem er þad annad, er reisti skordur Páfanna óþolandi yfirgángi, og var þad ad halda Biskupa þíng, á hverjum útkljást skyldu uppkomnar misklídir. Vóru tvær slíkar samkomur einna merkilegastar um þessar mundir; sú fyrri var haldin í Písa 1409 hvar tveir Páfar í senn vóru afsettir, nefnilega, Gregorius 12ti og Benedict 13di, en valinn aptur til Páfa Alexander 5ti, sem deydi 1410 og kom í hans stad Jóhann 23sti, svo nú vóru þrír Páfar í senn uppi, í mesta máta sundurþyckir. Hin sídari samkoma var sett 1414 í stadnum Costnitz, fyrir tilstilli Sigmundar Keisara, og var þessum þremur Páfum þángad stefnt. Jóhann mætti; en þá hann sá, ad flestir vóru sér mótsnúnir, strauk hann af þíngi þessu, og feck hann dóm, ad hann skyldi, sem stadlegur óróamadur, setjast í fángelsi og missa embættid. Gregorius lagdi góðviljuglega frá sér sín völd, en Benedict vardist um hríd, var hann þó loksins afsettur 1418, þá þessu þíngi

var flitid, og Marteinn hinn 5ti þess nafns, var útvalinn Páfi í hinna þriggja stad. Hér af er audsjed, ad þessi Biskupa þing, drógu undir sig þann myndugleika, Páfarnir høfdu ádur eignad sér, og gjørdu þá sinni løgsøgn undirgéfna, hvar fyrir þau ei einasta urdu Páfunum harla geigvænleg, heldur sýndust fleirum óþolandi, þar nú var ecki vid einn heldur marga allsherjar Dómendur, og þá marga stundum rángsnúna, ad eiga; hvørs vegna Páfarnir eptir árid 1455 komust til sinnar fyrri tignar, og fóru því þá fram er þeim sýndist; hvar fyrir og nockrir, einkum Alexander 6ti skuldast fyrir óheyrilega glæpi, svo allir dugandis menn æsktu lagfæríngar á þeim hlutum, sem komu vid lærdóminum og sidferdinu. Undanfarnir tímar høfdu upplokid margra augum, er sáu nú á hverjum grundvelli Páfans ædsta makt var byggd, og í hvada ólag kristindómurinn var kominn. Hér vid bætist þridja orsøkin, sem ad nockru leiti hindradi Páfanna frekari yfirgáng, nefnilega, ad bóklegar mentir tóku merkilegum framførum á þeirri 14du og 15du øld, hvar til ei all=lítid hjálpadi, ad þá var fundid uppá ad prenta bækur *); svo ad nockru leiti glidn=

*) Þar eru ýmsar meiníngar um, hvenær og af hver=

udu í sundur þau þyckú ský vanþeckíngar og hjátrúar er ádur á skygdu, og nockrir rétt-skickadir Guds menn, er løgdu sig eptir lestri heilagrar Ritníngar, leiddu í ljós ad-skiljanlegar villur og ógudlegt athæfi, sem vidgeingist høfdu í þeirri Rómversku kyrkju, jafnvel þó þeir, sem Páfans drætti fylgdu, uppi héldi Guds orda sannleika í ránglæt-inu (Róm. 1. 18).

**35. Hvílíkt var ásigkomulag Guds dýrkunar í þeim Papisku søfnudum um þessa tíma?**

Í fám ordum ad segja: Þá var þad hid aumasta. Ljós Guds heiløgu orda var nær því útsløckt, svo allur fjøldi ráfadi í myrkrum þeckíngarleysisins á því eina naudsynlega. Í þess stad, ad kénnendurnir áttu ad byggja yfir þann grundvøll, lagdur var í øndverdu af Kristó og hans Lærisveinum, var nú trú-

jum sú íþrótt, ad prenta bækur, hafi fyrst verid upp-fundin. Sumir nefna hértil Jóhann Guttenberg í Maynz 1439. Adrir Jóhann Faust, sem lét þrickja Bibljuna 1462. Þó sýnist þeirra meining hvad líklegust, er seigja þessi i-þrótt sé í fyrstu uppkomin í Stras-Borg 1436; en sídan af ádur tedum Prentverka Forstjórum og enn fleirum smámsaman endurbætt. Vóru bókstafirnir fyrst útskornir í tré og arkid þrickt einasta ødrumeiginn svo hver tvø blød urdu samanlímast.

arinnar og sídanna lærdómur bygdur á Páfanna setníngum, Múnka diktum og vitrunum. Peir sem ødrum lærdari þóktust, gjordu úr Guds ordi og frædum þess heidna Spekíngs Aristóteles nockurskonar samsteipu, hvar af flóknar spurníngar spunnust og ódandlegar þráttanir; og þar rétti þeckíngu á þeim hlutum, sem tilheyra sannri Guds þjónkan, fór þannig hnignandi, þá fór þar eptir lifnadurinn, einkum þeirra, er vøkumenn skyldu heita á Zíons Múrveggjum *). Og þar hjátrúin, sú drepsótt réttskickadrar Guds dýrkunar hvad eptir annad, svo fjølgudu einar og adrar nýúngar í kristilegri kyrkju.

Pétur, Franskur Eremiti innfærdi á þeirri Elleftu øld í Nordur-álfuna þann sid, er ádur fyrri var brúkadur af Serkjum og Indverskum, ad nefna viss nøfn Guds eda helgra manna vid nockrar tølur, er festar vóru á band, er sídan kalladist Rósa-krans. A

*) Hérum ritar viss madur á þeirri 13du øld þannig: „Satan átti sér tvær dætur, Fégyrnd og Ofneytslu; hina gipti hann Gydíngum en þessa Heidíngjum; en Klerkar rændu þá þeim, og vildu ei adrir nýta þeirra." Hvar med hann bendir til þeirra høfudsynda, sem á hans tímum høfdu fengid ofmikla yfirhønd.

Prettándu øld saman tók Dominicus*) Rósagard (Rosarium) Maríu, sem eru vissar bænir til hennar, sem lesast skulu milli þess ad menn 150 sinnum hafa ávarpad hana med Engilsins qvedju: Ave María! Þad ár 1214 var á einu Biskupa þíngi samþykt, ad menn skyldu hid minnsta einusinni á ári, skriftast fyrir sínum rétta Sóknar-Presti, og vóru menn vanir ad gjøra þad, annadhvert á Páska-daginn eda Lánga Frjádag. Innocentius hinn 5ti tilsetti á hinni Fjórtandu øld eina hátíd til endurminníngar þess spjóts, med hverju Kristí sída var opnud, og þeirra nagla, hann var festur med vid Krossinn; hvad ad nockru leiti vorkénnast má þessara tíma einfeldni; en hitt verdur sídur afsakad, ad Benedict 12ti uppábaud eina hátíd sára-øra Kristí, er hinn heilagi Franciscus skyldi hafa haft á sínum líkama, hvar fyrir Pápistar sumir hafa kallad hann Kristum Typicum**). Á þessari øld var stad-

*) Dominicus de Guzmann var Spanskur edalmadur, fæddur 1170, er prédikadi mót Albigensibus, og stiptadi þá mektugu Munka-stétt, sem kallast Dominicani, líka Prédikara-Múnkar. Hann deydi 1221 og var af Páfa Gregorio 9da settur i helgra manna tølu árid 1235.

**) Þessi Franciscus, er fæddur i Italíen, gaf sig frá

fest af Clemens 5ta Páfa Kristí líkama hátíd, sem vér køllum hinn Díra-dag, og Urbanus 6ti tilsetti Vitjunar hátíd María, og ønnur sídar meir var í minníng hennar syndlausa gétnadar stadfest af Páfa Marteini 5ta. Loksins vil eg géta nockra þeirra ráungra lærdóma, sem uppkomu edur ebldust á þessum tímum í þeirri Rómversku kyrkju. Hjónabandid var útþryckilega bannad andlegrar stéttar mønnum ondverdlega á þeirri Ellestu øld, svo þeirra eignir ei lenda skyldu hjá leikmønnum, þó sjá menn ad slíkur óvani hafdi ei framgáng í Danmørk, fyrr enn hér um 1120. Sá lærdómur um þau sjø Sacrament var á þeirri Tólftu øld vidtekin, og á því Biskupa þíngi, haldid var í Róm 1215, var stadfestur sá lærdómur, ad Braud og Vín í Altarisins Sacramenti umbreyttist í Kristí líkama og blód, hvar af kom, ad sú vígda Obláta var álitin sem Kristí sannur Líkami, og henni skyldi því sama dýrkun veit-

veraldlegum umsvifum 1206 og plágadi svo sinn líkama, ad yfirgéck mannlega háttsemi. Hann stiptadi þá adra stóru Múnka ordu, sem kallast Sníkju- edur Husgángs-stétt, þar þeir hana inngeingu áttu lifa á ølmusum. Þeir kallast einnig hinir berfættu Múnkar. Franciscus deydi 1226, og var Canonizeradur tveim árum sídar.

ast, sem sjálfum Kristó; og hefur eingin villa framar steypt mønnum í afgudadýrkun og hjátrú, enn þessi. Á því Biskupa þíngi, sem haldid var í Costnitz 1415 var áliktad, ad Braudid í Sacramentó Altarisins, skyldi einasta útdeilast leikmønnum, en Braud og Vín, Prestunum. Svo køllud aflát (sem í fyrstu sýnast verid hafa uppgjøf sekta og pintínga, sem stórbrota menn eptir Páfans løgum féllu í) snérust á þessum øldum í ógudlega vanbrúkun, þar ed Páfarnir, fyrir vissa þóknan, uppgáfu drýgdar og ódrýgdar syndir ei einum einasta medan hann lifdi, heldur og stundum í mørg hundrud ár, eptir þad ham var daudur. Erki-biskupar og Biskupar gáfu einnig aflát uppá nockur ár eda daga, og vóru sumir af þeim á þessu nærsta ríkir.

**36. Hverjir vóru þeir, sem einna helst settu sig móti raungum lærdómum og vondu framferdi, sem tídkadist um þessar mundir í þeim Papisku søfnudum?**

1) Valdenses, einn adgreindur søfnudur í Fránka-ríki, er fékk nafn af þeim manni er hét Pétur Valdus, hver ed útlagdi heilaga Ritníng á sitt módurmál, og í sínum prédikunum leiddi í ljós ósæmilegt framferdi andlegrar stéttar-manna. Hann og þeir hans

lærdómum fylgdu, álitu Páfann ei framar enn annann Biskup. Hreinsunar eldinn, Sálumessur, vígt vatn, býlæti, helgra manna tilbeidslu og önnur hirdurvitni fordæmdu þeir; Sunnudaga héldu þeir helga, en adrar hátídir álitu þeir sem mannlega setnínga. Margir féllu í síd. med þessum, og sérílagi svo kalladir Albigenses, sem sýndu sig ei sídur mótfallna Páfunum enn hinir. Hér af kom, ad Páfinn og þeir hans drætti fylgdu, lögdu alla stund á, ad uppræta þessa sannleikssins votta, og vóru af þeim, hérum sjötýgi þúsundir, drepnir árid 1208. Hinir, sem undan komust, lifdu á mörkum og skógum, og bar ei, eda næsta lítid á þeim, fyrr enn Wiclefitar og Húsitar kéndu opinberlega vidlíka lærdóm. 2) Jóhann Wiclef, fæddur 1324 var *Professor* og *Doctor Theologiæ* í Háskólanum Oxfurt á Englandi. Hann útlagdi heilaga Ritníng á Enska túngu, skrifadi gégn Páfanna ofmiklum yfirgángi, gégn Múnkanna og einna helst þeirra af Prédikara lifnadi, ótéilegum lifernis-háttum, og gégn adskiljanlegum villum, sem vidteknar vóru í þeim Papisku söfnudum; og vid þetta hélt hann til síns dauda-dags, sem skédi 1387. En hans lærdómur dó ei út med sjálfum

honum, þó hans rit væru fordæmd, af Parlamentinu í Englandi árid 1400 og þeir allir dæmdir ad brennast, sem lásu hans bækur, og þó hans líkami væri uppgrafinn og brendur 44 árum eptir hans dauda. 3) Jóhann Húss, Prestur í høfudstadnum Prag í Boheim. Þessi madur var í stærsta afhaldi medal sinna landsmanna, og fannst þad fljótt á hans kénníugum, ad hann hafdi lesid Wiclefs bækur, þar hann prédikadi mót ýmsu vanskicki og ógudlegu líferni, sem þá géck yfir. Þó skédi eckért upphlaup af þessu fyrr enn 1409, þá hann opinberlega setti sig gégn þeim tveim Páfum Benedict 13da, og Gregorio 12tá og rédi løndum sínum ad halda sér til þess Páfa, sem menn kjæmu sér saman um ad útvelja á einu þar til settu Biskupa þíngi. Þegar Páfi Alexander 5ti vard slíks áskynja, skipadi hann Erki-biskupinum til Sbynkó ad mótstanda þessum lærdómi, og lét þessi Erkibiskup brenna 1410 Wicleifs bækur sem í ríkid høfdu borist. Páfi Jóhann 23ji, lét stefna Húss fyrir sig, og þar hann ei mætti, bannfærdi Páfinn hann, en Húss skaut sínu málefni til Guds og til þess allsherjar Biskupa þíngs, haldast átti. Til þessa þíngs, er haldid var í Costnitz, var honum stefnt,

og eptir þad hann hafdi fengid verndar og og vega bréf af Keisara Sigmundi, kom hann 1414 til þíngsins, en, mót Keisarans verndar bréfi, var hann settur í fángelsi, og þar hann féll í þúngann sjúkdóm, gat hann ei sjálfur stadid fyrir máli sínu, enda leifdist ei honum þann ad fá sér, sem fyrir hann svørum uppihéldi. Hans besti vinur Héronýmus, Prestur í Prag, sem álitinn er jafnmaki, ef ei framar, Jóhanns Húss, bædi ad lærdómi og røggsamlegri vandlæting, kom einungis nockud sídar til þessa móts, og þegar hann sá, hverju rángkæti Jóhann Húss mátti sæta, fór hann til baka, en þar hann á heimreisunni qvartadi sárlega yfir Páfans yfirgángi, var hann gripinn og í fjøtrum fluttur til Costnitz. Sídar batnadi Húss sinn sjúkleiki, svo hann mætti fyrir réttinum med sínar afbatanir. Þær þýngstu sakargiptir, sem hann var á-klagadur fyrir, vóru þær, ad hann neitadi því, ad Postulinn Petur hafi nockurn tíma verid settur af Kristó fyrir høfud kristilegrar kyrkju, og þess vegna kynni ei heldur Páfinn tileinka sér sama rétt; og bannfæringar hefdu eckért abl, þá einn vildi skjóta sínu máli til Kristum, med ødru þesskyns, er ad nockru leiti sýndist veikla Páfans yppurstu rád í andleg-

um og veraldlegum efnum; en í høfudpóst-
um trúarinnar vék Húss ei frá því almenni-
lega var vidtekid í þeim Pápisku søfnudum.
Eingu ad sídur géck sá dómur yfir þennann
Guds mann, ad hann og hans bækur skyldu
brennast; hvar fyrir sjálfum honum, um-
kríngdum af 800 strídsmønnum, var kastad
á bál, eptir þad hann á knjám hafdi gjørt
sína bæn til Guds og befalad honum sál sína.
Þetta skédi í Júlió Mánudi árid 1415.
Héróným̃us, hvers ádur er gétid, hafdi sømu
afdrif sem Húss, og var brendur ári sídar.
Þegar þetta fréttist til Boheim, vard mesta
upphlaup millum ríkisins innbyggenda. Þeir
sem fylgdu Jóhanns Húss lærdómi, útvøldu
sér til Oddvita fyrst Jóhann Zizka og sídan
Procopium, hverjir sér hafa útvegad eitt
ódaudlegt nafn vegna síns hardfengis, og þess
forsvars þeir veittu sínum løndum, er brjótast
vildu undan Páfans oki, og þad mót þeim
mektugustu ofsóknurum; þeim, annars merki-
lega, Keisara Sigmundi, og Páfunum.
Procopius féll í orustu 1434, og þó Húss-
ítarnir yrdu sídan ofurlida bornir, þá hlutu
samt þeir Pápisku leifa þeirra leikmønnum
ad brúka Braud og Vín í Altarisins Sac-
ramenti.

**37. Høfdu þeir kristnu hédan úr Nordurálfunni enga vidburdi til þess ad ná undir sig þeim ríkjum, Tyrkjar høfdu inntekid í Austurálfunni?**

Ad vísu, Pétur Eremita, hvers ádur er gétid, fór Pílagríms ferd til Gydíngalands, og þá hann kom til baka, sagdi hann frá hvílíkum hørmúngum og óþolandi offsóknum kristnir í Gydíngalandi og í Sýrlandi yrdu fyrir af Tyrkjum, og einkanlega þeir, ed heimsæktu helga stadi í Gydíngalandi. Létst Pétur vera af Gudi útsendur ad fara um Nordurálfuna til ad upphvetja Konúnga og Fursta til ad frelsa hid heilaga landid. Og þar nú alþýda trúdi þessu, og slíkt leit út til ei all-lítils hagnadar og sóma því Rómverska sæti *), svo fylgdi fast ad þessu Ur-

*) Þad sem helst knúdi Páfana ad fylgja svo ríkt ad þessu erindi, sýnist vera, ad þar Tyrkjar høfdu inntekid mørg ríki þess Gríska Keisara-dæmis, var hætt vid þeir léti ei stadar nema, fyrr enn þeir félli inn í Páfans ríki. Páfinn sá einnig, hvílíka mannaudn slíkar herfarir orsaka mundu, og Kóngar því heldur ablvana, ad reisa skordur vid Páfans yfir-gángi; en ad Kóngar vóru svo ljúfir ad láta slíkt eptir Páfunum, sýnist óllad hafa bædi hjátrú, og ad þeir vildu verda fríir fyrir mørgum ríbbalda, er sat eptir ríkjum þeirra, en med þessum her-ferdum annad hvert settust ad løndum í fjarlægum stødum eda fundu þar sína grøf.

hanns Páfi og adrir hans eptirkomarar, sem skipudu Biskupum víds vegar um Nordurálfuna, ad upphvetja fólk til þessa andlega leidángurs, hvar á mót þeir fengu nóg aflát, er létu sig krossa til ferdarinnar. Váru þessir strídsmenn kross á øxlinni ytstann fata, hvítann, raudann, eda grænann til merkis ad þeir vildu heya bardaga Drottins. Var þad nær ótølulegur fjøldi fólks, en margt gagnslítid, er gaf sig í þennann leidángur; var fyrst inntekin Edessa, Antíóchía og fleiri stadir á Sýrlandi, og loksins nádu kristnir Jerúsalem árid **1099**, var þeirra foríngi Godfreyr, Hertoginn af Lotharíngja, hver ed var útvalinn til Kóngs ad Jórsølum, en til mikils skada þeim kristnu, deydi þessi kappi ári sídar. Í hans stad var útvalinn bródir hans sem hét Baldvin, Greifi í Edessa. Nú þó efnum kristinna manna, sem vóru í þessum parti Austurálfunnar, sýndist hrundid í betra lag, þá var samt ei rétt lengi þess ad bída, uns þeim fór dag frá degi hnignandi, hvad bædi var ad kénna óvild og undirhyggju Grickja, er sýnast heldur hafa viljad vera undir Serkja enn Páfiskra yfirrádum, einnig misklidum þeim, sem vóru millum sjálfra kristinna, þeirra óspekt-

um, hardýdgi og ógudlegum lifnadi. Conrád Keisari og Hlødver 6ti Fracka Kóngur vildu 1147 vidrétta tilstand kristinna í þessum løndum, sem komid var á fallandi fót, en bidu ósigur og komust ad eins lífs til baka med fáu af lidi sínu 1149. Eptir þad inntók sá sigursæli Serkja Kóngur Saladin Jerúsalem árid 1187, og var þá ecki kristnum vidréttíngar von medan hann lifdi. Fridrekur Keisari hinn Raudskéggjadi, Philippus Fracka Kóngur og Richardur Engla Kóngur, fóru ad nýu 1189, med her á hendur Serkjum, og nádu Akurs-borg (Ptholomais) er vard hinn helzti hjálparstadur kristnum sídar meir. Keisarinn deydi í Armenía 1190, en tédir Konúngar, eptir margskyns vos og vandrædi, komust heim aptur til ríkja sinna, án þess ad framqvæma sína fyrirætlan. Vid þessar hrakreisur hættu ei Páfarnir heldur ad eggja Kóngana í Nordurálfunni, ad gjøra frekari tilraun. Innocentius 3ji uppá baud helgar herfarir ad nýu móti Serkjum. Tóku Franskir sig þá upp, en í þess stad, þeir ætludu vada uppá Tyrkja, inntóku þeir Miklagard 1204 hvers ádur er gétid. Fridrekur 2ar Keisari, ferdadist 1228, eda þar um bil, med mikinn her

í Gydíngaland, nádi um stund Jerúsalem til handa þeim kristnu, en hlaut reisa heim til ad verja sitt eigid ríki. Hlödver 9di Fracka Kongungur, kalladur hinn Helgi, fór tvisvar til Gydíngalands, og vard lítid ágengt. Loksins mistu kristnir árid 1291 Akursborg, og var þá mikill fjöldi þeirra drepinn af Tyrkjum, enda hefur hverki Gydíngaland eda Sýrland komid undir kristna Kónga sídan *); og

*) Slík andleg her-för var hér í landi uppá bodin árid 1275. 1289, og optar, og tóku margir krossinn, en fleiri, ef ei allir, keyptu af sér ad fara í þennann leidángur. Til ad fullnægja þessu erindi, skyldi hver kyrkja géfa af sínum inntektum tíunda partinn, og kölludu sumir þad Páfa tíund, sem annad er enn Péturs peníngur, er var tíundi partur úr alin fyrir nef hvert hér á landi. Tóku saman þetta fé Prestarnir hver í sinni sókn, er í hendur feingu þad sínum Biskupi, en hann aptur Erki-Biskupi, edur ödrum Páfans umbodsmanni. Þessi Péturs peníngur var í ödrum löndum vídast heimtadur, ad eg hygg, og ad hid sama hafi skéd í Norvegi, sjest medal annars af bréfi Eysteins Biskups í Oslo til þeirra í Hvítseidis sókn, Nizis - kölum og annara, er vóru í sýslu hans, hvar svo stendur: „Geymit oc gjorla alla samen, at þer gerer rúma skatt talend pening þen minstæ, ær faller af Kongungs stedsa, hver mæn sem æmbote tekor; a þa penningi sancte Peter á Róme, oc þii æiter þat Rúmaskatter" þetta bréf er útgéfid í Grímsey 1395, á Marteins messu-dag.

var það raunar þeim kristnu í Norðurálfunni ei skadlegt; því fyrir manntjón og stórar fémissur, og allann þann óskunda og óspektir, þess háttar herfarir vóru ollandi, innfluttust einasta í Norðurálfuna svo kalladir helgidómar, svo sem Maríu hár, Péturs vetlíngar, etc. er ærna fé vóru keyptir, og til áheita víðs vegar í kyrkjum og klaustrum geymdir, hvar af twinnadist margskonar hjátrú og afguda-dýrkan, ad eg ei tali um, hversu kristnir vóru optlega véladir í kaupunum.

38. **Sætti kristileg kyrkja nockrum ofsóknum um þessar mundir?**

Já, þar yfir er almennilega klagad af þeim gømlu, hversu Saraceni hafi verid fullir grymdar vid kristna menn, og þá hardlega undir sig brotid; en géta þess þó ei, ad Serkir þécktust hafa um sárt ad binda, þegar kristnir sýndu þeim ei minni ójøfnud, (hvad hægt er ad sýna í Søgunum) svo opt þeir høfdu yfirhønd, og vildu brjóta undir sig þau ríki, sem þeir vóru ei tilbornir. Þá Cinghizcan Tartara Keisari vann og drap Ungchan, edur þann ríka Jóhn Prest, fór eptir þad mjøg hnignandi efnum kristinna manna í þeim ríkjum, hvar þessi kristni

Kóngur rédi fyrir; og enn framar, þegar Tyrkjar og Tartarar, undir þeim nafnfræga Tamerlan, fengu yfirhønd í Asía, svo ad mestu upprættist kristin trú. Hér í Nordurálfunni lockudu Saraceni fjølda þeirra kristnu til Mahómeds villu, og þad sýnist, sem útgjørt hefdi verid um kristinndóminn í Spanía, ef Ferdínand 1ti Kóngur þar, hefdi ei Serki burtrekid, hvad ed skédi 1492, eptir þad hann hafdi inntekid Granada; høfdu Serkir hér um 700 ár haft mestann hlut af Spaníen undir sér. Kónga ríkid Portúgal hafdi undir Serkja oki verid nær 400 ár, frá því Roderik Gauta Kóngur var af þeim rekinn frá ríkjum, til þess þeir vóru sigradir og burtreknir af Alphonso 1ta Kóngi í Portúgal. Þeir á Vindlandi, og adrar þjódir, sem enn nú héldu vid fornann blótskap, gjørdu illvirki í þeim stødum, er tekid høfdu vid kristni. Þeirra ofsókna er ádur gétid, er Páfinn hafdi í frammi mót þeim Waldensibus, Wiclefitum og Hussitum, og urdu fyrir sama grídar-bil flestir, ef ei allir, í þeirri vestlægu kyrkju er mótmæltu Páfans ædstu yfirrádum, villum og ósidum andlegra, hver sannleikans vitni af Pápiskum almennilega reiknast med villumønnum; þó er ei hér med

sagt, ad ei hafi á þessum øldum þeir lifad, sem annadhvert endurnýudu hinar fyrri villur, eda fóru med þvílík draumlæti og gudlastanir, sem sú Rómverska kyrkja, hverju sem hún í ødrum greinum var fallin frá þeim hreina gudhrædslunnar sannleika, gat ei lidid, og enn sídur þeir, sem í Guds grandvarleika vilja framm gánga í því lærdóm og lifnad snertir:

**39. Hverjir eru þeir, sem fyrir stakann lærdóm eda eptirlátin Rit helst markverdugir í þeirri vestlægu Kyrkju vóru um þessa tíma?**

Á þeirri Ellestu øld 1) Hermann, kalladur Krýplíngur (Contractus) samantók Annála bók. 2) Adam, Kanúkur í Brimum 1077 hefur ritad fjórar bækur um framgáng kristnibodsins í þessum nordlægu ríkjum. 3) Ari Prestur Þorgilsson, fæddur 1068, deydi 1149, hefur skrifad Norvegs Kónga Søgur, sem nú meinast undir lok lidnar, um Íslendskt Landnám, og Schedas, er hann kallar Íslendínga bók. 4) Kolskéggur, hefur ritad um Íslendskt Landnám. 5) Sæmundur Sigfússon í Odda, fæddur 1055, deydi 1133. Á Tólftu øld 1) Bernhardus Abóti í Klerivas edur Claruvøllum í Frackland. Hans skrif hafa ætíd verid mikils verd, og er sagt

hann hafi stiptad 160 Klaustur. Eptir hans dauda, sem skédi 1152, eda um þad bil, var hann settur í helgra manna tølu. 2) Petur Abelardus, stór Logicus, mætti ýmsu vosi vegna síns lærdóms. 3) Petur, ættadur úr Lombardi, kalladur Magister Sententiarum. 4) Petur Comestor, hvers Theologia Scholastika, edur útskríngar yfir heilaga Ritníngu vóru fordum í miklu afhaldi og finnast all-vída innfærdar í Stjórn. 5) Helmoldus, Prestur í Lýbech, hefur skrifad Chronicon Slavorum. 6) Gissur Hallsson, Stallari Sigurdar Kóngs, fødur Sverris Kóngs, sídan løgmadur hér á landi 1181, og dendi 1206, hefur samantekid bók um landa-skipan í heiminum, sem hann kalladi Flos Peregrinationis. 7) Snorri Sturluson, fæddur 1178, var hér Løgmadur, og einn merkilegasti frædi madur og skáld, hefur samantekid Norvegs Kónga Søgur, skrifad um Eddu kénníngar, og fleira; var drepinn af mønnum Gissurar Jalls í Reikjaholti árid 1241. 8) Karl Jónsson, Abóti á Píngeyrum, hefur ritad Sverris Søgu, og dendi 1213. 9) Brandur Sæmundarson, Biskup á Hólum, byrjadi ad rita Íslendínga Søgu ena Miklu, hann vígdist til Biskups 1164,

og deyði 1201. 10) Oddur og Gunnlaug-ur Leifsson, Múnkar á Þíngeyrum, rituðu Søguna af Olafi Tryggvasyni á Latínu, hverri eg meina snúið hafi á Íslendsku Bergur Sockason, er Príor var á Þverár Klaustri, 1322, og síðan Abóti þar 1326, Gunn-laugur deyði 1218, (*al.* 1219). Hér við-bætast þeir merkilegu Sagnaskrifarar, sem eptir tilsøgn Absalons, þá Biskups í Hróars-keldu, rituðu þá Dønsku Historíu, nefnilega: 11) Sveinn Akason og 12) Saxi, kallaður Grammaticus, sem Ritari eður Secre-tair var nefnds Biskups. 13) Þjóðrekur (Theodoricus) Múnkur í Þrándheimi hefur skrifað um Norvegs Konúnga, í tíð Eisteins Erki-biskups. Á þrettándu øld: 1) Thómas Aqvinas. 2) Albertus Magnus, Biskup í Ratisbon. 3) Bona-ventura, Italiskur Biskup. 4) Albert frá Staði, Abóti þar. 5) Andres Sunason, hef-ur skrifað Hexaemeron og útlagt á látínu þau Skonsku løg. Hann var danskur eðalmað-ur, síðan Erki-biskup í Lundi og deyði 1228. 6) Olafur Hvítaskáld Þórðarson, er sam-sett hefur nockurn part af Skáldu, hann deyði 1259. 7) Sturli, bróðir Olafs, hefur skrif-að Hákonar Søgu og Sonar hans Magn-

úsar Lagbætis. Hann skrifadi einnig um Íslands landnám, og þar Brandur Biskup hætti, hélt hann áframm ad skrifa Sturlúnga Sögu; Snrli deydi sjøtugur ad aldri árid 1284. 8) Brandur Jónsson, fyrst Abóti í Veri 1247, vígdur til Biskups á Hólum 1263, deydi 1264. Hann hefur útlagt Stjórn, Rómverja Søgur, Søgu Alexandri hins Mikla, jafnvel Karla Magnúsar, og enn fleiri. Á fjórtándu øld: 1) Duns Scotus. 2) Nicolaus de Lyra. 3) Vilhjálmur Ockam. 4) Jóhann Wiclef, hvers ádur er getid; þessir 3 Enskir. 5) Jóhann Taulerus. 6) Frantz Petrarcha. Á fimmtándu øld: 1) Jóhannes Gerson, Cancelleri vid Háskólann í París. 2) Jóhann Huss. 3) Alphonsus Tostatus. 4) Dionysius Carthusianus, Hollenskur. 5) Thómas á Kempis. 6) Héronymus Savanorola, einn vandlætíngar fullur prédikari, hver þar hann sýndist of berordur móti Páfanum og ýmsu óskycki, var hann fyrst heingdur og sídan brenndur í Flórentz, árid 1498.

40.

40. Seig mér nockud um útbreidslu kristilegrar trúar á þessum øldum?

Danir, Nordmenn, Svíar, Rússar, Pólskir og adrir fleiri, sem á hinni tíundu øld snérust til kristilegrar trúar vóru øndverdlega á næstu øld eptir, í henni mjøg óstyrkvir; Hvers vegna þeirra Kóniúngar løgdu alla stund á ad efla kyrkjur og kennimenn, leidrétta sidu þegna sinna, og hvervetna styrkja þá trú, til hverrar þeir høfdu snúist. Í Casgar, Turchestan Genda, Tangut og fleirum ríkjum Austurálfunnar snéru á elleftu og tólftu øld Nestoriani mørgum søfnudum til kristilegrar trúar, hverjir allir um stund lágu undir þann Chaldeiska Patríarka, en á sídari tímum vóru flestir kúgadir eda lockadir til Mahómeds villu. Ottó Biskup í Bamberg snéri þeim í Pommeren 1124. Nockrir Kaupmenn frá Lybeck (Lybiku) þeim í Líflandi 1136, og Finnum Eyríkur Svía Konúngur 1157. Eiríkur Dana Kóngur, kalladur Eymuni, herjadi 1136 á Vindland, og vann þar høfud borg þá, er Arkun heitir; þar var heidid fólk fyrir, og tóku þeir vid skírn, er ei vóru drepnir; en þá Kóngur var burtfarinn, þá køstudu þeir kristni og efldu blót. En Valdimar Kóngur, hinn

lti þess nafns, vann þar eptir borgina Arkun, braut hof og hørga, og med fulltýngi Absalons Biskups snéri Vindum og Rængjum (það er: þeim frá Rygen) frá heidnum dómi. Og løgdust þeir í andlegum efnum sídar undir Biskups-stólinn í Rois-Këldu, eptir þar uppá útgéfnu stadfestíngar bréfi Alexanders 3ja Páfa 1168. Absalon var fyrst Biskup í Rois-Këldu 1158, er mestur hermadur hefur fæddur verid einhverr í Danaveldi; þar eptir var hann naudugur skipadur til Erki-biskups í Lundi á Skáni, og veitti Alexander Páfi honum Chor-kápuna (Pallium) og umferd yfir Danmerk, Svíþjód og Gautland hvertveggja; kom honum þad fyrir utan fé, en engum fyrr; má af slíku, og hans mørgu afreks verkum marka, í hverju áliti og hvada gérsemi hann var; hann deyði 1201. Þá þeir, svo kølludu, Þýsku Riddarar, flýdu úr Gydíngalandi, kúgudu þeir þá í Preussen og Líflandi, sem ei høfdu hafnad fornum átrúnadi, ad kristnast *). Ladislaus Jagello Kóngur í Pólen

*) Þegar kristnir høfdu unnid undir sig Jerúsalem og fleiri stadi í Gydíngalandi, en høfdu ærid ad verjast ágángi Serkja, til settu kristnir þrjár stéttir andlegra riddara, er skyldu reisa skordur offsóknum

þvíngaði 1386 þá í Furstadœminu Lithaven til að fylgja siðum kristinna manna, eptir það hann giptist dóttir Hlødvis Kóngs í Ungaría. Þegar Americus Vespucius fann Vest-Indíen 1492, sem eptir honum kallast Ameríka, útbreiddi um þann part heimsins Ferdinandus Catholicus Kóngur í Spaníen sitt veldi, og þvínguðust margir af innbyggendum þessarar, svo kallaðrar, nýu veraldar, til Papiskra trúarbragða, einkum á þeirri sextándu øld.

---

og ránskap, er Serkir æfðu, hjálpa sjúkum og Pilagrímum, er sóktu til helgra staða, með øðru fleiru er til styrktar og hlífðar horfði efnum kristinna manna. Var hin fyrsta stétt, þeirra er kølluðust riddarar hins helga Jóhannis að Jórsølum, og kallast nú þeir Malthesisku Riddarar. Ønnur kallaðist stétt *Templariorum*, eður Musteris Herra, og dróu þeir nafn af því húsi nærri var Musterinu í Jórsølum, hvar þeir innibjuggu í fyrstu. Þessi stétt var síðar meir aftekin 1312, og hennar Riddarar eydilagðir, vegna þeirra óheyrilegra glæpa, sem þeir vóru skuldaðir fyrir. Þriðja stéttin var hinna Þýsku Riddara, er áður kølluðust Riddarar hinnar heiløgu Maríu að Jórsølum. Løgðu þeir undir sig Preussen og fleiri staði. Þeirra formanns aðsetur er í Mergentheim í Preussen, og einn af þess Þýska ríkis Furstum. Bäum. Evrop. Riig. Stats Forf.

41. Seig mér í fám ordum, hversu tilstandi kristilegrar kyrkju hafi varid, verid í Danmørk, Norveigi og á Íslandi?

Þad er yfir høfud athugandi, ad í þessum ríkjum, og undirliggjandi eyum, medal hverra Ísland er hin stærsta, var kristin trú fyrst bodud af þeim, sem uppfræddir vóru í þeim trúarbrøgdum, er vidtekin vóru í þeirri Rómversku kyrkju, hvers vegna þeir einnig útbreiddu sama lærdóm, sem þeir ádur numid høfdu; og þar vér høfum heyrt ad undanførnu lítid ávikid, hversu sú Rómverska kyrkja hafdi villst í møргum greinum frá þeirri réttu Guds þjónkan, og í hennar stad innfært margvíslega hjátrú og hindur vitni, sem æ því framar møgnudust, sem lengra leid frá þeirra upprunа; svo er audrádid, hversu trúarinnar og sidanna lærdómi hafi háttad verid; en hvad útvortis stjórn Guds safnada áhrærir, þá bisnadi snemma fyrir, hvada rétt Biskuparnir, eptir þad kristin trú hafdi fest rætur í ríkjunum, mundu sér eigna vilja, í øllum þeim málum, er þeir álitu horfa til sinna atqvæda, og undir eins, ad þeir þóktust ei undir løgum veraldlegrar stjórnar, heldur hinnar andlegu (þad er: Páfans), í sérhverju tilfelli standa. Nú

þar hvert þessara ríkja var í sumum greinum hvørt ødru frábrugdid, þá vil eg sérílagi géta fárra hluta.

1) Um Danmørk.

Eptir dauda Sveins Kóngs Tjúguskéggs vard Danmørk alkristin, og fylgdu fast ad því verki eptirfylgandi Kóngar, einkum Knútur Ríki Sveinsson, sem færdi med sér til Danmerkur marga andlegrar stéttar menn frá Englandi, af hverjum sumir festu fót í Danmørku, en adra sendi hann til Norvegs; hann var og hinn fyrsti er stiptadi Múnklífi í Danmørk, og hafdi þad í skilordi, ad þeirra formenn mentudu únga menn í þeim frædum, er kristinndóminn kynnu eb'a. Fylgdu þessi Múnklífi flest reglum hins Hegla Benedicti *). Sveinn Kóngur Ulfsson skipti Danmerkur ríki í átta Biskupsdæmi **), var hid fyrsta í Heidabæ, annad í Ripum, þridja í Árósi; fjórda í Vebjorgum, fimmta í Jórúngi, fyrir vestan Limafjørd, sem nú kallast Álaborgar Stipti; sjøtta í Odinsey á Fjóni; sjøunda í Róis-kéldu á Sjálandi og hid

*) *V.* Sv. Aka S. *Hist. Reg. Dan. Cap. V.* & *Chron. Regis Erici.*

**) *V. Annal. Esrom. ad finem.*

áttunda á Skáni; og telur Knytlínga-Saga kyrkjur um þær mundir í Danmörk 2300 tólfræd og 38 umframm. Eiríkur Kóngur Sveinsson, kalladur Gódi, þá lof til þess af Páfa Paschalis, ad Erki-biskups stóll skyldi setjast í Danmörk, er ádur var engi Erki-stóll nordar enn í Brimum á Saxlandi. Össur, son Sveins Þórgunnusonar (dóttur Bagns Akasonar) var kosinn til Erki-biskups í Danmörk, og þar med, ad Erki-biskups-stóll skyldi vera í Lundi, sá er allur lýdur á danska túngu-skyldi til þjóna. Árid 1114 sendi Paschalis Páfi Pallium Össuri Erki-biskupi, sem deydi 1139, og kom bródur son hans Askell í hans stad, sem med gódum vilja gaf sig frá Erki-biskups embættinu og géck í Klaustrid Klerivas (Claravallis eda Clairvaux) 1177, hvar hann deydi 1181, en kaus í sinn stad þann merkilega Biskup Absalon. Þá kristnin var nú þannig efld og styrkt í Danmörku, fylgdu Páfarnir fast ad, ásamt eptirfylgjandi Biskupum, ad nidurþryckja Konúnganna rétti, en auka framm um hóf þann andlegrar stéttar menn eignudu sér. Vér höfum ádur heyrt, hversu Jacob Erlendsson Erki-biskup hegdadi sér vid Kóng Christófor 1ta Valdimars-

son. Þessi Jacob fèck Erki-stólinn, án þess Kóngur stadfesti hann í svo hán embætti, hann umbreytti þeim gamla kristinrètti Skánúnga, eg meina þeim, sem saminn var í öndverdu af Valdimar Kóngi og Askéli Erki-biskupi 1162, en sídan var í sumum greinum, endurbættur af Absalon Erkibiskupi; eptir þeirri álíktan hann kom til leidar 1256, og sem sídar af Páfanum var samþyckt 1294, var ríkid sett í bann, en Kóngurinn, eptir því sem almennilega er haldid, var drepinn á eitri af Arnfasti Arósa Biskupi 1259. Af þeirri missklíd, sem uppkom milli Kóngs Eiríks Menved og Erkibiskupsins Jens Grand, var yfir Danmerkur ríki á ný lýst banni og Kóngi hótad ad bæmast frá þess stjórn, hvar fyrir þessi Kóngur hlaut ad auðmýkja sig fyrir Páfanum og svara þúngum sektum til Erki-biskups, svo ríkid yrdi leyst úr banni, hvad ed skèdi 1303. Og sjá menn hèr af, hversu Danmerkur Kóngum veitti torvelt ad reisa rönd vid yfirgángi þeirra andlegu um þessar mundir. Þessi Jens Grand er sagdur fyrstur hafi í þessum Nordur-ríkjum látid tilbúa svo kallada Libros Daticos vid hverja kyrkju í sinni Sýslu, hvar innfærdar vóru

gjafir þær, er til guðlegrar brúkunar vóru ætlaðar, án efa til að upphvetja alþýðu til þess háttar örlætis. Kóngurinn Christófor af Bayern gjörði 1443, vissa skickun á um tíundar greiðslu til kyrkna, Biskupa og Presta, og Eiríkur af Pommeren Dana Kóngur, fékk leyfi af Marteini 5ta Páfa að stipta Háskóla í sínum ríkjum, úr hverju þó eckért varð, meðann hann ríkti; en Christján 1ti Dana Kóngur, þá hann ferðaðist til Róm, fékk á ný leyfi Sixti Páfa hins 4ða, árið 1474 til hins sama, og setti þessi merkilegi Kóngur, hinn fyrsti af þeirri Oldinborgisku Kónga ætt, Háskólann í Kaupmannahöfn árið 1474, en áður, nefnilega: 1468, fengu Danskir, undir þessum ágjæta Kóngi, af Páfa Calixto það frelsi, að þá leikmenn áttu málum að skipta við hina andlegu stéttina, mættu þau prófast heima í ríkinu, áður enn þeim skotið væri fyrir Páfann edur hans umboðsmenn. Erki-biskuparnir í Lundi sömdu ýmsar Statútur, og hefur Byrgir Erki-biskup látið þrycka nockrar þær í París 1514.

## 2) Um Norveg.

Eptir það Olafur Kóngur Tryggvason

hafdi brotid menn til kristni vídast í Norvegi, sýnist sem margir mundu fallid hafa til heidínglegrar villu ef vid því hefdu ei skordur reist Erki-biskuparnir í Brímum, en þó einna helst Olafur Kóngur Helgi Haraldsson, því í Annálum finnast þessir Biskupar á nafn nefndir: Godebald, Folqvardur, Sigfridur, Rodulfur, Grímkéll og Bjarnvardur eda Bernhardur, frá því ári 1004 til 1022, hverjir allir eda velflestir sýnast útlendir verid hafa, en í ríkid kalladir ad prédika fyrir alþýdu. Nú þá Olafur Kóngur var setstur ad ríkjum 1015, lagdi hann alla stund á ad semja kristnina hvar vid þurfti, og tók því saman Norskann kristinn rétt med rádi Grímkélls Biskups og annara lærdra manna; lét hann sama byrta fyrir alþýdu og lagdi þúngar refsíngar vid, væri honum ei hlýdt. Eisteinn Kóngur, hverjum lægin var landstjórn og lága-skipan, byggdi nockrar kyrkjur í Norvegi. Sigurdur Kóngur bródir hans Magnússon, þá hann fór til Jórsala, mátti ádur hann þadan reysti, bindast í þad med svardøgum, ad þá hann kæmi aptur til ríkis síns, skyldi hann efla kristnina í Norvegi, og fá settann þar Erki-biskups stól, og er líklegt hann hafi útgéfid Víkverja kristinn rétt. Ept-

ir bón Nordmanna, hérum 20 árum eptir dauda Sigurdar Köngs, sendi Evgenius 3ji Páfi, Nicolaus Cardínal (hver sídar vard Páfi, og lét sig kalla Hadrían 4da), til Norvegs, sem árid 1152, gjørdi þá skipan, ad Erki-stóllinn skyldi setjast í Þrándheimi, hvad ed sampyckt var af Anastasio, Páfa tveim árum sídar. Hinn fyrsti Erki-biskup nordur þar hét Jón Birgisson, ádur Biskup í Stafángri; láu undir þennann Erki-stól 4ur Biskupa-dæmi í Norvegi, nefnilega, Oslóar, Bjørgvinar, Stafángurs og Hamars*), 2 á Íslandi, Skálholts og Hóla, 1 í Færeyum, 1 í Grænlandi, samt 1 í Orkneyum og 1 í Sudureyum medan þær lágu undir Norvegs Krónu. Eptir Jón kom Eisteinn Erlendsson til Erki-biskups tignar 1161, var hann mikill høfdíngi og frændmargur. Erlíngur Jarl Skacki hóf þá til ríkis Magnús son sinn, og vann flest til vid Erki-biskup, ad hann fylti flock sonar síns og krýndi hann til Kóngs. Þetta vissi Eisteinn ad hagnýta sér, enda lagdi hann þá grundvøll til þeirra valda, hann og hans eptirkomarar eignudu sér, og undir eins

*) Hamars Biskups-Sýsla var sídar, nefnilega: 1536 lagd undir Oslóar Biskup.

til þeirra óspekta, sídar uppkomu millum Kónganna og Erki-biskupanna. Eisteinn tilskyldi sér tvøfaldann sakeyri framar enn hans formadur hafdi haft. Hann samdi nýjann kristinn rétt, er hann kalladi Gull-fjødur, og lét þann sama samþyckja á þíngi nockru, sem þar um haldid var í Bjørgvin 1164, en hér í landi finn eg ei hann hafi vidgeingist. En þá Sverrir Kóngur, sem réttur erfíngi ad Norveg, braut sig til ríkis, vildi hann hverki samþyckjast Gull-fjødrinni, ei heldur þeim nýúngum, Magnús Erlíngsson hafdi ásáttur ordid um vid Erki-biskup, og slotadi nockud um hans daga metnadur og ágángur Biskupanna; fetadi einnig í þessari grein fótspor Afa síns Hákon Kóngur Hákonarson. Magnús Kóngur Lagabætir lét ei heldur fyrra hlut sinnar ríkis-stjórnar draga sér úr høndum þann rétt, yfir þegnum sínum, sem hinir fyrri Kóngar høfdu svo fríulaust varid fyrir áseilni Biskupanna; en þegar hann fór ad þreitast undir byrdi Ríkis-stjórnarinnar, og þar hann hér ad auk vildi allt þad fordast, er valda kynni óspektum í ríki sínu, þá tók sig upp Jón Erki-biskup, er nefnist hinn Raudi, og kalladi til sømu valda og sakeyris, sem Eisteinn Erkibiskup hafdi tilskilid sér af Magn-

úsi Erlíngssyni, og vann þessi ágjæti Kóngur sér það til fridar, að samþyckt var gjør þeirra í milli 1277, hvar eptir øll andleg mál skyldu af kyrkuanna forstjórum einúngis dæmast og án Erki-biskups samþyckis mátti Kóngur ei løg útgéfa kristnum dómi vidvíkjandi; þar á mót affaladi Erki-biskup sér allt vald og tilkall yfir Kónga kosníng, medan løg-erfdum mætti vid-koma. Magnús Kóngur hafdi ádur endurbætt lands løgin, og saman skrifad nýjann kristinn rétt, en hann kunni ei, vegna þessarar samþycktar, leidast í løg; hvar fyrir Jón Erki-biskup samantók nýjann kristinn rétt, og þreyngdi honum árid 1280 uppá þegna Kóngsins, þá í Norvegi vóru, og sýndi sig hvervetna drambsamann og ásælinn. Eptir afgang Magnúsar Kóngs kom til ríkis sonur hans Eirikur 1280, og var hann þá 12 vetra gamall, eda þar um bil. Dróg þá Jón Erki-biskup upp øll segl hofmennsku sinnar, og fylgdi fast að, að sá úngi Kóngur skyldi vinna þann eid, ádur hann yrdi krýndur, sem Erki-biskup honum stafadi, og hneig að því, að sú sáttargjørd fadir Eiriks. Kóngs hafdi fám árum ádur gjørt vid Erki-biskup, og hin er Eisteinn Erki-biskup lockadi af Magnúsi Erlíngssyni, skyldu

drjúfanlega haldast. En þegar Eiríkur Kóngur þrosskadist, og hann sá hvílíkum þýngslum bædi hann og þegnar hans hlutu sæta vegna tilfalls þess, Erki-biskup hafdi, gjørdi hann adra útleggíng yfir eyd sinn enn Erki-biskupi líkadi, og vildi allt stædi vid hid sama, sem ádur vidgéckst, enn sáttargjørdin var smídud. Þegar Erki-biskup nú sá, ad sinn hluti mundi lægri, fór hann burt úr ríkinu til Gautlands og deydi ad Skaurum, og kalladi hjátrú sumra hann heilagann. Eiríkur kom því til vegar, ad tíundir, sakeyrir og adrir tollar til Kyrkna skyldu greidast á þann hátt, sem á var kominn ádur sáttargjørdin skédi, og var vegna þessara hluta kalladur Presta-hatari, hvad hann þó ei forþénti, því hann má teljast med þeim stjórnsømustu Kóngum. Hákon Háleggur fylgdi því fast fram, sem Eiríkur bródir hans hafdi upptekid, baud Klerkasveinum ad búa undir slíkri lýdskyldu vid Kóngdóminn, sem adrir Kóngs þegnar og svara venjulegum løgskilum. Skyldadi hann løgmenn og Sýslumenn ad fylgja bændum til réttra laga og fornra, ef Prófastar eda þeirra umbodsmenn þraungva Kóngsins þegnum med banni edur ødrum hardindum. Hann aftók þann kristin rétt,

Fadir hans hafdi samid, líka og þann Jón Erki-biskup lét samansetja, en skipadi lögmønnum ad leggja lága úrskurd á eptir þeim forna kristin-rétti, þó svo ad allar sektir falli til þridjúnga. Og sjá menn hér af med hverri røggsemd þeir brædur Magnúss synir hafa forsvarad rétt þegna sinna mót ágángi Biskupanna og lærdra manna, og eymdi af þessu nockurnveginn til þess endurbót trúarbragdanna skédi. Vilhjálmur Cardínall, þá hann kom til Norvegs, krýndi hann Hákon Kóng, Launson Hákonar Kóngs Sverrissonar 1247*). Hann aftók járnburd þar í landi, og útgaf margar hagqvæmar skipanir**). Sérílagi er þad merkjandi, ad hann eggjadi Hákon Kóng ad koma Íslandi undir sig. Innfæddir Norskir, sem í helgra manna

*) Í hvada áliti Hákon Kóngur hafi verid medal framandi, má ráda þar af, ad Páfi Innocentius 5ti tilbaud honum Keisaralega Kórónu, en Hákon vildi ei þyggja hana; hann deydi í Orkneyum 1263.

**) Fleira úr ýmsum réttarbótum Kónganna og Erkibiskupa Statútum hér ad innfæra, er ei rúm. En þeir, sem vilja vita fleira þess kyns, kunna hjálpast vid Pauses Samlinger af Norske Love og Retterbøder. Item S. T. Biskups Dr. Finns ágjætu kyrkju Historiu.

tølu vóru færdir og hvad helst tilbednir, var Olafur Kóngur Helgi og frændi hans Hallvardur Vébjarnarson, er (*secundum ann. Reg.*) var drepinn 1043, og skrínlagdur í Oslo, sem nú kallast Kristjanía.

## Um Ísland sérílagi.

Eptir þad kristni var løgtekin hér á landi árid 1000, var hún fyrst undir yfirsýn Erkibiskupsins í Brimum til ársins 1104, sídan Erki-biskupsins í Lundi til 1152, og þar eptir, til þess endurbót trúarbragdanna skédi, undir Erki-biskupunum í Þrándheimi. Nú þar Brima Biskup var svo fjarlægur, þá var þad heppni þessa lands, ad ári eptir þad Olafur Kóngur hinn Helgi kom til ríkis í Norvegi, gjørdi hann ord Skapta Þóroddssyni løgmanni, og ødrum þeim er mest rédu fyrir løgum á Íslandi, ad þeir tækju úr løgum þá hluti, sem helst stódu móti kristnum dómi. Hann gjørdi og ord Hjalta Skéggjasyni ad koma til Norvegs, og sendi hann sídan frá sér til Íslands og Bjarnvard hinn Bókvísa, med þann kristinn rétt, hann med rádi Grímkéls Biskups hafdi samantekid, og sýnist þessi kristinn-réttur hafa gyldt hér í landi til 1123. Vóru hér í fyrstu útlend-

ir Biskupar, er ad nockru leiti hafa styrkt kristnina, med því ad vígja Presta, Kyrkjur og annad þvílíkt. Gissur Hvíti bjó í Høfda, en sídar færdi hann bú sitt í Skálaholt. Hann lagdi allann hug á ad styrkja kristnina, og sendi Ísleif son sinn sudur í Saxland og gekk hann þar í skóla; en er landsmenn vissu, hversu ágjætur Klerkur Ísleifur var, kusu þeir hann til Biskups. Þág hann vígslu af Adalbjarti Brima Biskupi, og settist ad Skálholti 1057, hvar hann hafdi ádur búid. Hann lærdi marga ágjæta menn og lét vígja til Presta, og urdu tveir hans lærisveinar Biskupar, Jón Helgi á Hólum og Kolur Víkverja Biskup. Á hans døgum vóru enn nockrir útlendir Biskupar, og kenndu þeir sumt linara enn Ísleifur, en Erki-biskup Adalbjartur (Albert) bannadi mønnum ad hlýda þeim eda nýta þeirra þjónustu, og qvad þá suma vera í kyrkjunnar forbodum. Eptir andlát Ísleifs Biskups, bádu landsmenn Gissur son hans, sem þá var afbragd annara manna hér á landi, ad hann skyldi vígjast til Biskups. Hann fór utan og var vígdur af Hardevik Erki-biskupi í Magdeborg, því Leimarus Brima Biskup var þá í Páfans banni. Gissur kom út 1084. Nú

þar vitrir menn sáu ad kristindómurinn mundi lítt vidhaldast á landi hér, ef þeir sem honum áttu ad framfylgja hefdu ei eitthvad víst ad lifa af, þá báru þeir Gissur Biskup, Sæmundur Prestur Fródi, hinn besti Klerkur, sem hér var þá á landi, og Marcús Skéggjason, er tók løgsøgn **1084**, og var hinn vitrasti løgmanna, annar enn Skapti, rád sín saman, og sóktu ad rádi adra høfdíngja, ad þad yrdi løgleidt, ad menn tíundudu fé sitt á hverjum tveimur misserum og allann taug ávaxtar fjár síns, svo sem í ødrum kristnum løndum var tídt. Vann ástsæld Biskups, einnig fortølur og skøríngskapur þessara høfdíngja þad á, ad menn virdu fé sitt allt, til tíundar, hvert sem var í løndum eda lausum aurum, og sú Statuta, er þar um gjørdist **1096**, var løgtekin **1123**, ad hún skyldi standa medan landid væri byggt. Gissur gaf Skálholt til æfinlegs Biskups-seturs, og lagdi til stólsins mørg audæfi í landi og lausum eyri. En þá er hann þókti sá stadur vordinn svo ríkur, sem honum sýndist naudsynlegt til, þá gaf hann **1105**, meir enn fjórdúng síns Biskupsdóms til þess, ad heldur væru tveir Biskups stólar hér á landi enn einn, og lét hann þad ad bæn Nordlend-

ínga. Gaf Illugi þar Bjarnason upp Ódals Jörd sína Hóla í Hjaltadal, ad þar skyldi annar Biskups-stóll vera, og var þángad vígdur 1107, Jón Biskup Ögmundarson og Þorgerdar Egils dóttur Hallssonar af Sídu, hver ed reisti Skóla á Hólum. Setti hann fyrir Skólann Gísla Finnason ættadann úr Gautlandi ad kénna Grammaticam, og Rikinna Presti sinn ad kénna versa-smídi og saunglyst. Gissur Biskup fridadi svo vel landid, ad í hans tíd urdu eingar stór-deilur med höfdíngjum, en vopnaburdur lagdist mjög nidur. Þá vóru flestir virdínga menn lærdir og vígdir til Presta, svo sem Sæmundur Fródi, Ari Fródi, Kétill Þorsteinsson á Mödruvöllum, er sídar vard Biskup, og enn fleiri. Árid 1123, tóku saman nýánn kristinrétt, ad rádi Össurar Erki-biskups í Lundi Þorlákur Runólfsson Biskup í Skálholti og Kétill Biskup á Hólum, og er líklegt þeir hafi í flestu fylgt því, er stód í þeim, Ólafur Helgi sendi út híngad, ad því leiti landsins háttalagi og ödrum kríngumstædum sýndist samqvæmt, og var nú áqvardad eitt og annad náqvæmara enn ádur, er áhrærdi kyrkjur og kénnimenn; og stód þessi kristinréttur vid makt til þess Árni Biskup Þorláksson saman-

tók, eptir rádi Jóns Rauda Erki-biskups, nýann kristinrétt 1275, eptir hverjum menn lifdu allt fram til Reformatíónírnar, og jafnvel í sumum greinum leingur; þó samantóku Biskuparnir hér ad auk ýmsar Statútur, sem ad nockru leiti byggdar eru á þeim Papiska edur Canoniska rétti, og ad nockru leiti Erki-biskupanna setníngum og því kyrkju-skicki, vid tekid var í Norvegi. Eptir áeggjan Eisteins Erki-biskups byrjadi Þorlakur Helgi Biskup í Skálholti, ad setja menn í bann, og setti þýngri skriftir, enn hans forverjar; hann bannadi hér fyrstur hjúskap lærdum mønnum, en þad vard ei almennilega framm-geingt um hans daga, því hans eptirkomdr-ar Páll Biskup og Magnús Gissurarson og fleiri, vóru egingqvæntir menn; hann byrjadi fyrstur ad draga undan leikmønnum forrædi kyrkna, er stódu á þeirra eigunum, og hóf hann slíkar krøfur á Svinafelli í Austfjarda reid sinni; og fleiri nýúngar uppkomu á hans døgum, sem sídari Biskupar frammfylgdu. Þad er bædi af løgum og søgunum ad ráda, ad Biskupar hér í øndverdu vóru því sídur einrádir í því ad gánga dóma sjálfir, ad þeir miklu framar vóru undir landsløgum, og létu sér lynda hvad løgmenn dæmdu og,

løgréttan, sköu sér ei heldur framm í veraldlegar sakir; en á sídari tímum tóku þeir sér snid eptir Biskupum í Norvegi, og drógu sig og kénnilýdin undan þeirri hlýdni og lýdskyldu, forn venja og allsherjar løg stódu til, hvar af uppkomu stórar misklýdir, af hverjum einna merkilegastar eru þær, er risu af kyrkna og stada eignum. Jørundur Biskup á Hólum, og þó enn framar Arni Biskup Þorláksson, hófu tilkall til þessara eigna undan leikmønnum, en Rafn Oddsson er hafdi ypparstu tilsjón yfir landinu, kóngdómsins vegna, var sá, er fulltýngdi landsmønnum sínum í því, ad þeir rændust ei med øllu eignum sínum. Eptir lángar þrætur millum Arna og Rafns urdu þau málalok, ad Eiríkur Kóngur Magnússon 1297 sættist á þá leid vid Arna Biskup, med rádi og samþyckt Jørundar Erki-biskups, ad þeir stadir í Skálholts Biskupsdæmi, sem kyrkjur eigu alla, skulu vera undir Biskups forrædi; en þær sem leikmenn eiga hálfar edur meir, skulu leikmenn halda, med þvílíkum kénnimanna skyldum, sem sá hefur fyrir skylt, er gaf, en lúka ecki af framar. Eiríkur Kóngur, sem vel kunni semja løg og landsrétt milli þegna sinna, gat ei lidid þá kúgan

yfir almúgann géck, og því skipar hann í einu sínu bréfi út híngad sendu, ad allur kristinndóms = réttur, og þær sakir sem hér kunni tilfalla, séu eptir því, sem ad fornu hefur verid, og allir hlutir sækist eptir løgunn, en ei med útsetníng af heil. kyrkju eda þjónustu = banni, því Løgmenn séu til þess skipadir ad segja løg um kristinndóms = rétt, sem ønnur mál. Høfdu þessa kóngsins skipan ad vettugi hinir sídari Biskupar sumir, einkum eptir þad Norvegs og Danmerkur ríki vóru sámeinud, og drógu þeir því undir sig kyrkna forrád, og med einhverju réttar yfirskyni létu sér vera vidkomandi flestar þær sakir, er tilféllu í landinu, og ábata von var ad, hvar af kyrkjur og Klaustur mjøg audgudust. Og þar Klaustrin hafa verid álitin sem helsti styrkur kristindómsins, svo varadi þad eigi lengi, til þess þau vóru sett. Jón Helgi Øgmundarson setti Klaustur ad Þíngeyrum hérum 1120, Bjørn Biskup ad Þverá 1155. Klængur ad Hýtardal 1166, og í Þyckvabæ 1168, eptir ad Þorkéll Geirason hafdi lagt. þar til eignir sínar og í Flatey 1172, sem sídar (1184) var flutt ad Helgafelli. Þorlákur Þórhallason setti Nunnuklaustur í Kyrkjubæ 1186.

Magnús Gissurarson Abóta setur í Videy 1224. Jørundur Nunnuklaustur á Stad 1295, og Príors Klaustur á Mødruvøllum í Hørgardal 1303. Stefán Biskup í Skálholti stiptadi annad Príors Klaustur ad Skridu í Fljótsdal 1493.

Þetta er Biskupa tal á Íslandi, til þess endurbót trúarbragdanna skédi.

1) Í Skálholti.

1) Biskup var Ísleifur, fæddur 1006, settist ad Stóli í Skálholti 1057, var Biskup 24 ár.

2) Gissur Ísleifsson, var 36 ár Biskup, deydi 1118, á 76ta aldurs ári.

3) Þorlákur Runólfsson, fæddur 1085, vígdur til Biskups ad Gissuri lifandi 1117, deydi 1133.

4) Magnús Einarsson fæddur 1099, brann inni í Hýtardal 1148, þá hann hafdi Biskup verid 14 vetur.

5) Klængur Þorsteinsson, vígdur af Áskéli Erki-biskupi í Lundi 1152, deydi 1176, á 74da aldurs ári.

6) Þorlákur Þórhallason, fæddur 1133, var hinn fyrsti Príór og Abóti ad Þyckvabæ,

fékk Biskups vígslu 1178, deydi 1193, var hann Helgur kalladur, og þad álitinn ei einasta hér í landi og nálægum ríkjum, heldur og í Miklagardi hvar kyrkja honum var helgud 1204, af Baldvini Keisara.

7) Páll Jónsson, fæddur 1115, var vígdur af Absalon Erki-biskupi 1195, deydi 1211.

8) Magnús Gissurarson, vígdur af Guttormi Erki-biskupi 1216, deydi 1236.

9) Sigurdur Péttmarsson, fyrstur útlendra Biskupa*) í Skálholti, vígdur 1238, deydi 1268.

10) Árni Þorláksson, fæddur 1237, vígdist til Biskups 1267, deydi um vorid 1298, og er grafinn ad Michaelis Klaustri í Bjørgvin, hverju hann gaf Kyrkjubæ í Vestmanna-Eyum.

11) Árni Helgason, tók Biskups vígslu í Norvegi 1303, setti lærdra manna Spitala, í Gaulverjabæ, med rádi Hauks Løgmanns

*) Íslendskir kusu í fyrstu Biskupa sjálfir, en Hákon kóngur Hákonarson, tók sér þann mindugleika, ádur enn landid kom undir hann, ad senda hingad norska Biskupa, ad hann þess heldur gjæti nád undir sig landinu. Fáir af þessum útlendu Biskupum reyndust landinu nytsamlegir.

1308. Eptir bodi Eilífs Erki-biskups sigldi hann til Norvegs 1319, og deydi þar ári sídar. Í hans stad var vígdur Grímur Skútason Abóti í Hólmi, eyddi hann ærna peningum Kyrkjunnar og var kalladur Skurd-Grímur. Hann deydi í Norvegi ádur hann kæmi út híngad, og því er hann ei talinn í voru Biskupa-tali.

12) Jón Haldórsson, Norskur, vígdur 1322. Hann lét halda helgann hinn Dýra dag, og Magnúsar messu Eya-Jalls. Jón Biskup deydi í Norvegi 1339.

13) Jón Indridason, Norskur, vígdist um haustid á sama ári og Jón Haldórsson féll frá; hann deydi 1341.

14) Jón Sigurdarson, sigldi til Norvegs eptir Biskups-vígslu 1341, hverja hann fékk 1343, og kom út í Reidarfyrdi sama Sumar; hann var 5 ár Biskup.

15) Gissur Ísarson, var vígdur af Salómoni Bjørgvinar Biskupi 1349, því þá var Erki-biskups laust í Norvegi, og gékk þá yfir hinn, svo kalladi Svarti daudi. Kom þessi Biskup út tveim vetrum sídar, hann var Biskup 10 ár, og drucknadi 1360, á útsiglíngu.

16) Þórarinn, Norskur; kom út híngad

med Biskups tign 1363, innleiddi Getnadar hátíd Maríu 1364, deydi á sama ári.

17) Oddgeir Þorsteinsson, sýnist Norskur, kom til Stólsins 1366, sigldi til Norvegs 1379, en deydi þá hann ætladi til Íslands 1381.

18) Michael, Danskur; kom út med Biskups vígslu 1383, (*al.* 1385) var hérum 6 eda 7 ár Biskup.

19) Vilhjálmur, eda Vilkin, Danskur, kom út 1394, deydi í Norvegi, eptir þad hann hafdi verid 12 ár Biskup.

20) Jón, hafdi verid Ábóti vid Michaels Klaustur í Bjørgvin, kom út 1408, og var hér Biskup hálft sjøtta ár.

21) Árni Olafsson, kalladur Mildi, Íslendskur, var í hird Eiríks Kóngs af Pommeren og fékk Hirdstjórn yfir Íslandi 1413, og setti sinn Umbodsmann Bjørn Einarsson Jórsalafara, og þá hann heyrdi andlát Jóns Biskups, hitti hann Páfa Jóhann 23ja, og var eptir hans skipan vígdur í Lýbiku til Stóls í Skálholti og kom út híngad 1414, sigldi hédan af landi 1419, og kom ei út aptur, og er líklegt hann hafi dáid 1429, eda ári sídar.

22) Jón Gericksson Danskur ad kyni,

var fyrst Erki-biskup í Uppsølum, en þar hann átti ærid søkótt vid Svíana, flúdi hann til Danmerkur og sídan til Englands, hvadan hann kom út híngad 1430, en þá hann hafdi setid hér 3 vetur var honum dreckt í Brúará.

23) Gottsveinn Danskur, kom til Stólsins 1435, og var Biskup til 1448.

24) Marcellus Þýdskur, vard Skálholts Biskup 1449, og kom aldrei út híngad, heldur hafdi hér sína Umbodsmenn Gottskálk Hóla Biskup, Mattheus og Andres Grænlendínga Biskup.

25) Jón Stefánsson, Krabbi, var ordinn Biskup 1460, og sýnist hafa ríkt 5 eda 6 ár.

26) Sveinn, kalladur Spaki, vard Biskup 1466, og sat 10 ár.

27) Magnús Eiólfsson, vard Biskup 1477, deydi 1489.

28) Stefán Jónsson, vard Biskup 1491, deydi 1519.

29) Øgmundur Pálsson, var fyrst Prestur, sídan Abóti í Videy, kom út med Biskups vígslu 1522, misti sjónina 1535, og kalladi því sér til medhjálpar systurson sinn Sigmund Eiólfsson, er vígdur var af Olafi Erki-biskupi 1537, en deydi í Norvegi. Øg-

mundur var fluttur til Danmerkur **1541**, og sídan til Sóreyar Klausturs, hvar hann lifdi hér um hálft annad ár, og deydi á áttrædis aldri.

2) Á Hólum.

1) Jón Ögmundarson, vígdur af Össuri Erki-biskupi til Biskups **1106**, deydi **1121**, þá hann hafdi níu vetur um sextugt, og vóru sídar haldnir heilagir hans upptøku og dauda-dagur.

2) Kétill Þorsteinsson, tók Biskups vígslu **1122**, reisti til Alþíngis **70** ára gamall, reid þadan í Skálholt, og deydi vid Laugárnar í Laugarási.

3) Bjørn Gilsson, vígdur af Askéli Erki-biskupi **1147**, deydi **1162**.

4) Brandur Sæmundarson, vígdur af Eisteyni Erki-biskupi í Þrándheimi og kom út híngad **1165**, deydi **1201**.

5) Gudmundur Arason, fæddur **1160**, deydi **1237**, og er hann kalladur heilagur.

6) Bótólfur, Norskur, vígdur **1238**, og kom híngad ári sídar. Hann deydi í Norvegi **1246**.

7) Henrik Carlsson, einnig Norskur, vígdist til Biskups **1247**, er grafinn í Túnsbergi **1260**.

8) Brandur Jónsson, hvers ádur er getid.

9) Jørundur Þorsteinsson, vígdur til Biskups 1267, deydi 1313, þá hann hafdi verid 46 ár Biskup.

10) Audun Raudi, Þorbergsson, var fyrst Kanúkur í Þrándheimi og Féhyrdir Hákonar Kóngs Magnússonar, vígdur til Biskups 1313, byrjadi ad smída Múr-Kyrkju á Hólum, og auk annara Herbergja lét hann byggja Timburstofuna þar; hann deydi í Þrándheimi 1320.

11) Lárentius Kálfsson, fæddur 1267, deydi 1330, eptir þad hann hafdi Biskup verid 6 ár.

12) Egill Eiólfsson, fæddur 1295, kom til Stólsins 1332, var Biskup 10 ár.

13) Ormur Ásláksson, Norskur, vígdur 1343, deydi 1356.

14) Jón Eiríksson, kalladur Skalli, Norskur, var vígdur til Biskups ad Gørdum í Grænlandi, fékk sídan leyfi af Páfanum ad verda Biskup á Hólum og kom út híngad á Péturs Bollanum 1358, og var hér Biskup 33 vetur.

15) Pétur Nicolausson, Danskur, settist ad Stólnum 1392, deydi hérum 1402.

16) Eptir þad Pétur deydi var Biskups-

laust á Hólum*) til þess Jón Tófason var þángad vígdur, og var hann á Stólnum 4 ár, til þess hann deydi 1423, en Biskup sýnist hann verid hafa hér um níu eda tíu ár.

17) Jón Jónsson, kom til Stólsins frá Englandi 1427, vóru Nordlendskir tregir fyrir ad taka móti honum og fór hann hédan af landi 1429.

18) Jón Vilhjálmsson kom til Stólsins 1429, fór hédan af landi 1436, og var Biskup Gottsveinn tilsjónar-madur Hóla Stiftis til 1444.

19) Gottskálk Gottskálksson, Norskur edalmadur, vard Biskup 1442, en kom til Stólsins 1444, var tilsjónar madur Skálholts Stiftis í 8 ár, deydi 1457.

20) Olafur Røgnvaldsson, frændi Gottskálks; fyrst Prestur í Odda, sídan á Breidabólstad, sigldi eptir Biskups vígslu 1458, og kom út 1460, deydi 1495.

21) Gottskálk Nicolausson, kosinn til Biskups 1497, var sídan vígdur af Gauta Erki-biskupi og kom til Stólsins 1499.

---

*) I Stadarbacka kyrkju máldaga, sem finnst í Audunar Biskups máldaga bók er getid Beinirs Biskups, sem sýnist hér verid hafa skamma hrid milli Péturs Biskups og Jóns Tofasonar.

Hann kallast af sumum, hinn Grimmi; þó er ei ad sjá, hann hafi hardrádari edur á-sælnari verid, enn sumir hans Formanna. Hann deydi 1520.

22) Jón Arason fæddur 1484, var kos-inn til Biskups af Nordlendíngum 1522, var vígdur í Norvegi og kom út híngad 1525. Hélt fast med þeim Papisku trúarbrøgdum, og var ásamt sonum sínum Ara Løgmanni og Síra Birni, hálshøggvinn í Skálholti um haustid 1550.

42. Hvad kunnum vér draga oss til hugleid-íngar af þessu?

1) Vér sjáum vissann Guds dóm og straff yfir þeim, sem rángfæra hans ord og ei breyta eptir því; einnig hversu þráttanir og innbyrdis hatur steypa løndum og lýdum í ólukku, sem synir eptirdæmi þeirrar Grisku kyrkju og annara safnada í Austurálfunni, sérdeilis þeirra í Gydíngalandi.

2) Þá menn hafa ei rétta þecking á Gudi og hans vilja, falla þeir til hjátrúar og í þá lesti, sem réttbrúkud skynsemi jafnvel ei sam-þyckir, hvad sjá má af þeirri Rómversku kyrkju.

3) Vantrú og ógudlegt athæfi hefur aldrei feingid svo yfirhønd í heiminum, ad ei hafi

fundist réttskickadir Guds dýrkendur, er ei hafa tilbedid dýrid, né tekid vid þess nafni og audkénníngar merki (Apoc. 13), hvad sjest á Wicklefitum, Hússítum og ødrum sannleikans játendum.

4) Þegar neydin er hærst, er Guds hjálp nærst; þá Guds søfnudir vóru komnir undir hid þýngsta ánaudar ok, fendi Gud þeim frelsi, fyrir sinn trúlynda þénara Lútherum, sem sjest af því eptirfylgir.

## 5. Kapítuli,

### Um hid merkilegasta sem til hefur borid frá því ári 1500 til 1774.

**43. Hvad er einna helst minnisstædt á þessum tímum?**

1) Hversu endurbót trúarbragdanna vidgéckst, og 2) hvílíkt sé og verid hafi um þessar mundir ásigkomulag þeirra helstu safnada, er kénna sig vid Kristí lærdóm.

**44. Hvílíkt var ásigkomulag kristilegrar kyrkju öndverdlega á þeirri 16du øld, ádur enn Lútherus tók sér fyrir endurbót trúarbragdanna?**

Allur fjøldi um heila kristinndóminn ráfadi

í mestu þoku hjátrúar og þekkíngarleysis. Sú sanna Guds dýrkan var álitin framar ad vera innifalin í útvortis hégómlegu og stundum hneixlanlegu látædi og vidhøfn, enn þeirri þjónkan, er ské á í anda og sannleika. Páfans yfirdrottnan var óþolandi. Líferni og lærdómar hans sendisveina stefndu til þess med øllu ad brjóta þad nidur, sem vidheldur gódri lands-stjórn og betrun lærdóms og sidferdis; en þar bóklegar mentir vóru á næst undanførnum øldum komnar á ædri trøppu, enn ádur fyrr meir, og sannleikans ljós hafdi skotid sínum geislum í ýmsar áttir, þó þeir, sem þad tendrad høfdu, væru af Páfans makt undirþryktir; þá vóru margir, er af alvøru gyrntust, ad bót mætti rádast á því, sem andhælis tilgéck í kristindóminum; en slíkt kunni ei ské, nema Páfans veldi og setníngum væri mótþægt, sem af almenníngi var haldid hid sama, sem ad færa sjálfum Drottni stríd á hendur; mektugustu Keisarar og Kóngar høfdu híngad til forgéfins haft allann vilja á ad setja viss takmørk Páfanna yfirgángi, en svo sem þad var Guds verk, ad framleida í øndverdu ljósid af myrkrinu, svo vissi hann einnig á hentugum tíma, ad skjóta sínum geislum (svo sem Davíd til ords tekur) til ad skélfa

sína óvini, og frelsun veita sínu fólki, af hendi þeirra annarlegu barna, hverra lærdómur er ónytsamlegur og verk svíksomleg.

45. Hvert var sérdeilis tilefni það, hvar fyrir Páfans yfir-ráð fengu svo merkilegann hnekkir?

Þegar Leó Páfi 10di þess nafns, hafdi med óhófi og stórgjøfum nálega tæmt sínar fjárhyrdslur, tók hann það til bragds, ad láta prédika aflát vída um kristindóminn, og selja það fyrir penínga. Hann fékk af Albert Erki-biskupi í Megintzu borg ad takast þetta starf á hendur sín vegna um Þýdskaland; en Erki-biskupinn fékk til Jóhann Tezel, bródur af prédikara lifnadi, óskammfeilinn ordsnáp, ad selja Páfans afláts-bréf um Saxland; qvad Tezel það upp fyrir alþýdu, ad menn ei einasta kynnu med þessum hætti, fyrir útlagda peninga, fá qvittun drýgdra og ódrýgdra synda, heldur og kynnu þeir leysa vini og vandamenn úr píslum hreinsunar-eldsins, svo þeirra sálir flýgi einmidt til himins, undir eins og saung í málm-skálinni, í hverja peníngunum var varpad. Þannig rakadi þessi bófi miklu gjaldi saman, en enginn þordi opinberlega ad mæla hér á móti fyrr enn Lútherus, sem þá var Læri-fadir í Gudvísinni vid Háskólann í Wittenberg á Saxlandi. Þessi

madur af Gudlegri vandlætíngu upphvattur, samantók árid 1517, níutígir og fimm greinir, dreignar úr helgri Ritníngu, um fyrirgéfníng syndanna, og forsvaradi þær opinberlega í Háskólanum, hvar med hann rak til baka þvættíng Tezels og hans Kumpána. Þessi fyrirtekt Lúthers vard vonum brádara hljódbær um Þýdskaland og nálæg ríki, svo margir settu sig á móti þessu aflátakrami medal hverra einna fyrstur var Prestur nockur í Zurch, er liggur í því ríki Schweitz, sem hét Ulrik Zvinglíus.

46. Hvad tók Páfinn til bragds, er hann frétti þetta?

Hann fordæmdi Lútherum og hans greinir þann 9da Nóvember 1519, án þess Lútherus kjæmi vörnum fyrir sig; vildi fá Fridrik Kjörfursta í Saxen ad reka Lútherum úr sínu ríki, nema hann apturkalladi sitt skrif; hverju Lútherus þóktist ei med gódri samvitsku hlýdt géta, nema sér yrdi nockur villa, med greinum heilagrar Ritníngar, uppá sönnud; var hann því ári sídar af Páfanum bannfærdur, og þær bækur, er hann hafdi ritad, vóru brenndar í Róm. Þetta bann beit ecki á Lútherum, heldur, svo hann gildi líku líkt, brendi Páfans Lögbók í vidurvist flestra þeirra,

er í Wittenberg løgdu sig eptir bóklegum mentum. Fyrir áeggjan Páfans stefndi Lútheró Carl 5ti Keisari til þess móts, haldid var í Worms 1521, hvar Lúther mætti og med stærstu einørd forsvaradi sinn lærdóm; og þar hann hverki fyrir fagurgala né heitíngar hinna Papisku, vildi falla frá því sem hann hafdi kénnt, dæmdi Keisarinn hann útlægann úr sínum ríkjum; en Fridrik Kjør-Fursti, kalladur hinn Spaki, skaut honum undan, og faldi hann á Warteborgar sloti, hvar hann var hálft annad ár, og fór sídan til Háskólans í Wittenberg.

47. Hvad hafdist Lútherus nú ad?

Hann ritadi margar nytsamlegar bækur bædi í Latínu og Þýdsku, leiddi í ljós Páfadómsins villur og undir eins þann hreina Evangelii lærdóm. Medal annara nytsemdar verka saman tók hann sinn litla Catechismum 1529, og snéri á Þýdverskt mál þeirri heiløgu Ritníngu. Og sem nú upplukust allmargra augu, svo útbreiddist hreinn Guds orda lærdómur vídast um Þýdskaland og nálæg ríki. Fridrik 1ti Dana Kóngur leifdi sínum þegnum 1527, ad fylgja Lútherí lærdómi, en son hans, sá ódaudlegi Kóngur Kristján 3ji innleiddi ad fullu og

ellu þau Evangelisku trúarbrøgd í øll sín ríki. Gústav Eiríksson Svía Kóngur stadfesti þau sømu í sínu veldi 1528, og bádir þessir stóru Kóngar komu þessu mikla verki til vegar, án þess ad úthella þar fyrir blódi þegna sinna.

48. **Nú þar Evangelii lærdómur útbreiddist svo vída, lét þá Páfinn og þeir hans drætti fylgdu, vid svo búid standa?**

Þad fór fjærri. Páfinn ásamt Carl Keisara og bródur hans Ferdínand, einnig Frantz Fracka Kóngur løgdust nú allir á eitt ráð ad undirþryckja Lútherí lærdóm og var samfundur haldinn þar um 1526 í Speyer, (er þá var einn Frístadur þess Þýdska ríkis); en minna vard úr þessum fundi, enn til var ætlad, því sú vard ályktunin, ad menn skyldu bidja Keisarann ad kalla saman, eptir dæmum hinna fyrri Keisara, rétt allsherjar Biskupa þíng, til ad skéra úr trúarbragdanna þrætum, og á medan kynnu menn ei framfylgja því sem ályktad var í Worms. Þess vegna tilsetti Keisarinn annann samfund í Speyir 1529, hvar Ferdínand Kóngur í Keisarans nafni gjørdi þá ályktan, ad eingum leyfdist ad falla frá gømlum átrúnadi. Í móti þessari álíktun stódu og prótesterudu

Jóhann, kalladur hinn Stødugllyndi, Kjør-Fursti í Saxen, bródir og erfíngi Fridriks, og ødrir Furstar og Stadir, er vidtøku høfdu veitt Evangelii lærdómi; hvar af kom, ad þeir sem féllu frá þeirri Rómversku Kyrkju um þessar mundir kølludust almennilega prótestantes, eins og fleiri sídar, er í þeirra fótspor gengu. Af þessu vard Keisarinn mjøg reidur, og skipadi fortakslaust, allir skyldu hlýda því, sem ályktad var í Worms og Speyer, bætandi því ofaná, ad þeir, sem ei vildu kasta þeim nýmælum í trúnni, sem Lútherus fór med, skyldu sæta af sér maklegum refsíngum.

49. Hvad tók Keisarinn sér enn framar fyrir?

Þar nú mjøg róstusamt var ordid í hans vídlendu ríkjum, og hafdi í rádi ad færa Tyrkjum stríd á hendur, hélt hann rádlegast ad sefa þær misklídir upp vóru komnar í ríkjunum, og þar fyrir tilsetti hann eina allsherjar samkomu í Augsborg*). Fyrirlidar þeirra, er fylgdu Lútherí lærdómi, feingu af Keisaranum, ad þeir mættu á þessum fundi opinberlega upplesa sína trúarjátníng, svo þar af sæist, hvar fyrir þeir hefdu skilid sig frá þeirri Rómversku kyrkju, og hvert sannar

*) Augsborg liggur í Þýskalandi, og er fristadur.

væru uppá þá þær villur, er þeir Papisku skulduðu þá fyrir. Þessa sína játníng afhentu þeir, og var hún opinberlega upplesin 25ta Júní 1530, hverrar inntak Lúther í fyrstu samantók, en sá hálærði maður Philippus Melanchton færði í liðugann og skiljanlegann stíl. Þessi játníng er aðgreind í 28 Kap. af hverjum 21 innihalda þeira lærdóm, er víku frá Páfadómsins villu, en hinir 7 Kap. géta þeirra rángra lærdóma, sem helst viðgengust í þeirri Papisku kyrkju. Þessi Trúarjátníng er ein Høfuð-bók í þeim Evangelisku Søfnuðum, sem sýnir greinilega grundvøll og høfuðgreinir þeirrar trúar er þeir viðurkénna; og er þess vegna réttilega køllud Liber Symbolicus hinna Lútheranisku. Þeir Papisku vildu þessa játníng með einu skrifi til baka reka, en Philippus svaraði þeim skøruglega, þar uppá og ónýtti þeirra ástæður. Loksins skéði sú uppsøgn Keisarans þann 19da Nóvember, að hvað álíktað var til Worms skyldi órjúfanlega haldast; menn skyldu ei falla frá þeim forna átrúnaði, ei taka fyrir sig nockra umbreytíng í lærdómi né kyrkjusiðum, og þeir sem høfðu brotist undan Páfans valdi skyldu innan fárra mánaða gánga til hlýðnis. Þó lof-

adi Keisarinn því ad hann vildi sjá til, ad eitt rétt Biskupa þíng yrdi tilsett, hvar fullur dómur skyldi gánga í þeim misklídum upp vóru komnar.

50. Stødvadist ecki þessi ófridur loksins?

Hann stødvadist ad vísu um stundar sakir; því þar ed Keisarinn þurfti ad nidursetja þær óspektir, sem upp vóru komnar í hans ríkjum, og þar þeir Lútheranisku Furstar høfdu gjørt samband sín á millum í Smalkald *) til ad verja líf sitt og sinna ef á þá væri leitad, þá hlaut hann, eptir margar rádslaganir, gefa fullkomid leyfi þeim Lútheranisku í Þýskalandi, ad halda vid sinn lærdóm, þar til almennt Biskupa-þíng yrdi haldid. Þessi ályktan skédi í Nurnberg **1532.** Um þetta bil deydi Jóhann Kjørfursti í Saxen, hverjum í ríkisstjórninni fylgdi sonur hans Jóhann Fridrik, uppalinn í þeirri Evangelisku trú, hinn øruggasti í øllum mannraunum, en ei jafnt sigursæll. Keisarinn, svo hann héldi sín heit, herdti ad Páfanum ad hann skyldi til setja eitt allsherjar Biskupa-þíng, hver ed eptir mørg undanbrøgd og vífilengur setti þad fyrst í Mantua, sem

*) Smalkald er vænn stadur, sem tilheyrir land-greifanum af Hessen-Cassel.

er einn stór stadur í Italíen, hvad þeir Evangelísku Furstar, vissra orsaka vegna, kunnu ei samþyckja, en létu til vara uppsetja af Lúthers 1536, þær svo kølludu Smalcaldisku greinir, sem eru útskíríng yfir nockra parta Trúar-Játníngarinnar, sem fyrr var upplesin í Augs-borg, og hverjar þeir ætludu sér fram ad leggja á løglegri samkomu, ef úr henni yrdi. Páfinn setti á ný eitt Biskupa-þíng 1542, í stadnum Trident, er liggur gagnvart Italía, í Greifadæminu Tyrolis, en þar þad skédi einasta ad yfirvarpi í fyrstu (því hann vissi hvada myndugleika slík Biskupa-þíng høfdu fyrrum tileinkad sér), þá hlaut hann ad setja þad á ný í sama stad 1545. Eptir þad Keisarinn var nockurn veginn ordinn óttalaus um sín efni hér í Nordurálfunni, og hafdi látist vilja á einni og annari samkomu koma sáttum á millum Pápiskra og Evangeliskra, en ætíd med þeim skilmálum, sem þessum vóru óþolandi, þá sagdi hann þeim (Evangelisku) stríd ád hendur. Sá mikli Guds madur Lúther deydi um sømu mundir, nefnilega: 18da Febr. 1546, (í Eisleben, er liggur í Greifadæminu Mansfeld í Thyríngen, hvar hann var fæddur), á 63 aldurs ári.

### 51. Hversu geck til í þessu stríði og hver urðu þess endalok?

Eydilegging þeirrar evangelisku kyrkju var ályktud milli Páfans og Keisarans; fann þessi það til, að fáir af þeim Lútheranisku mættu á því þingi, er hann hafði sett í Ratisbon 1546; og setti því í Ríkisins bann Kjørfurstann Jóhann Fridrik í Saxen og Philippum Land-greifa í Hessen, sem hellstu hjálpar menn vóru þeirra Lútheranisku safnaða í Þýðskalandi. Hér af hófst það svo kallaða Smalkaldiska stríð, millum Keisarans og þeirra Lútheranisku fursta. Høfðu ýmsir sigur í fyrstu; en loksins yfirféll Keisarans her óvørum nefndann Kjørfursta í Saxen, tók hann til fánga og svipti hann ríki og frelsi. Mauritz hét einn hinn øruggasti þeirra sveitar-høfdíngja, er fylgdu Keisarans merkjum, hver ed féck hjá honum fyrir sína dyggva fylgd umdæmi Fødur-bródur síns, þess herteckna Kjørfursta, og féck mág sinn Philippum Land-greifa til þess, að fara viljugann á Keisarans fund og afbidja hans reidi; en Carl Keisari, nýtandi sér þetta tækifæri, tók hann einnig til fánga, og þóktust nú Páfiskir hafa føgrum sigri að hrósa, því nú sýndist med øllu útgjørt um frelsi og frekari framngáng

þeirra Lútheranisku; en Guds var ad gefa réttu máli sigur. Keisarans undirhyggja í tédu efni gramdist Mauritz svo mjøg, ad hann gjørdi samband vid Fracka Kóng, safnadi snarlega lidi, yfirféll Keisarann og kom honum í þær beiglur, ad hann ei einasta lét lausa Jóhann Fridrik og Philippum, heldur lofadi í stadnum Passau 1552, fridi og gridum þeim Lútheranisku, hver þeim skyldi sídar á almennilegri samkomu stadfestast; en ádur þessi fundur var haldinn, féll Mauritz í orustu, er hann átti vid Albert Kjørfursta í Brandenborg. Keisarinn mátti binda enda á þad hann hafdi lofad, og á samkomu í Augsborg 1555, þann 25ta Sept., ad nálægum bródur sínum Ferdinand Kóngi og ødrum Stór-herrum, gjørdi hann þá ályktan, ad þeir sem Lúthers lærdómi fylgdu, mættu hér eptir, ad ósekju, halda vid sín trúarbrøgd; þad skyldi undir hvers eins sjálfsum kjørum komid í Þýskalandi ad fylgja Páfans lærdómi, eda Augsborgar Trúar-Játning, og skyldu þeir allir álítast opinberir landráda menn, er ødrum sýndu meingjørdir vegna trúarbragdanna. Þá þessu var lokid deydi skømmu sídar, nefnilega: 1556, Kjørfurstinn Jóhann Frid-

rik, og á sama ári gaf Carl frá sér Ríkis-stjórnina; Keisaradæmid fèck hann í hend-ur bródur sínum Ferdinand Kóngi, en Spani-en og ønnur sín erfda ríki syni sínum Phil-ippó; sjálfur gaf hann sig í Klaustur hins helga Justi í Spaníen og deydi tveim ár-um sídar, og þad, hvad merkilegast er, í þeirri sønnu Evangelisku trú *), hverrar játendum hann svo þúngur fyrri hafdi ver-id. Eptir ad fridurinn var nú þanninn sam-inn í millum þeirra Pápisku og hinna er Páfans ok høfdu af sér brotid, og þar Guds kyrkju er nú ei framar ad álíta undir ein-um jardneskum stjórnara, heldur í vissa søfnudi svo adgreinda, ad sá eini er í mørg-um greinum hinum ødrum ólíkur, þá sýn-ist skiljanlegast, ad rita fátt um hvern fyr-ir sig, af þeim stærstu søfnudum.

## 1) Um þá Rómversku edur Pápisku kyrkju.

**52. Hélt sú Pápiska kyrkja vid sína fyrri lærdóma, þegar svo margir søfnudir féllu frá henni?**

Ecki einasta hélt Páfinn og þeir hans drætti

*) S. Beschreibung der Exeqvien Caroli 5 sem bródir hans Ferdinand lét þrycka í Augsb. 1559.

fylgdu, vid fornann átrúnad, hvers hér og þar er ad undanförnu nockud gétid, heldur vóru á því Tridentiska-þíngi, endurnýadar og stadfestar margar þær villur og hindurvitni, sem sumir af betur skynjandi Pápistum sídar meir hafa vidkannast; þó eru ályktanir þessa svo kallada Biskupa-þíngs í ædsta gyldi hjá Pápistum, svo hver sem géfur sig frá ødrum søfnudum til þeirrar Rómversku kyrkju, má med eydi þær undirskrifa edur vidurkénna.

53. Nú þar þetta Biskupa-þíng er í stóru áliti, og ádur hefur verid á þad minnst, þá seig mér í fám ordum, hversu þad framfór?

Þegar Carl Keisari og fleiri Furstar høfdu forgéfins reynt til ad koma eiríngu á millum þeirra Pápisku og Lútheranisku, æsktu þess flestir, ad eitt allsherjar Biskupa-þíng væri haldid, sem frá aldødli hafdi venja til verid, á hverju útkljást kynnu þær misklídir upp vóru komnar í lærdóminum; en Páfinn og hans klerka sveit í Róm stódu einasta, þó í fyrstu heimuglega, hér á móti, og var hin helzta orsøk þar til sú, ad ef endurbót trúarbragdanna ské skyldi, hlutu andlegrar stéttar menn fyrrast sínum fyrri makindum, býlífi og inntektum, en Páfinn sjálfur mundi, þegar hans setníngar fengu hnekkir, sem lá

ljóst fyrir, ef sannleikurinn skyldi ei undir fótum trodast, mjøg svo tapa ágjæti sínu og yfirdrottnan; þó hlaut loksins Páll 3ji Páfi samankalla þetta þing 1545, því hann mátti óttast fyrir, ad sjálfur Keisarinn og adrir Furstar, honum óadspurdum, mundu á almennilegri samkomu sjálfir gjøra einhverja ályktan, kyrkju søkum vidvíkjandi, ef hann brúkadi fleiri vífilengjur. Í stadnum Trídent var þetta þing fyrst haldid, sídan var þad 1547 flutt til Bologna í Italíen, þar eptir á ný til Trídent 1551, en þegar Kjør-Furstinn Mauritz feck sigur yfir Carl Keysara, sem um þessar mundir var í Inspruch, einum stad sem ei liggur lángt frá Trídent, var þínginu uppsagt 1552 af Júlíó 3ja Páfa; En Píus 4di setti þad aptur í Trident 1562, og eptir 25 Dómsetur (Sessiones) endadist þad 1564. Um þessar mundir høfdu Páfarnir, hver eptir annann, nóg ad hugsa, enda brúkudu þeir allrahanda vélar til þess, ad eckért yrdi samid af þeim á þínginu saman komnu fedrum, er stríddi mót Páfans áliti og yfir-rádum. „Dag og nótt (skrifar sá Ungariski Biskup Dudith, er til stadar var á Þínginu) var sendt til Páfans ad leita hans adqvæda; daglega komu til mótsins soltnir

og vesælir Klerkar frá Italíen, þángad sendir af Páfanum med Biskupslegu nafni, er ei skyldu annad uppqveda, enn Páfinn lagdi þeim í munn; þessir vóru ólærdir, en án blygdunar, og þá þeir gengu í lid med þeim, sem drógu taum þess Rómverska Biskups, þá hafdi rángl ætid sigri ad hrósa; ef einn edur annar hafdi þá einørd ad láta á sér heyra, slík frekja væri ei med øllu sæmandi, strax var hann, sem vantrúadur, heitíngum og illyrdum þángad til áreittur, ad hann hlaút játa því med munninum, er hann í sinni samvitsku hafdi vidbjód á." Af þessum vitnisburdi eins Pápisks Biskups má nærri géta hversu lítid gagn sá hreini trúarinnar og sidanna lærdómur hefur haft af þessum fundi; þar á mót var Páfans einvalds-dæmi stadfest, og þeirra andlegu Drottna-vald og álit styrktist enn framar.

54. Hafa þá Páfarnir ecki med enn fleyru móti viljad styrkja og útbreida makt sína og veldi?

Ad vísu; því þar þeir álitu sitt ríki ad vera Kristí ríki, og þá kyrkju, sem medtekur þeirra lærdóm, Kristí og sína brúdi, þá er ei ad undra, þó þeir leggi allt kapp á, svo sem Péturs eptirkomarar, ad veida sem flesta í sínu neti, og til framqvæmdar þessa síns áforms, brúkudu þeir

og hafa brúkad ýmsar veidibrellur, sem er 1) ad tilsetja nýar stéttir reglubundinna manna, edur og endurnýa þær eldri. 2) Ad senda um allar heimsins áttir þá, er annadhvert útbreidi þann Papiska lærdóm medal Heidíngjanna eda med fortølum, fagurgala og peníngum locki þá til Papiskrar trúar, sem ødrum trúarbrøgdum hafa ádur fylgt, og þegar þad hefur ecki dugad, þá 3) med undirferli og óteljandi brøgdum ad ýta á stad þeim Papisku Furstum, Keisurum og Kon-úngum, til ad undirþryckja og ofsækja jafnvel sína egin þegna, er ei géta trúad øllu því, Páfinn uppqvedur, hvar til nóg dæmi finnast í Fránkaríki, Pólen og þess Þýdska Keisara erfdaløndum. 4) ad láta bækur á prent út-gánga, er annadhvert skuli reka til baka þá lærdóma, sem ei eru vidteknir í þeirri Rómversku kyrkju, edur gjøri svo lítid úr ágreiníngi lærdómsins, sem er milli þeirrar Rómversku kyrkju og hinna, sem ei hafa enn lagt sig í hennar skaut, ad þeir þess heldur fái til sín lockad þá, sem eru af ødrum trúarbrøgdum. 5) Hér ad auk hafa Páfarnir tilsett í ýmsum løndum einn ransóknar rétt, hver ed uppgøtva skal þá, er víkja frá þeim Papisku trúarbrøgdum, og dæma þá, er í

slíku sekir finndust, annadhvert ad brennast edur sæta ødrum þíngum refsíngum. Til ad stadfesta og í sumu ad endurbæta þennann rétt, tilsetti Sixtus 5ti, einn sérdeilis samfund, er kallast þad heilaga Officium, samanstandandi af 12 Kardínalum og fjølda annara Geistlegra, sem skulu tvisvar í viku koma saman til rádagjørdar í Minervæ Musteri í Róm, þessari ransókn til frekara fullthýngis.

**55. Hverjar eru þessar helstu stéttir eda ordur reglubundinna manna, sem styrkja svo Páfanna myndugleika?**

Ad upptelja allar þær stéttir reglubundinna manna edur brædraløg (*Monachorum Ordines et Fraternitates*) sem finnast í þeirri Papisku kyrkju, er hér ei rúm upp ad telja, kjæmi og til lítils; en gét einasta þess brædralags, stiftad var af nockrum Sponskum edalmanni er hét Ignatius Lojola, sem í orustu 1521, fékk slík meidsl, ad hann treystist ei framar ad fylgja Kóngsins né Veneris merkjum og þess vegna gaf sig í þá andlegu stétt. Hann var færdur í helgra manna tølu af Urbanó 8da Páfa hérum 1623. Þetta brædralag er hverki, eiginlega ad segja, einúngis veraldleg, né andleg né Klaustra stétt, heldur nockurskonar stiftan og samband, hvers

tilgángur er ad stadfesta Páfans makt. Peir sem inngánga þessa stétt kallast Jesúitar, edur, eptir þeirra stíl, Fedur Jesú samqvæmis (*Patres Societatis Iesu*). Pessir fedur hafa mátt kallast hin öruggasta stytta þess Rómverska Stóls, hafa og eckért látid tilvanta á sína sídu ad útbreida Papiskann lærdóm, og eptir því sem tímanna ásigkomulag hefur útheimt, hafa þeir reglunum akad í lifnadi og lærdómi. Peir hafa undir sig dreigid ógrynni fjár í föstu og lausu, hafa innsmeigt sér í ædstu embætti í þeim Papisku ríkjum, hafa uppfyllt hærri og lægri Skóla med sínum lærdómum, og sett sig í þad álit, ad adrar stéttir (þegar eg frá tek Prédikara-Múnkana) og jafnvel sjálfir Páfarnir hafa mátt lækka seglin fyrir þeim, eda, ad minnsta kosti, ei þorad ad gjöra á þeirra hluta. Til ad vidhjálpa Jesúítanna vidburdum í því ad útbreida í allar áttir þá Papisku trú tilsetti Gregorius 15di, árid 1622, eitt samqvæmi (er kallast *Congregatio de Propaganda Fide*) leggjandi þar til ærnar inntektir, hvexjar ad nýu jók Urbanus 8di, árid 1627, og margir adrir ríkis menn, svo ætíd væru þeir til, er sendast kynnu til Heidíngjanna, er þeim snéru, og gáfu sig til framqvæmdar þess

verks, auk Jesúítanna, Dominicani, Francifcani og Capucini*), hverjir flockar vóru þó optast sundurlyndir. Nú þar sjálfir Papiskir meiga vidurkénna, ad Jesúítarnir hafi verid undirrót og frumqvødlar flestrar ólucku og ofsókna, upp hafa komid, jafnvel medal sjálfra þeirra, er Páfans setníngum ei hafa verid mótsnúnir, svo fyrir þessara fedra tilstilli hafa jafnvel sjálfir Kóngarnir í Fránkaríki verid myrdtir, eda og þar og annarstadar nær því rádnir af døgum, hvar til dæmin eru ljós á þeirra døgum, er nú lifa; þá hlaut Páfinn Clemens 14di, naudugur viljugur árid 1773, aftaka þessa stétt; en svo brá vid ad sami Páfi á næsta ári eptir, deydi af eitri, sem mørgum vyrdtist; svo nú sýnist uppfylltur spádómur Georgii Bronvells sem var Erki-biskup í Dyflini á Irlandi 1558, er segir: ad loksins muni Gud útríma þessum fedrum fyrir þeirra tilstyrk, sem þeir hafa mest fulltýngi veitt, og ad einn Judi muni betur lidinn enn nockur Jesúíti.

*) Svo kallast ein múnka stétt af þeim húfum eda høfudbúnadi þeir høfdu, fylgdu þeir i fyrstu reglum hins heilaga Francisci, en útvøldu sér adrar strángari. Þeirra foringi og stiftari var Matthias de Bassio, er stiptadi þessa hettu stétt 1528.

56 Hver eru þau helstu ríki, hvar Páfarnir hafa viljad innfæra og útbreida sinn lærdóm?

1) Keisara-dæmid China, hvert Jesúítarnir vóru sendir 1587, hverjir ad vísu hafa snúid mørgum ad ordi qvednu til kristilegrar trúar, en þad verk þeirra hefur gengid mjøg stopult, bædi þess vegna, ad Chinesiskir sáu, ad Jesúítarnir leitudu ei svo ad þeim, sem þeirra audæfum, og ad Dominicani vóru Jesúítunum mjøg mótfallnir, er løstudu þá aðferd, þessir brúkudu til ad kristna þá Chinesisku.

2) Morland (*Æthiopia* edur *Abyssinia*). Öndverdlega á þeirri 17du øld kom þángad Jesúítinn Petur Pays, og forsómadi ecki ad koma þeim Morlendsku til þeirrar Papisku trúar, hvad honum og hans fylgjurum féll því audveldara, sem þeir Morlendsku, vegna lærdómsleysis, gátu honum situr mótstødu veitt; því vegna innbyrdis ósamþyckis, og sífeldra bardaga, er stadid høfdu um hríd, sýndust nær allar bóklegar mentir þadan í útlegd reknar. Kóngurinn Susneus vildi forstakslaust mótteku veita þeim Rómversku trúarbrøgdum, aftók því þvottdags helgina og fornar sidvenjur, þó ei án stórrar blóds úthellingar, er hann lét gánga yfir þegna sína,

sem honum mótstødu, veittu, og skipadi árid 1626, ad þau Papisku trúarbrøgd skyldu yfir allt í sínu ríki innleidast. Alphonsus Medez, Spanskur Jesúíti, var gjørdur ad Patriarcha sudur þar. En þetta varadi skamma stund. Kóngsins sinni snérist vonum fljótara, svo hann leifdi sínum þegnum, ad lidnum tveim árum, ad taka upp fornann átrúnad, og á áttunda ári ríkisstjórnar sonar hans Basilidis vóru Jesúítarnir burtreknir, sumir í hendur fengnir Tyrkjum 1634, og þeir, sér undan høfdu skotid og sídar fundust í Ríkinu, vóru hengdir.

3) Kóngs-ríkid Japan; þángad reisti sá nafnkéndi Jesúíti Frantz Xaveríus, sem almennilega kallast Indía Postuli; hann ásamt sínum kumpánum snéri miklum fjølda fólks til þeirrar Rómversku trúar; en þeir kristnu máttu lída í heil 20 ár þær grimmustu ofsóknir og loksins afmást hér um 1640, nema hvad fáeinir kunna finnast medal Heidíngjanna, sem heimuglega vidurkénna kristinn lærdóm.

4) Ríkid Siam. Þess innbyggendur vóru heidíngjar; Hlødver Fracka Kóngur, 14di þess nafns, vildi fá leifi hjá þeirra Kóngi, ad kristin trúarbrøgd mættu þar innfærast; og

þó sá heidni Kóngur tæki feinlega þessari eptirleitun, snérust sámt margir af þeim Siamisku; en 1688, fengu fullkominn hnecki fyrirtektir hinna Frønsku, vegna þeirrar umbreytíngar, sem skédi í ríkinu, þegar einn af landsins stór-herrum, er hét Pitrarcha, braust til ríkisins.

5) Vest-Indien, edur Ameríka. Strax eptir þad Spanskir høfdu inntekid þau bestu lønd þar, vóru þeir Indíanisku kúgadir med óheyrilegri grimd, til þess ad veita móttøku þeim Papisku trúarbrøgdum. Jesúítarnir hafa komid því til vegar ad þar eru nú 5 Erki-biskups dæmi og 30 Biskups stólar, enda hafa Jesúítarnir ei unnid hér fyrir gýg, því í þessum parti heimsins hafa þeir samanrakad ógrinni fjár. Auk þessa hafa þeir Papisku sí og æ reynt til ad koma undir þann Rómverska stól þeirri Grisku kyrkju, hvad þeim hefur ad nockru leiti tekist, í tilliti til vissra safnada.

57. En hafa þeir Papisku ei unnid svig á þeim svo kølludu Evangelisku søfnudum?

Víst hafa nockrir annadhvert af einfeldni og lauslyndi, edur fyrir veraldlegs ávinníngs og metorda sakir fallid í sid med Papiskum, medal hverra merkilegastir eru: Kristjan

Vilhjálmur, Markgreifi í Brandenborg og Ernst Landgreifi í Hessen=Cassel, Kristín Svíaríkis Drottníng, sem þess vegna rímdi sitt Erfda=ríki **1654**, Fridrik Augúst Kjørfursti í Saxen sem þess vegna vard Kóngur í Pólen **1697**, og hans sonur Fridrik Augúst **1717**. Þó hefur fráfall þessara og annara ei gjørt svo stórann skada þeirri Evangelisku kyrkju, yfir hverrar vidhaldi Guds vernd og varatekt svo dásamlega vakir.

**58. Nú þar Páfarnir slá svo grant eptir, ad í þeirri Rómversku kyrkju sé einmidt fylgt vidteknum lærdómum; eru þá engar misklídir komnar upp í þeim Papisku søfnudum, og medal þeirra sjálfra, sem eru limir þeirrar Rómversku kyrkju, trúarbrøgdunum vidvíkjandi?**

Jú, því þó Páfarnir rói þar ad øllum árum, ad eckért sé talad né skrifad í þeim Papisku søfnudum, sem víki frá lærdómum þeirrar Rómversku kyrkju, þá hafa samt uppkomid, og ad nockru leiti vidhaldast, margskonar þrætur þeirra á medal, sem vald-id hafa innbyrdis flockadráttum og offóknum. Hafa þeir ad sønnu borid lægra hlut úr bítum, er ei hafa haft þrek til ad hrinda af sér ójøfnudi þeirra, er hærri hafa haft vøldin; en ágreiníngа neistinn, þó hann um stund sé

falinn, hefur opt ordid ad miklu báli, þá ad hefur verid blásid, og er óvíst hvenær út-kulnar. Þær helstu þrætur í þeirri Róm-versku kyrkju hafa verid 1) milli Jesúítanna og Prédikara-Múnkanna *de auxiliis gratiæ*, edur, um fulltíngi Guds nádar, hversu hún verkar hjá mønnum trúna og endurgétníng-una, og hvert madur, af náttúrunni til, hafi frívilja í andlegum efnum, vóru hér um haldn-ar 78. samkomur af Cardinalum og ødrum andlegrar stéttar mønnum í tíd Clemens 8da Páfa frá 1601 til 1603, án þess menn viti hver ályktan skéd hafi, því sama þræta héldst vid í hans eptirkomara tíd Páls 5ta; en valla hafdi þessari deilu slotad, þegar hún vard enn ad nýu strídari, sem orsakadist af einni bók, er kallast Augustinus, og var skrifud af Cornelió Jánsson Biskupi til Ypern í Flandern, sem framfærdi meiníng hins hei-laga Augústíni (og því lét hann sína bók heita eptir nefndum lærifødur*) um Guds

*) Þeir sem fylgja Jansons lærdómi og sig kalla Au-gustinianos, eru ad vísu færri og í minna afhaldi á þeim Rómverska Hofgardi enn þeirra mótstandarar, eru þó þeim ei sidri ad lærdóm og sidgjædum, jafn-vel þó þeir séu ofmjøg hneigdir til hjátrúar. Þá þeir hafa verid undirþryktir og ofsóktir í Fránkaríki, hafa þeir øruggt hæli í Hollandi. Mesti partur

náðar verkan í umvendan eins syndara; en þar Jesúítarnir sáu sína lærdóma í téðu efni til baka rekna, og nauðuðu svo leingi við Páfann Urbanum 8da, að hann áuglýktaði 1642, að nefndur Jansons bæklíngur innihéldi ránga lærdóma, og ætti því ei að lesast; þá skrifuðu á móti þessu Páfans atqvæði margir, einkum í Hollandi og Fránkaríki, og þar Jesúítarnir höfðu Páfann á sína síðu, þá hlaut réttúrinn víkja fyrir maktinni.

2) Þar Páfunum hefur verið annt um að varna þess leikmönnum, þeir fái að lesa heilaga Ritníng, þá hafa skjaldsjenar verið hennar útleggíngar á nú brúkanleg túngumál í þeim Papisku ríkjum*), til þess Arnald, Rich-

papiskra, sem finnst í svo kölluðum spönsku Niðurlöndum og allir þeir sem finnast í þeim sameinuðu Niðurlöndum, eður Hollandi, fylgja Jansenista lærdómi.

*) Þeir papisku söfnuðir í Þýðskalandi og Fránkaríki vóru þó öðrum papiskum í þessu luckulegri. Ant. Arnold útgaf sitt nýja Testament í Mons, en það var fordæmt af Clemens 9da árið 1668. Arnold var Prófessor við háskólann í Paris (Sorbonne) og hlaut víkja þaðann til þeirra spönsku Niðurlanda, hvar hann útbreiddi Jansenistanna lærdóm. Simons nýa testamenti var þryckt í Trevoux 1702. Hann var *Presbyter Congregationis Oratorii.* Paschasius Qvesnel útgaf sitt nýa testamenti 1685;

ard Simon og Qvesnell létu á prent útgánga sínar útleggíngar og útskíríngar yfir það Nýa Testament; og þar þessir hálærdu menn viku í útleggíngunni sumstadar frá þeirri Latinsku Utleggíng, sem kallast Versio Vulgata, og af Páfanum dæmd er eins góð, ef ei betri, enn sjálfur Texti Bibliúnnar, í þeim Túngumálum, sem hún er af Gudi innblásin; þá máttu þeir sæta offóknum, og þeirra verk, sem í mørgu er ágjætt, Páfans forbodi.

3) Pared Guds dýrkun í þeirri Rómversku kyrkju er hvad helst innifalin í ýmislegri útvortis vidhøfn og hjátrúarfullu látædi, þá kom sér ei vel þeirra lærdómur, er álíta sem hid vigtugasta í kristins manns framferdi, ad hann í kyrrd og spekt dragi sína þánka aldeilis frá jardneskum hlutum og skilníngarvitanna medverkan, en sameini sál sína Gudi, frá hverjum hún er komin, med því ad undirþryckja skilníngsins og viljans hræríngar. Nú þó Páfinn og Jesúítarnir fordæmdu þennann lærdóm, þar honum einnig er mjøg varlega fylgjandi, og sýnist leida til ýmsra afvega í réttri Gud dýrkan, jafnvel þó yfir høfud betri sýnist enn Jesúítanna sida lær-

mátti rýma Fránkaríki, settist ad í þeim spønsku Niburlendum, og deydi 1719.

dómur, þá hefur hann samt haft mikinn framgáng í Fránkaríki, í sjálfri Italíen, og víðar annarsstaðar. Þessum lærdómi framfylgði sá nafnfrægi Michael Molinos einna fyrstur*), og kallast þeir Qvietistar og Mystici, er honum fylgja. Hin 4) þræta rís af vissum greinum þess siðalærdóms Jesúítarnir hafa útbreidt, meðal hvøra einna skaðlegust er sú *de Probabilismo*, sem lítur til þess, að menn meigi aðhafast eitthvað mót réttri samvitsku, þegar þeir géti fært sér til málbóta einhverjar líkur, þó á veikum fótum standi. Mót þessum háskasamlega lærdómi hafa øruggt reist sig Jansenistarnir, einkum þeir hálærðu menn í Port Royal, nærri París, Arnauld, Paschal og og Nicole, svo Páfi Innocentius 11ti, neyddist til 1679, að forðæma 65 greinir, sem útdreignar eru af Jesúítanna siða-lær-

*) Hann var fæddur í Arragonien 1640. Í fyrstu var hann bæði í Spanien og í Róm í miklu afhaldi vegna síns lærdóms og óstraffanlegs framferðis, en Jesúítarnir hættu ei fyrr, enn hann var færður fyrir ransóknar réttinn, hvaðan hann var færður í fángelsi, í hverju hann var 10. Ár og deyði 1697, af eitri, að menn halda. Margir ypparlegir menn forsvøruðu hans lærdóm, meðal hverra var Biskup Fenelon, Cardinalinn Petrucci og mad. Gvion, er deyði 1707.

dómi, sem þeir hafa ei apturkallad, heldur med ýmsu móti viljad klóra yfir. Hinn 5) ágreiníngur hefur verid milli Jesúítanna og Prédikara múnkanna útaf því, hvert hin heilaga Jómfrú María hafi gétin verid í uppruna synd, eda ei. Þar nú tvær svo mektugar stéttir í þeirri Rómversku kyrkju vóru í þessu og fleiru sundurþickar, og Páfarnir vildu ei óvingast vid þær, þá létust sumir af þeim ei hafa fengid þar um gudlega undirvíssan, uns Clemens 11ti stadfesti Jesúítanna og Francisci Múnka lærdóm, ad María væri fædd án uppruna syndar, og í þess minníng samþyckti hann árid 1708, ad halrast skyldi ein hátíd*). Karl Albert, Kjör-fursti í Bayern, stiftadi eina Riddara stétt 1729, er forsvara skyldi þennann lærdóm. Hinn 6) ágreiníngur rís af Páfans myndugleika, og hvert hann géti vikid í sínum álytunum frá

*) Í þessari þrætu millum prédikara múnkanna (Dóminicanos) og snýkju múnkanna (Franciscanos) sýnist ádur hafa gésid til kynna sína meiníng, Páfinn Marteinn 5ti 1476, eda þar um bil, þá hann stadfesti Maríu Gétnadar hátíd, hvad þeir sídari Páfar, sem qvaddir vóru til ad skéra úr þessari þrætu, hefdu gétad fyrir sig borid; en þeir neiddust til ad sigla milli skérs og báru. Dominicani hálda engu ad sídur vid sína meiníngu, og þad ad ósekju.

réttri trú. Jesúítarnir og fleiri er ei viljad né þorad hafa ad styggja Páfann eda þad Rómversska hof, segja hann sé upphafinn yfir allar stéttir, og fylgja einmidt úrskurdi Hildibrands Páfa í þessari grein, einnig ad Páfinn kunni aldrei feila, allra síst í trúarinnar lærdómum. Þeir Papisku Kóngar og Furstar hafa svo klippt vængina á Páfans allsherjar stjórn, ad hann flígur ei svo hátt nú um stundir sem ádur, og margir lærdir Papistar sýna og hafa sýnt, einkum svo kalladir Jansenistar og Appellantar*), ad Páfarnir opt víki frá sannleikanum, og fá eini mótsegi þeim ødrum, einnig ad þeir séu undirgéfnir allsherjar Biskupa-þíngum, sem hafa rétt til, jafnvel ad setja þá frá embættinu. Í þeirri Rómversku kyrkju hafa enn fleiri þrættanir í lærdóminum vidgengist og villur uppkomid, svo sem J. C. Vanini, Jósephs

*) Þegar Páfinn Clemens 11ti út gaf þá nafnkunnugu Statútu, sem byrjast: *Unigenitus Dei Filius*, hvar med hann fordæmir Qvesnells Nýja Testament og þess útskíring, og undir eins suma þá lærdóma, sem útþryckilega finnast í heilagri Ritníngu, vóru margir, sem settu sig hér á móti, og skutu sínu máli til eins allsherjar móts, og því kallast þeir Appellantar.

Frantz Burrhi*), sem ad sønnu var nafnfrægur Chymicus, en í trúarbrøgdunum heldur af-sinna enn villu-ráfandi, og annara fleiri.

53. Seig mér í færstu ordum, hvad sú Rómverska kyrkja sé, hvílíkt hennar ásigkomulag sé, og þeirra Rómversku Pása, einkum í tilliti til nærverandi tíma?

Sú Rómverska kyrkja er samfélag margra safnada vídsvegar um heiminn, (hvar fyrir hún almennilega kallast Romano-Catholica), sem þann Rómverska Biskup álíta sem hinn ædsta Dómara hér á Jørdu, í øllum þeim hlutum er vidkoma stjórn kristinndómsins. Páfinn kallar sig einn allsherjar Biskup, sem í Kristí stad hafi vald til ad stjórna og setja løg Guds Søfnudum**).

*) Burrhi eda Borrhi var edalmadur frá Mailandi; hann flackadi hingad og þángad um nordur álfuna, til þess Keisarinn sendi hann Páfanum: var hann sídan dæmdur til æfinlegs fángelsis 1672, og deydi 1695 háaldradur, í fángelsi.

**) Í þeim papisku løndum sjálfum ver Páfans mindugleiki þeim papisku furstum ei svo mjøg i augum, sem ádur fyrri, jafnvel þó þeir ad ordi qvednu audsýni hønum mjøg stóra vyrding einkum þá þeir ávinna sér eda sínu ríki ein hvern hagnad þar med; en sýni Páfinn sig baldinn edur ójafnadarfullann, forsvara þeir sinn rett med styrk þegna sinna, hvar til dæmi eru nóg jafnvel á þessari øld, þá fundur-

Hann er nú á døgum útvalinn af þeim yppurstu safnadanna fedrum, sem, eptir fornum sid, kallast Cardinalar, og eiga vera 70 talsins; skédur þetta val af þeim í nockurskonar Fángelsi, er kallast Conclave. Þó hafa hønd í þessu vali sá Þýdski Keisari og adrir Papiskir Kóngar svoleidis, ad líki þeim ecki sú kosna persóna, hljóta Cardinalarnir ad útvelja adra í hinnar stad. Einginn kémst til þeirrar Páfalegu tignar, nema hann ádur hafi verid Cardinall, Italiskur ad kyni og ei yngri enn 55 ára gamall. Páfinn er nú um stundir ei svo sjálfrádur sem ádur fyrri, því hvad trúarinnar og kyrkju-stjórnarinnar søkum vidvíkur og helst áríđur, þá byrjar honum ad taka í rád med sér Cardinalana, og fylgir hann því optast, er flestra jáqvædi stydur. Fyrir þeim minni háttar kyrkju erindum eru settar vissra lærdra manna sveitir, sem kallast Congregationes, frá hverra úrskurdi Páfinn ei víkur, nema í stærstu naudsyn. Hér af kémur þad, ad margt er ályktad á þeim Papiska Hofgardi, sem Páfinn hlýtur stundum

---

þicki hefur uppkomid milli Páfans á þá einu sídu, og Keisaranna Jósephs 1ta og Carls 6. It. Kónganna af Frankariki, Spanien, Sicilien, Sardinien, og Portúgal etc: á þá adra.

samsinna edur eptirgéfa, þó honum ei géd-
feldt sé; hvar fyrir Páfunum sjálfum má ei
eigna sérhvad íllt og óréttvíst, sem undir
þeirra nafni útgeingur. Hvad áhrærir þá
veraldlegu stjórnan, þá er Páfinn í því ríki
og hérudum, undir hann eiginlega liggja, einn
einvalds- stjórnari. Sídan endurbót trúar-
bragdanna skédi, og margir Søfnudir hafa
brotid sig undan oki þeirrar Rómversku
kyrkju, hafa bædi Páfarnir og adrir andlegr-
ar stéttar menn mátt gjæta sinnar skyldu
betur enn ádur, verid lærdir menn og í út-
vortis athæfi sidlátir; vída er og betra skick
innfært í Klaustrin enn ádur, og vissar skord-
ur settar yfirgángi þeirrar andlegu stéttarinnar.
Bóklegar mentir ydkast nú framar á Háskól-
unum, enn ádur, og í ødrum samqvæmum,
eda Collegiis. En svo sem þetta allt er
hrósverdt, svo er enn ærid margt, sem kunn-
ugir og réttsinnadir þykjast hafa orsøk til ad
qvarta yfir. Utvortis prakt bædi í heimahús-
um og í opinberri Guds þjónustugjørd geing-
ur almennt yfir, en einna helst í Róm, hvar
opinber Hóru-hús njóta allsherjar frelsis,
en svara vissum tolli til Páfans fjárhyrdslu.
Sida-lærdómurinn er mjøg spiltur og úr lagi
færdur af Jesúítunum. Þær gømlu villur

stadfestar á því Tridentiska Biskupa-Þíngi, samt Páfans æðstu yfirráð í kristninni, og sá lærdómur, hann géti ei villt farið í trúar-innar útskíríng, hvað á ný samþyckt er af Clemens XIta í þeirri Statútu, er af sínu upphafs orði kallast Unigenitus, hver Statúta uppvakið hefur stærstu misklíðir og offóknir í Fránkaríki og víðar; og er hún ljós vottur þess, hversu spillt sé það Rómverska höfuð og þeir helstu limir, sem undir það þjóna. Tilbeiðsla Heilagra almenn, og ó-kéndra bein, upptekin úr Catacombis, eð-ur hvelfíngum, sem finnast í jørðunni, eptir það þau eru skírð og vígð, verða framsett almúganum, sem annar helgidómur, til áheita og tilbeiðslu, hvar með skéður stór afguða-dýrkan; auk þessa hafa Papiskir óteljanlegar sveitir þeirra, hverjum Páfarnir ánafna víst sæti á himnum, og auka þeir við slíka dýrð-línga ótæpt, því slíkt starf er rýflega borg-að. Aflát og Sálumessur fást nógar fyrir peníngá. Stórir klækir afplánast með þess-slags skriftum, er fæða vantrú og hjátrú, en feita hinar andlegu stéttir og stiptanir. Al-múganum er yfir høfuð haldið í mestu van-þeckíng þeirra hluta, er í raun og veru þéna til sáluhjálpar. En, svo kallaður, Rósa-

kraus, viss bílæti og helgrá manna Legendur, Canisu Chatechismus og Cochenii forgylti Himnaríkis lykill má þéna honum í stad Biblíunnar; en lesi leikmenn heilaga Ritníng eda komist til sannleikssins vidurkénníngar, þá er hætt vid, þeim stefnt verdi fyrir þann ógnarlega ransóknar-rétt, og álitist sem villumenn, hverjum búid er annadhvert æfinlegt fángélsi eda ad kastast í eld. Sjálfir kénnendurnir eru opt sundirþickir innbyrdis og þad í léttvægum efnum, og Páfarnir sjálfir meiga opt fylgja þeim, sem verri málstad hafa, séu þeir megtugir, svo þeir hamli stærri vandrædum. Þeirrar Papisku kyrkju útbreidsla í Austur-Sudur- og Vestur-Alfum heimsins er ei svo stór, sem þeir Papisku útsendarar (Missionarii) játa, og kristinndómur þeirra umvendtu er framar innifalinn í útvortis látædi, enn réttskickadri sinnisins umbreytíng. Hér í Nordur-álfunni hafa þeir Papisku, sídan sú vestfaliska sáttargjørd var samin, ei miklum vidauka sinnar yfirdrottnunar ad hrósa; einasta hafa þeir undirþryckt Protestantana í Elsas og Pfals ad nockru leiti; þar á mót setja þeir Lútheranisku og Reformerudu Furstar þeim viss takmørk í sínum ríkjum, ad þeir fái ei yfirhønd,

og nú verandi Kóngur í Preussen hefur dregid sína Papisku þegna undan stjórn þeirrar Rómversku Kyrkju.

## 2) Enn fleira um þá Lútheranisku eda Evangelisku *) söfnadi.

59. Vér hættum þar vid sídast, ad þeir Evangelisku søfnudir høfdu feingid frid í Þýskalandi, er þeim stadfestur var á þeirri samkomu haldin var í Augsborg 1555. Nutu þá tédir søfnudir þessa fridar sífeldt þar eptir?

Medan þeir Reformerudu, um hverja sídar fátt eitt verdur talad, lidu stærstu ofsóknir í Fránkaríki og Hollandi, var allt í kirdum í Þýskalandi, medann Ferdínand 1ti, Maximilian 2ar og Rúdólfur Keisarar ríktu; en þá bródir Rúdólfs Matthías vard 1612 Keisari, og flutti sitt adsetur frá Prag, sem er høfudborg í Boheim, til Wien í Austurríki, kom sundurþycki milli Keisarans og

*) Þar þad er høfud-inntak Evangelii, edur þess kristilega lærdóms, ad vér ødlumst fyrirgéfning syndanna fyrir trúna, af einskjærri nád Guds, vegna Kristi forþénustu, og þar Lútherus færdi í ljós þennann lærdóm og stadfesti hann med greinum heilagrar ritningar mót papiskra følskum kénningum; þá kallast þeir, er Lútheri lærdómi fylgja og þeirri óumbreyttu Augsborgar játningu, evangeliskir.

hans þegna í Boheim, hvar af orsakadist 30 ára stríd út af trúarbrøgdunum. Ferdínand 2ar Keisari einsetti sér uppræta Lútherí lærdóm í sínum ríkjum, og var hann optast sigursæll í þeim orustum, er hann hádi móti þeim Evangelisku; medal annars skipadi hann árid 1629 ad allt þad andlegt góz, sem þeim Lútheranisku hafdi tilfallid sídan 1552 skyldi afhendast Pápiskum. Í þessum bágindum uppvakti Gud Gústav Adólf Svía Kóng ad koma Lútheraniskum til hjálpar. Sá Svenski Kóngur vann sigur hvad eptir annad, og féll í Bardaga vid Lutzen 1632. Sídan høfdu ýmsir sigur. Ferdínand deydi 1637 og Ferdínand 3ji Keisari héldt enn nú áframm strídinu, til þess 1648, þegar sá Vestfaliski fridur samdist, hver tveim árum sídar stadfestur var í Nurnberg; urdu þá þau málalok, ad Pápistar, Lútherskir og Reformeradir skyldu njóta fullkomins frelsis í ydkun sinna trúarbragda og flutníngi gudlegrar þjónustugjerdar í Þýskalandi; þad skyldi og hver þessara flocka hafa í átølulausu eignarhaldi, sem hann átti árid 1624. Engu ad sídur hefur sú Evangeliska kyrkja sætt þúngum áløgum í Pólen, í Ungaria og ýmsum stødum í Þýskalandi,

einkum í Pfals; þar á móti hefur hún viðhaldist og blómgast í Danmerkur og Norvegs ríkjum, einnig í Svíaríki allt til þessa dags, nema hvað Jóhann Svía Kóngur og enn framar Son hans Sigmundur Kóngur vildu í það ríki innfæra þau Pápisku trúarbrøgð, hvað þeim þó ecki tókst; hvers vegna Sigmundur mátti missa ríkið 1600, en hans føðurbróðir Karl 9di kom í hans stað, og færði í hið fyrra lag, það í trúarbrøgðunum hafði aflaga viljað fara í hans forverjara tíð.

**60. Hvað gétum vér dregið oss til íhugunar, þá vér rennum vorum augum til þess framgángs, sú Evangeliska kyrkja hafr hefur og til þeirra offókna, hún hefur mátt sæta?**

Varla hafði sú Evangeliska kyrkja brotið af sér Páfans ok, þá hún mátti sæta stærstu offóknum af þeim, er ei gáfu rúm Evangelíi prédikun, og framar møttu eigið gagn og vyrðíngar, enn velferð sálna sinna. Páfinn og hans skulda-lið, Keisarar og Kóngar gjørðu samband mót þessari litlu hjørð Kristí, og Satan forsómaði ecki að sá illgresinu í þann nýhreinsaða Guðs akur, fyrir innbyrðis sundurþycki í lærdóminum *) millum þeirra, er að Guðs

*) Að upptelja hér allar þær missklýðir, er til hafa

verki áttu ad standa. En hann, sem er undarlegur í ráði, ónýtti svo allann ofsa og undirhyggju sinna óvina, að sú Evangeliska kyrkja útbreiddist daglega; sjálfar ofsóknirnar gáfu tækifæri til útbreiðslu hins rétta lærdóms, og ad fullkominn fridur samdist; ágreiníngur í ýmsum trúarinnar lærdóms greinum hefur einnig komid því til vegar, ad margir lærdómar framm setjast nú med stærra athygli og greinilegar enn ádur; líka hafa bóklegar mentir, einkum þær, sem þéna til forsvars og útskíríngar þess sáluhjálplega lærdóms, tekid stærstu framförum, svo allann fjølda hálærdra manna má finna medal þeirra, sem fylgja Augsborgar Játníngu og

fallid í þeirri evangelisku kyrkju, er oflángt og ei til stórrar nytsemdar þeim, fyrir hverja þessi bæklíngur er samantekinn; þessar þrætur sýna, yfir høfud, hversu mannlegt hyggjuvit reynist skjótt vera og óstýrilátt, þá þad ei leidist af þeim sanna vitskunnar og opinberunarinnar anda, heldur þeim, sem vændlætir án skynsemdar, og heldur sér ei innann takmarka sinnar køllunar; og bendi eg helst hér til þeirra, svo kølludu, Pietisku þráttana, sem fram á þessa øld hafa varad; einnig til þeirra, svo kalladra Mehrisku brædra, er þikjast vera eptirleifar Hússitanna, hverjir í skjóll greifans af Zinzendorff hafa sett sig nidur í Herrenhut í Laußnitz og þadan útbreidt sig vída um Nordurálfuna.

ødrum svo kølludum Symboliskum bókum þeirrar Evangelisku kyrkju.

61. Seig mér med særstu ordum, hversu trúarbragdanna endurbót skédi í Danmørk og Norveigi?

Kóngurinn Christján 2ar sá, hversu torveldt honum veita mundi, eptir þad Svenska blóđbad, ad halda þegnum sínum í Danmørk í hlýđni vid sig, medan ei lægđist makt og metnadur þeirra Pápisku Biskupa; kom honum því til hugdr ad innleida í sín ríki nockra endurbót í trúarbrøgđunum, á líkann hátt og frændur hans Kjørfurstarnir í Saxen høfđu med byrjad, og því féck hann Evangeliskann Prest frá Saxen, Martein Reinhard ad prédika Evangelíum í Kaupmannahøfn 1520; en þar Kóngurinn skømmu sídar hlaut rýma ríkin, vard um sinn ei framar úr hans fyrirætlan. Þó útbreiddist Evangelii ljós smámsaman bædi í Sjálandi og á Jótlandi, og vóru einir hinir fyrstu, er prédikudu móti Páfadóminum Hermann Tast í Húsum á Sudur-Jótlandi og Hans Tausson, fæddur á Fjóni, bædi í Vebjargar Kaupstad og Kaupmannahøfn; hann vard loksins Biskup í Rípum á Jótlandi og deydi þar 1561. Þegar Kóngurinn Fridrik 1ti kom

til Stjórnarinnar, lét hann í ljósi, að hann var ei mótfallinn þeim Lútheranisku trúarbrøgdum, og tók þá, er þeim fylgdu, í sína Kónglega vernd, á þeim Herradegi haldinn var í Odinseyu á Fjóni 1527, og var Málmey hinn fyrsti af þeim dønsku Kaupstødum er með øllu útrímdi Páfadómsins villum, en Helsíngjaeyri hinn sídasti. Frá þessum tíma vóru Múnkarnir hér og þar reknir úr Klaustrunum, og þau brúkud til Hospítala og annara naudsynlegra stiftana. Christján 3ji eptir það hann hafdi samid frid í ríkjunum, afsetti hann þá Papisku Biskupa í Danmørk 1536, og lét setja þá alla í fángelsi þann 20ta Augúst sama árs, að fráteknum Ova Bild í Arósi, sem þó nockrum døgum sídar var settur í vardhald, og Gottskálki Alefeld í Slesvík, því hann á undanførnum árum hafdi einga hindran gjørt Evangelii útbreidslu í tédu Fursstadæmi. Þó vóru skømmu sídar þessir Biskupar lausir látnir, og nutu inntekta af vissum Klaustrum sér til uppheldis medan þeir lifdu. Á sama ári skédi endurbót trúarbragdanna yfir allt í Danmørku, og næsta ár eptir lét þessi gudhræddi Kóngur samantaka eina nýa Kyrkju-Ordinantiu (hvar til einkanlega hjálpadi Jóhann Bugen-

ødrum svo kølludum Sv[illegible] Palladíus Bisk-
þeirrar Evangelisku kyr[illegible] sídan á einu Þíngi
[illegible] ega í løg leidd, eptir
61. Seig mér mer[illegible] [illegible] urlesin og samþyckt af
trúarbragdr[illegible]
í Danr[illegible] . sú adferd, sem brúkast í
Kóngurinn [illegible] arar þjónustu-gjørdar í kyrk-
veldt honum [illegible] optlega valdid óeiníng í Søfn-
blódbad, [illegible] nær hún hefur verid ólík. Þá, til
mørk [illegible] veg fyrir slíkt, lét Kóngurinn halda
makt [illegible] skupa mót í Kaupmannahøfn 1540,
kom [illegible] dstiljanlegt var samid, kyrkju-sidum
rí[illegible] kjandi, og til enn frekari sameiníngar í
[illegible] eindu efni var haldid annad Þíng í Rip-
um á Jótlandi 1542, hvar samanteknir vóru
26 Artícular, vidkomandi opinberri Guds
þjónustugjørd. Þá heilögu Ritníng lét þessi
ágjæti Kóngur útleggja á Danska túngu og
þryckja 1550, og reisti med øllu móti skord-
ur vid, ad framandi trúarbrøgd og þeir þeim
fylgdu, svo sem Calvinistar, Endurskírarar etc.
festu ei fót í sínum ríkjum. Þeir eptirfylg-
andi Kóngar hafa á líkann hátt sýnt sig sem
náqvæma fóstur-fedur Guds safnada í þeirra
ríkjum. Fridrik 2ar útgaf 25 greinir, sem
framandi hlutu undirskrifa, ádur enn þeir
máttu setjast ad í ríkjunum. Kristján 4di
gaf út margar ágjætar skipanir kyrkju sokum

og sá missi Lagabætir Kristjáns kyrkju Ritúalid 1686, sem inn-veg tveimur árum sídar, og vidbætir vid þau ádur í hans ...færdu kyrkjulög. Fridrik 4di, ...ída medal Finna þau Evangelisku ...brøgd og medal Heidíngjanna í Aust-Indíunum, hvar fyrir hann og einnig stiptadi 1714, svo kallad Missíóns Collegium í Kaupmannah., er skal hafa tilsjón yfir, ad Guds ord útbreidist í Aust-Indíunum, í Finnmørkinni og Grænlandi. Um þess hásæla Kóngs Kristjáns 6ta, óþreytta umhyggju fyrir Guds dýrdar eblíngu og bóklegra menta framgángi vitna nóglega hans mørgu Forordníngar og stiptanir. Hann uppábaud og samþykti 1736, Barnanna Confirmatíón edur stadfestíng í þeirra Skírnar sáttmála.

Hvad Norvegs ríki vidvíkur, þá skédi þar Trúarbragdanna endurbót sídar enn í Danmørku. Í Bjørgvín var Evangelíum fyrst prédikad 1528, en Erkibiskupinn Olafur Lunge Engilbertsson lagdi allar árar um bord ad hindra Evangelii framgáng; og þá hann formerkti ad þessi hans fyrirtekt mundi ei fá góda endalikt, flúdi hann til Hollands á 4um skipum; en Kristján 3ji sendi til Nor-

stadfestar á því Trídentiska Biskupa-Þíngi, samt Páfans ædstu yfirrád í kristninni, og sá lærdómur, hann géti ei villt farid í trúarinnar útskíríng, hvad á ný samþyckt er af Clemens 11ta í þeirri Statútu, er af sínu upphafs ordi kallast Unigenitus, hver Statúta uppvakid hefur stærstu missklídir og ofsóknir í Fránkaríki og vídar; og er hún ljós vottur þess, hversu spillt sé þad Rómverska höfud og þeir helstu limir, sem undir þad þjóna. Tilbeidsla Heilagra almenn, og ókéndra bein, upptekin úr Catacombis, edur hvelfíngum, sem finnast í jördunni, eptir þad þau eru skírd og vígd, verda framsett almúganum, sem annar helgidómur, til áheita og tilbeidslu, hvar med skédur stór afgudadýrkan; auk þessa hafa Papiskir óteljanlegar sveitir þeirra, hverjum Páfarnir ánafna víst sæti á himnium, og auka þeir vid slíka dýrdlínga ótæpt, því slíkt starf er ríflega borgad. Aflát og Sálumessur fást nógar fyrir peníngá. Stórir klækir afplánast med þessslags skriftum, er fæda vantrú og hjátrú, en feita hinar andlegu stéttir og stiptanir. Almúganum er yfir höfud haldid í mestu vanþeckíng þeirra hluta, er í raun og veru þéna til sáluhjálpar. En, svo kalladur, Rósa-

krans, viss bílæti og helgra manna Legendur, Canisu Chatechismus og Cochenii forgylti Himnaríkis likill má þéna honum í stad Biblíunnar; en lesi leikmenn heilaga Ritníng eda komist til sannleiksins vidurkénníngar, þá er hætt vid, þeim stefnt verdi fyrir þann ógnarlega ransóknar-rétt, og álitist sem villumenn, hverjum búid er annadhvert æfinlegt fángélsi eda ad kastast í eld. Sjálfir kénnendurnir eru opt sundirþickir innbyrdis og þad í léttvægum efnum, og Páfarnir sjálfir meiga opt fylgja þeim, sem verri málstad hafa, séu þeir megtugir, svo þeir hamli stærri vandrædum. Þeirrar Papisku kyrkju útbreidsla í Austur- Sudur- og Vestur-Alfum heimsins er ei svo stór, sem þeir Papisku útsendarar (Missionarii) játa, og kristinndómur þeirra umvendtu er framar innifalinn í útvortis látædi, enn réttskickadri sinnisins umbreytíng. Hér í Nordur-álfunni hafa þeir Papisku, sídan sú vestfaliska sáttargjørd var samin, ei miklum vidauka sinnar yfirdrottnunar ad hrósa; einasta hafa þeir undirþryckt Prótestantana í Elsas og Pfals ad nockru leiti; þar á mót setja þeir Lútheranisku og Reformerudu Furstar þeim viss takmørk í sínum ríkjum, ad þeir fái ei yfirhønd,

og nú verandi Kóngur í Preussen hefur dreg- id sína Papísku þegna undan stjórn þeirrar Rómversku Kyrkju.

## 2) Enn fleira um þá Lútheranisku eda Evangelisku *) söfnadi.

**59. Vér hættum þar vid sídast, ad þeir Evangelisku söfnudir höfdu feingid frid í Þýskalandi, er þeim stadfestur var á þeirri samkomu haldin var í Augsborg 1555. Nutu þá tédir söfnudir þessa fridar sífeldt þar eptir?**

Medan þeir Reformerudu, um hverja sídar fátt eitt verdur talad, lidu stærstu ofsóknir í Fránkaríki og Hollandi, var allt í kirdum í Þýskalandi, medann Ferdínand 1ti, Maxímilían 2ar og Rúdólfur Keisarar ríktu; en þá bródir Rúdólfs Matthías vard **1612** Keisari, og flutti sitt adsétur frá Prag, sem er höfudborg í Böheim, til Wien í Austurríki, kom sundurþycki milli Keisarans og

*) Þar þad er höfud-inntak Evangelii, edur þess kristilega lærdóms, ad vér ødlumst syrirgéfning syndanna fyrir trúna, af einskjærri nád Guds, vegna Krists forþénustu, og þar Lútherus færdi í ljós þennann lærdóm og stadfesti hann med greinum heilagrar ritningar mót papiskra fölskum kénningum; þá kallast þeir, er Lútheri lærdómi fylgja og þeirri óumbreyttu Augsborgar játningu, evangeliskir.

hans þegna í Bohejm, hvar af orsakadist 30 ára stríd út af trúarbrøgdunum. Ferdínand 2ar Keisari einsetti sér uppræta Lútherí lærdóm í sínum ríkjum, og var hann optast sigursæll í þeim orustum, er hann hádi móti þeim Evangelisku; medal annars skipadi hann árid 1629 ad allt þad andlegt góz, sem þeim Lútheranisku hafdi tilfallid sídan 1552 skyldi afhendast Pápiskum. Í þessum bágindum uppvakti Gud Gústav Adólf Svía Kóng ad koma Lútheraniskum til hjálpar. Sá Svenski Kóngur vann sigur hvad eptir annad, og féll í Bardaga vid Lutzen 1632. Sídan høfdu ýmsir sigur. Ferdínand deydi 1637 og Ferdínand 3ji Keisari héldt enn nú áframm strídinu, til þess 1648, þegar sá Vestfaliski fridur samdist, hver tveim árum sídar stadfestur var í Nurnberg; urdu þá þau málalok, ad Pápistar, Lútherskir og Reformeradir skyldu njóta fullkomins frelsis í ydkun sinna trúarbragda og flutníngi gudlegrar þjónustugjerdar í Þýskalandi; þad skyldi og hver þessara flocka hafa í átølulausu eignarhaldi, sem hann átti árid 1624. Engu ad sídur hefur sú Evangeliska kyrkja sætt þúngum áløgum í Pólen, í Ungaria og ýmsum stødum í Þýskalandi,

einkum í Pfals; þar á móti hefur hún viðhaldist og blómgast í Danmerkur og Norvegs ríkjum, einnig í Svíaríki allt til þessa dags, nema hvað Jóhann Svía Kóngur og enn framar Son hans Sigmundur Kóngur vildu í það ríki innfæra þau Pápisku trúarbrøgð, hvað þeim þó ecki tókst; hvers vegna Sigmundur mátti rýma ríkið 1600, en hans føðurbróðir Karl 9di kom í hans stað, og færði í hið fyrra lag, það í trúarbrøgðunum hafði aflaga viljað fara í hans forverjara tíð.

60. Hvað gétum vér dregið oss til íhugunar, þá vér rennum vorum augum til þess framgángs, sú Evangeliska kyrkja hast hefur og til þeirra offókna, hún hefur mátt sæta?

Varla hafði sú Evangeliska kyrkja brotið af sér Páfans ok, þá hún mátti sæta stærstu offóknum af þeim, er ei gáfu rúm Evangelií prédikun, og framar møttu eigið gagn og vyrðíngar, enn velferð sálna finna. Páfinn og hans skulda-lið, Keisarar og Kóngar gjørðu samband mót þessari litlu hjørð Kristí, og Satan forsómaði ecki að sá illgresinu í þann nýhreinsaða Guðs akur, fyrir innbyrðis sundurþycki í lærdóminum *) millum þeirra, er að Guðs

*) Að upptelja hér allar þær misklýðir, er til hafa

verki áttu ad standa. En hann, sem er undarlegur í rádi, ónítti svo allann ofsa og undirhyggju sinna óvina, ad sú Evangeliska kyrkja útbreiddist daglega; sjálfar ofsóknirnar gáfu tækifæri til útbreidslu hins rètta lærdóms, og ad fullkominn fridur sambdist; ágreiníngur í ýmsum trúarinnar lærdóms greinum hefur einnig komid því til vegar, ad margir lærdómar framm setjast nú med stærra athygli og greinilegar enn ádur; líka hafa bóklegar mentir, einkum þær, sem þéna til forsvars og útskíríngar þess sáluhjálplega lærdóms, tekid stærstu framførum, svo allann fjølda hálærdra manna má finna medal þeirra, sem fylgja Augsborgar Játníngu og

fallid í þeirri evangelisku kyrkju, er oflángt og ei til slórrar nytsemdar þeim, fyrir hverja þessi bæklíngur er samantekinn; þessar þrætur sýna, yfir høfud, hversu maunlegt hyggjuvit reynist sljóft vera og óstýrilátt, þá þad ei leidist af þeim sanna vitskunnar og opinberunarinnar anda, heldur þeim, sem vændlætir án skynsemdar, og heldur sèr ei innann takmarka sinnar køllunar; og bendi eg helst hèr til þeirra, svo kølludu, Pietisku þráttana, sem fram á þessa øld hafa varad; einnig til þeirra, svo kalladra Mehrisku brædra, er þikjast vera eptirleifar Hússitanna, hverjir í skjóli greifans af Zinzendorff hafa sett sig nidur i Herrenhut i Laußnitz og þadan útbreidt sig vida um Nordurálfuna.

ødrum svo køllu**ð**um Symbolisk**u**m bókum þeirrar Evangelisku kyrkju.

61. **Seig mér með færstu orðum, hversu trúarbragðanna endurbót skéði í Danmørk og Norveigi?**

Kóngurinn Christján 2ar sá, hversu torveldt honum veita mundi, eptir það Svenska blóðbað, að halda þegnum sínum í Danmørk í hlýðni við sig, meðan ei lægðist makt og metnaður þeirra Pápisku Biskupa; kom honum því til hugar að innleiða í sín ríki nockra endurbót í trúarbrøgðunum, á líkann hátt og frændur hans Kjørfurstarnir í Saxen høfðu með byrjað, og því fékk hann Evangeliskann Prest frá Saxen, Martein Reinhard að prédika Evangelíum í Kaupmannahøfn **1520**; en þar Kóngurinn skømmu síðar hlaut ríma ríkin, varð um sinn ei framar úr hans fyrirætlan. Þó útbreiddist Evangelii ljós smámsaman bæði í Sjálandi og á Jótlandi, og vóru einir hinir fyrstu, er prédikuðu móti Páfadóminum Hermann Tast í Húsum á Suður-Jótlandi og Hans Tausson, fæddur á Fjóni, bæði í Vebjargar Kaupstað og Kaupmannahøfn; hann varð loksins Biskup í Ripum á Jótlandi og deyði þar **1561**. Þegar Kóngurinn Friðrik **1ti** kom

til Stjórnarinnar, lét hann í ljósi, að hann var ei mótfallinn þeim Lútheranisku trúarbrøgdum, og tók þá, er þeim fylgdu, í sína Rónglega vernd, á þeim Herradegi haldinn var í Odinseyu á Fjóni 1527, og var Málmey hinn fyrsti af þeim dønsku Káupstødum er med øllu útrímdi Páfadómsins villum, en Helsíngjaeyri hinn sídasti. Frá þessum tíma vóru Múnkarnir hér og þar reknir úr Klaustrunum, og þau brúkud til Hospítala og annara naudsynlegra stiftana. Christján 3ji eptir þad hann hafdi samid frid í ríkjunum, afsetti hann þá Papisku Biskupa í Danmørk 1536, og lét setja þá alla í fángelsi þann 20ta Augúst sama árs, ad fráteknum Ova Bild í Arósi, sem þó nockrum døgum sídar var settur í vardhald, og Gottskálki Alefeld í Slesvík, því hann á undanførnum árum hafdi einga hindran gjørt Evangelii útbreidslu í tédu Furstadæmi. Þó vóru skømmu sídar þessir Biskupar lausir látnir, og nutu inntekta af vissum Klaustrum sér til uppheldis medan þeir lifdu. Á sama ári skédi endurbót trúarbragdanna yfir allt í Danmørku, og næsta ár eptir lét þessi gudhræddi Róngur samantaka eina nýa Kyrkju-Ordinantiu (hvar til einkanlega hjálpadi Jóhann Bugen-

hagen og Pétur Plade, eda Palladíus Biskup á Sjólandi) og var hún sídan á einu Þíngi í Odinsey 1539 opinberlega í løg leidd, eptir þad hún ádur var yfirlesin og samþyckt af Lútherò. Nú þar sú adferd, sem brúkast í flutníngi opinberrar þjónustu-gjørdar í kyrkjunni, hefur optlega valdid óeiníng í Søfnudunum, þegar hún hefur verid ólík, þá, til ad koma í veg fyrir slíkt, lét Kóngurinn halda eitt Biskupa mót í Kaupmannahøfn 1540, hvar adskiljanlegt var samid, kyrkju-sidum vidvíkjandi, og til enn frekari sameiníngar í greindu efni var haldid annad Þíng í Rípum á Jótlandi 1542, hvar samanteknir vóru 26 Artícular, vidkomandi opinberri Guds þjónustugjørd. Þá heiløgu Ritníng lét þessi ágjæti Kóngur útleggja á Danska túngu og þryckja 1550, og reisti med øllu móti skordur vid, ad framandi trúarbrøgd og þeir þeim fylgdu, svo sem Calvinistar, Endurskírarar etc. festu ei fót í sínum ríkjum. Þeir eptirfylgandi Kóngar hafa á líkann hátt sýnt sig sem náqvæma fóstur-fedur Guds safnada í þeirra ríkjum. Fridrik 2ar útgaf 25 greinir, sem framandi hlutu undirskrifa, ádur enn þeir máttu setjast ad í ríkjunum. Kristján 4di gaf út margar ágjætar skipanir kyrkju sokum

vidvíkjandi, og sá mikli Lagabætir Kristján 5ti, gaf út kyrkju Ritúalid 1686, sem innfært var í Norveg tveimur árum sídar, og er ad álíta sem vidbætir vid þau ádur í hans Løgbækur innfærdu kyrkjuløg. Fridrik 4di, lét útbreida medal Finna þau Evangelisku trúarbrøgd og medal Heidíngjanna í Aust-Indíunum, hvar fyrir hann og einnig stiptadi 1714, svo kallad Missíóns Collegium í Kaupmannah., er skal hafa tilsjón yfir, ad Guds ord útbreidist í Aust-Indíunum, í Finnmørkinni og Grænlandi. Um þess hásæla Kóngs Kristjáns 6ta, óþreytta umhyggju fyrir Guds dýrdar eflíngu og bóklegra menta framgángi vitna nóglega hans mørgu Forordníngar og stiptanir. Hann uppábaud og samþykkti 1736, Barnanna Confirmatíón edur stadfestíng í þeirra Skírnar sáttmála.

Hvad Norvegs ríki vidvíkur, þá skédi þar Trúarbragdanna endurbót sídar enn í Danmørku. Í Bjørgvin var Evangelíum fyrst prédikad 1528, en Erkibiskupinn Olafur Lunge Engilbertsson lagdi allar árar um bord ad hindra Evangelii framgáng; og þá hann formerkti ad þessi hans fyrirtekt mundi ei fá góda endalikt, flúdi hann til Hollands á 4um skipum, en Kristján 3ji sendi til Nor-

vegs 14 stríds skip, og vóru fyrirmenn þessarar herfarar, Trúid, Ulstand og Christófór Hvítfeld. Geck allur lýdur Kóngi til handa, og skédi endurbót Trúarbragdanna 1537 og 38, um heila ríkid án blóds úthellingar, og geckst fyrir því ádurnefndur Hvítfeld. Par eptir feingu Norskir nýa kyrkju Ordinantiu árid 1607.

## Um Ísland sérílagi.

Í Íslandi skédi eingri mótstada á útbreidslu þess Evangeliska lærdóms, enn í ødrum Kóngsins ríkjum. Á Biskupsstólnum í Skálholti sýnist sem Evangelii ljós hafi fyrst hér í landi tendrad verid, af þeim lærdum mønnum þar vóru samankomnir, helst Dómkyrkju-Prestunum Jóni Einarssyni og Gissla Jónssyni, er sídar vard Biskup. Fyllti þessara flock Oddur, son Gottskálks Biskups, er sídar vard Løgmadur, og byrjadi þar ad útleggja hid Nýa Testamentid. Angradi Øgmund Biskup þetta mjøg, og hindradi hvad hann kunni Evangelii framgáng, einnig eptir þad hann hafdi 1539, lagt frá sér þad Biskupslega embætti. Gissur Biskup Einarsson átti því mjøg mótdrægt medan Øgmundur var hér í landi, en eptir þad

hann fór hédan, kom Gissur því á, í Skálholts Stifti, ad Kristjáns 3ja Ordinantia var um allt þad Stifti medtekin af Kénnilýdnum. Þad hjálpadí og mjøg til Evangelii útbreidslu á hans døgum, ad Oddur Gottskálksson útlagdí á Íslendsku þad Nýa Testament og fleyri nytsamlegar bækur, sem prentadar gengu medal Prestanna, þeim til brúkunar. Medan Herra Gissur lifdi, framfylgdi Biskup Jón Arason þeim Papiska lærdómi í Hóla Stifti, en strax þá Gissur dó 1548, tók Jón Biskup Arason ad sér umsjón Skálholt Stiftis, framfylgdí, med miklum ákafa, þeim Papiska lærdómi og tók til fánga Martein Biskup Einarsson. Eptir dauda Biskups Jóns, þegar Marteinn var á ný setstur ad í Skálholti, og Olafur Hjaltason var ordinn Biskup á Hólum útrýmdist smámsaman Papisk villa, en þó framar og ad øllu leiti í tíd þeirra eptirkomara Gísla Jónssonar og Gudbrands Biskups; og hafa þeir hásælu Kóngar af þeirri Oldinborgisku ætt, hver eptir annann, eblt þann hreina Evangeliska lærdóm og séd Skólum og Prestum fyrir hid naudsynlegasta, svo andlegrar stéttar menn framfylgja kunni skyldu síns embættis. Sérílagi meiga í fersku minni

vera þær ágjætu Forordníngar, sem híngað í landið vóru innsendar af þeim guðhrædda Kóngi Kristjan 6ta, til endurbótar Skólum og ødru í andlegum og veraldlegum efnum, er sýndust lagfæríngar viðþurfa.

---

### Þessir Íslendskir Biskupar hafa hér verið síðan Endurbót Trúarbragðanna skédi.

#### 1) Í Skálholts Stifti.

1) Gissur Einarsson, kosinn til Biskups af Biskupi Øgmundi 1539, var vígður af Pétri Palladíó Sjálands Biskupi (hverjum sérílagi var á hendur falin umsjón andlegra efna, einkum lærdómsins hér á landi). Gissur kom út 1540, og deyði á fertugs aldri 1548.

2) Marteinn Einarsson, var kosinn á sama ári til Biskups og Gissur deyði; vígður af Palladíó og kom út 1549, og þá hann var á Staðastað, var hann um veturnátta skeið tekinn til fánga af sonum Biskups Jóns, fluttur til Hóla og þaðan að Mødrufelli, hvar hann var í varðhaldi hjá Ara Løgmanni; en fékk sitt frelsi þegar Biskup Jón og synir hans vóru fángaðir af Daða Guðmundssyni á Sandafelli 1550. Marteinn

fékk sig lausann frá því Biskupslega embætti 1556, og deydi í Midhúsum skamt frá Alptanesi 1570.

3) Gísli Jónsson fæddur í Hraungérdi í Flóa 1513, vard sídan kyrkju Prestur í Skálholti, og þareptir í Selárdál; kosinn til Biskups 1556, kom til Stólsins 1558, og deydi um Sumarid 1587.

4) Oddur Einarsson, fæddur í Mødruvallna-Seli 1559, var lærisveinn Tychonis Brahe, sídar Prófastur, eda hans fullmektugur, á því Kónglega Communitete í Kaupmannahøfn, sídan Skólameistari á Hólum í 2 ár; kosinn ad rádi Gudbrandar Biskups 1588, vígdur til Biskups af Páli Matthíassyni Sjálands Biskupi og kom út á sama ári 1589, var Biskup 41 ár, og deydi 1630.

5) Gísli sonur Biskups Odds, fæddur 1593, var kyrkju Prestur í Skálholti 1616; Skólameistari þar 1621, sídan Prestur í Stafholti, og þareptir í Holti undir Eyafjøllum; var kosinn til Biskups 1631 og kom út ári sídar til Stólsins. Hann deydi á Þíngvøllum á Þíngmaríumessu 1638.

6) Brinjólfur Sveinsson, fæddur ad Holti í Ønundarfyrdi 14da December 1605, vard Conrector vid Skólann í Roiskéldu; kom

híngad inn á sama ári og Biskup Gísli deydi, var strax kosinn til Biskups, sídan vígdur í Kaupmannahøfn 5ta Maii 1639, og kom út sama Sumar. Hann afhenti Stólinn sjálfur sínum eptirkomara, og deydi 5ta Augúst 1675.

7) Þórdur, son Þorláks Biskups á Hólum, fæddur 1637; var Skólameistari á Hólum 1660, útnefndur til Biskups eptir Brinjólf af Kónginum Fridrik 3ja 1669, sigldi í fjórda sinn hédan af landi 1671, vígdur 25ta Febrúar til Biskups, og dvaldi á Hólum hjá bródur sínum Herra Gísla til þess hann tók vid Stólnum í Skálholti 1674; flutti Prentverkid þángad og byrjadi med þad 1686, deydi 1697.

8) Jón Þorkélsson Vídalín, fæddur í Gørdum á Alptanesi 1666, vard Heyrari í Skálholti 1692, og ári sídar Dómkyrkju Prestur þar. Sídan vard hann Prestur í Gørdum á Alptanesi, sigldi til Kaupmannahafnar eptir Biskups vígslu, hvørja honum veitti Biskup Henrik Bornemann 1698, kom til Stólsins sama ár og deydi í Sæluhúsum 30ta Augúst 1720, þá hann hafdi 22 ár verid Biskup, og eptir sig látid ágjætar útleggíngar yfir Gudspjøllin og Kristí píníngar Hist-

oríu, auk fleiri merkis bóka, hann hefur samantekið og útlagt.

9) Jón Arnason fæddur 1665, varð Heyrari á Hólum 1692. og Skólameistari 1696, þareptir 1707 Prestur að Stað í Steingrímsfyrði og ári síðar Prófastur í Stranda Sýslu; eptir Kónglegri skipan sigldi hann til Kaupmannahafnar 1721, og kom út ári síðar Biskup, deyði 8da Februarii 1743, þá hann vantaði tvo vetur á áttrædt.

10) Olafur Gíslason, Dómkyrkju Prestur í Skálholti og Prófastur í Arness Þingi, síðan Prestur að Odda og Prófastur í Rángár Þingi, vígðist til Biskups í Kaupmannahøfn 1747, deyði 1753, á 63 aldurs ári.

11) Finnur Jónsson, fæddur 16da Jánúarii 1704, vígdist að Reikholti 1732, og varð skømmu síðar Prófastur í Borgarfjardar Sýslu, og Officialis í Skálholts Stifti fyrst 1743, aptur 1745, og í þriðja sinni 1753, og þareptir Biskup 1754, eptir Kónglegri Skipan varð hann *Doctor Theologiæ* 1774, hann deyði 23ja Júlii 1789. Ættartal og Æfisaga hans er prentuð í Kaupmannahøfn 1792.

2) Í Hóla Stifti.

1) Olafur Hjaltason, var Prestur fyrst í

Vesturhóps-Hólum, sídan vid Dómkyrkjuna á Hólum og þareptir í Laufási, hvadan Jón Biskup Arason rak hann, vegna þess hann prédikadi mót Páfadómsins villu; fór hann þá til Danmerkur, hvar honum var tildæmt Laufáss Kall, en kom út med Biskups tign 1552, sýndi hann sig mjøg kostgjæfinn í því ad framfylgja Evangelii lærdómi, en átti mjøg torsókt. Hann innfærdi á ný Heitdaginn*), og ásamt Arna Gíslasyni, sem hafdi Kóngs umbod í Húnavatns Þíngi, samantók hann Reformerada Kristinrétt, sem þó hefur ei løgleiddur verid. Olafur Biskup deydi 1569.

2) Gudbrandur Þorláksson, fæddur á Stadarbacka 1542, var útskrifadur úr Hóla Skóla 1560, og vard sídan Heyrari þar um 2 ár, sigldi sídan til Kaupmannahafnar Háskóla

*) Heitdagurinn var laungu ádur haldinn í Nordurlandi, og ad vísu fyrir 1470 hvar fyrir þeir eru til, sem meina hann hafi verid sú gamla Einmánadar samkoma, sú Løgbók vor um talar, þar hann einnig var haldinn fyrstá Þridjudag í Einmánudi. Þessi Heitdagur ásamt Jólanóttunni var aftekinn í Forordningunni um helgihald Sabbatsins á Islandi, Dat. 29dá Maii 1734, einnig sá sidur, ad flytja embætti í kyrkjunum þann fyrsta Sumar og Vetrar dag. Hér ad auk er 10 helgidøgum fækkad eptir Forordningunni af 26ta October 1770.

og þá hann kom út 1564, varð hann Skólameistari í Skálholti, og að þrem árum liðnum vígðist hann til Breiðabólsstaðar í Vesturhópi; síðan var hann einn vetur Skólameistari á Hólum; en eptir dauða Ólafs Biskups var hann kallaður til Danmerkur, tók þar Biskups vígslu og settist að Hóla Stól 1571. Hann upprétti Prentverk á Hólum, og gaf það Dómkyrkjunni. Hann samantók og útlagði fjølda andlegra bóka, sem hann lét þryckja, meðal hverra var sú heila Biblía, sem útkom 1584, og það Nýa Testament útaf fyrir sig 1609. Hann hélt mjøg fram lærdóminum um sína daga, aftók eptirstøðvar Páfadómsins, og hefur verið einn hinn mesti nytsemdar maður land vort hefur borið. Eptir það hann hafði Biskup verið 56 ár, deydi hann hálf-níræður 20ta Júlii 1627.

3) Þorlákur Skúlason, fæddur 1597, á Eiríksstøðum í Svartárdal, varð Heyrari við Hóla Skóla 1615, sigldi ári síðar til Kaupmannahafnar Háskóla, varð 1619 Skólameistari á Hólum, síðan 1624 Dómkyrkju Prestur; eptir móðurføður sinn Herra Guðbrand, var hann kosinn til Biskups, sigldi sama Sumar, tók Biskups vígslu í Danmørk og

settist ad Stólnum 1628. Hann útgaf margar gódar bækur, og deydi 4da Janúar 1656.

4) Gísli Þorláksson, var hérum hálft annad ár Skólameistari á Hólum, kosinn í stad födur síns, vígdist til Biskups 1657, lét þrykkja margar andlegar bækur, deydi 1684, á fimtugasta og þridja aldurs ári.

5) Jón Vigfússón, fæddur 1643, var um stund Sýslumadur í Borgarfjardar Sýslu, en misti þad embætti 1673, sigldi sama ár, og fékk þar eptir Kónglegt veitíngar bréf, ad meiga verda Biskup eptir Herra Gísla, og vígjast af Biskupi Brinjólfi, hvad ed skédi 10da Sunnudag eptir Trínitatis 1674, og flutti hann sig ad Hólum þegar Herra Gísli var fráfallinn. Deydi snögglega 1690 30ta Júnii, þá hann hafdi virkilegur Biskup verid 6 ár.

6) Einar Þorsteinsson, fæddur ad Hvammi í Nordurárdal 1633, 21ta Febrúar; vard 1654 fyrst Heyrari, sídan Skólameistari á Hólum, þareptir Prestur ad Múla 1660, en kom til Stólsins 1692 eptir þad hann á sama ári þann 13da Martii var vígdur til Biskups ásamt sínum eptirkomara Biskupi

Birni, af Sjólands Biskupi D. Bagger. Herra Einar deydi 9da October 1696.

7) Bjørn Þorleifsson, vard Capellan hjá fødur sínum Síra Þorleifi Jónssyni í Odda 1687 og eptir hans dauda fèck Stadinn og Prófastsdæmid í Rángárvalla Sýslu 1690. Hann þág Biskups vígslu 1692, sat í Odda til þess Herra Einar deydi, flutti síg ad Hólum 1697, keypti Prentverkid af Sýslumanninum Brinjólfi Thorlació og fær.i þad ad Hólum 1704; deydi 1710.

8) Steinn Jónsson, fæddur á Hjaltabacka 30ta Augúst 1660, var fyrst Capellan í Hítardal 1688 eptir Síra Olaf Jónsson, sídan kyrkju Prestur í Skálholti, þareptir Prestur í Hítarnesi, sídast á Setbergi; sigldi eptir Biskups vígslu 1710, hverja hann ødladist á Trínitatis hátíd nærsta ári eptir. Hann vann Prentverkid til Hóla Dómkyrkju, og brúkadi þad kostgjæfilega medan hann lifdi. Hann deydi 1739 2ann December.

9) Haldór Brinjólfsson, fæddur 15da Apríl 1692; var fyrst Prestur til Utskála og Hvalsness í 20 ár, til þess hann 1736, fèck Stadastad og Prófastsdæmid í Snæfellsness Sýslu. Hann vígdist til Biskups 1746,

og deydi á útsigling í Eyrarsundi 22an October 1752, liggur grafinn í Vorfrúr kyrkju í Kaupmannahøfn.

10) Gísli Magnússon, fæddur á Grenjadarstødum 12ta September 1712; var Skólameistari í Skálholti 9 vetur, vígdist 1746, til Stadar á Hlduhrigg og var Prófastur í Snæfells-Sýslu. Fékk Kónglega Skipan ad sigla til Kaupmannahafnar, og var vígdur 4da Maii til Biskups 1755; deydi 8da Martii 1779. Hans æfisaga er prentud á Hólum sama ár.

### 3) Um þá Reformerudu edur Calvinisku Søfnudi.

*N. B.* Til ad þeckja ásigkomulag þeirrar Reformerudu kyrkju, sýnist hentugast ad géta um hennar uppbyrjun og útbreidslu í Schveits, Fránkaríki, Englandi, Hollandi og á sumum stødum í Þýdskalandi.

62. **Hver var þeirra Reformerudu edur Calvinisku trúarbragda byrjun og útbreidsla í Schveiz?**

Um sømu mundir eda skømmu eptir þad Lútherus tók sér fyrir í Saxen ad hindra Afláts-bréfa sølu Tezels, setti Ulrich Zvinglíus sig á móti slíku kaupmángi í stadnum Zurch, hvar fyrir samkoma var þar haldin 1523,

og þá áliktad af því veraldlega yfirvaldi sama stadar, ad Prestarnir skyldu ei annad kénna, enn þad samqvæmt væri Spámannanna og Postulanna bókum. Þeir Papisku æstust vid þetta; en þar þeir gátu ei med lærdómum heilagrar Ritníngar forsvarad ýmislega hjátrú, sem vidtekin var í þeirri Papisku kyrkju, þá var ad nýu haldin samkoma í Bern 1528, til ad tala út um trúarbrøgdin, og vard sú endalykt, ad þeir í Bern gjørdu 1532 fyrir sig og undirliggjandi Fylki, eina nýa kyrkju Ordinantiu; køstudu af sér Páfans oki, vidurkénndu heilaga Ritníng vera einasta grundvøll sinnar trúar, handtérudu Sacramentin eptir þeirri fyrstu innsetníng, og settu Oldúnga fyrir safnadina. Þau hérød, sem héldu vid Páfans setnínga færdu hinum stríd á hendur, í hverju Zvinglíus fékk bana, og varir þar þessi ágreiníngur í trúarbrøgdunum enn vid. Lærdómur Zvinglii útbreiddist til nærstliggjandi Hérada, medal hverra var Genf, og var þángad kalladur Jóhann Calvin ad kénna opinberlega Guds ord. Svo vel í Schveitz, sem einkanlega í Genf létu menn sér hvad helst umhugad, ad burttaka alla forna kyrkju sidi, og innfæra þá allra einføldustu adferd í því ad kénna Guds ord og handtéra Sacrament-

in; og sá Genfiski søfnudur var álitinn hinn hreinasti og einfaldasti af allmørgum, eptir hvers setníngum margir adrir, einkum í Fránkaríki og Hollandi breyta vildu.

63. Veik þá Calvinus og Zvinglíus frá þeim rétta Evangeliska lærdómi?

Ad vísu, sérdeilis í þeim lærdómi um útvalnínguna og nærveru Kristí líkama og blóds í Altarisins Sacramenti. Þessi ágreiníngur hefur komid því til leidar, ad sú Calviniska edur Reformerada kyrkja er fráskilin þeirri Lútheranisku, en hefur eingu ad sídur mjøg vída útbreidt sig og haft merkilega og hálærda menn. Þó er þessi Reformerada kyrkja adgreind í tilliti til sinna meinínga í marga søfnudi, af hvørjum nockrir kunna framvísa sínar eigin trúarjátníngar; en þar þær mismuna frá þeirri óumbreyttu Augsborgarjátníngu, þá hefur sú Evangeliska kyrkja ei þóкst kunnad taka þá Calvinisku í fullkomna sameiníng, jafnvel þó tídum hafi verid til þess reynt, og sá flockur hefdi mátt sýnast óárennilegri, ef innbyrdis einíngu hefdi fullkomlega ordid ákomid.

64. Hversu géck til med Endurbót eda Reformatión Trúarbragdanna í Fránkaríki?

Í þessu ríki hafdi hjátrú og ósæmilegt

líferni vídast yfirhønd, eins og í ødrum løndum, þar til Lúther setti sig af alvøru mót Papistanna villum og óþolandi stjórnan. Biskupin í Meaux í Champanien Vilhjálmur Brissónet var einn hinn fyrsti, nefnilega 1523 er hlidmæltur var þeim, er endurbæta vildu trúarbrøgdin. Vilhjálmur Farel prédikadi ásamt ødrum í hans Stifti Evangelíum; en þá Biskupinn vard þess var ad slíkt mislíkadi Franka Kóngi, hafdi hann ei traust til ad framfylgja því uppbyrjada Reformatións verki í sinni sýslu, og hlutu þeir fyrstu Evangelisku Prédikarar ryma Ríkid, en þeirra tilheyrendur sættu stórum offsóknum. Calvin vóx slíkt ei í augum, heldur kom þángad 1533 og snéri mørgum frá Páfans villum, medal hverra var Hertoga-Innan frá Ferrara, dóttir Hlødvis 12ta Franka Kóngs. Páfinn og hans fylgdar-lid spørudu á sína sídu ecki sverd, fángelsi né brennur, ecki kúgan né rán fjármúna og vyrdínga til þess ad hindra Evangelii útbreidslu; en midt undir þessum offsóknum héldu þeir Reformerudu samkomu í París, hvar þeir samantóku sína trúarjátníng, og eina Statútu, um útvortis stjórnan sinna safnada; ad hverju gjørdu, Calvinisk trúarbrøgd útbreiddust dag frá degi um rík-

id. Þeir Papisku æstust vid þetta og gjørdu eitt samband sín á millum, er þeir kølludu hid helga (*Liga Sancta*) til ad undirþryckja þá Reformerudu, og þá ýmisleg vidleitni hrøck þeim ei, tilféll þad svo kallada Parisiska blód-brúdkaup. En því var svo varid: Henrik Kóngur af Navarra, sem var Oddviti þeirra Reformerudu, giftist 1572 þeirri Frønsku Princessu Margréti Vales, og var til þeirra Brúdkaups bodid øllum þeim Reformerudu, sem vóru í Ríkinu, einkum þeim sem nockurs vóru metnir, en þad bjó undir, þeir skyldu allir drepnir verda. Þetta blódbad byrjadist á Barthólómæus messu, sem þá bar uppá Sunnudag, og varadi í heila viku, med svoddan grimd og ákafa, ad varla edur ecki finnast dæmi til slíks. Sjálfur Brúdguminn, Henrik Kóngur, hafdi nær misst lífid, og var settur í fángelsi; þad finnst skrifad, ad einasta í París og Forstødunum hafi drepnar verid 70,000 manneskjur. Henrik komst úr fángelsinu og gjørdi ei einasta þad helga samband ad engu, heldur fyrir tilstyrk þeirra Reformerudu vard Kóngur í Fránkaríki, en sá þó sitt óvænna, ef hann ei snérist til þeirrar Rómversku kyrkju, hvad ed skédi 1593. Þó gaf hann út þá merkilegu réttarbót í

Nantes árid 1598, ad Reformeradir skyldu njóta æfinlegs fridar í tédu ríki, og til fullvissu hér um fécк hann þeim í hendur nockrar ríkisins festíngar. Þessi lempni var ei eptir gédi þeirra Papísku, enda var hann med svikum stúnginn í hel 1610. Sú Reformerada kyrkja stód undir þessum ágjæta Kóngi í fullum blóma, hver þó følna tók í Hlødvis 13da tíd. Samt stadfesti hann ádur greinda Henriks réttarbót 1627, en þeir Reformerudu mistu engu ad sídur sína stadi og lidu margføld rángindi, en þeirra eydílegging skédi þó ei fyrr enn þá Hlødver 14di var kominn til ríkis, hvered 1685 ónýtti Henriks verndarbréf og undanfarna fridar sáttmála, er hann sjálfur í fyrstu, Fadir hans og Afi med svardøgum høfdu inngengid. Þeir Reformerudu, (sem kølludust Hugonoti) sættu þá grimmustu ofsóknum, kyrkjurnar vóru frá þeim teknar, Prestarnir settir í fúl fángelsi, eda líflátnir. Fólk hundrudum saman, þá þad badst fyrir edur heyrdi Prédikun, án allrar vægdar nidurdrepid; skammarlegustu nídíngsverk framin á úngum og gømlum. Æra, frelsi, eignir, vóru í hershøndum. Margir flúdu ættjardir og ódul, en flestum var þess varnad af Kóngsins Krídss-

fólki, er þess gjætti, ad enginn skyldi undan komast. Hjátrú og vantrú hrósudu, á þessari offsókna tíd, alla vega sigri. Þeir Reformerudu hegdudu sér í øllu þessu mótlæti þolinmódlega, vóru hlýdnir og trúir sínum Konúngi, og høfdu í ýmsum tilfellum sýnt sig øruggasta ríkinu og sínum landsmønnum til forsvars; þeirra søk var einasta sú, ad þeir stadfastlega vildu þjóna sínum Gudi med þeim hætti, er þeirra samvitska og sannfæríng baud þeim.

65. Hver vóru upptøk og framgángur þess Reformerada lærdóms í Englandi og þar til heyrandi ríkjum?

Hinrik 8di þess nafns, Englands Kóngur, héldt fyrst med Páfanum, og skrifadi mót Lútheró um þau 7 Sakrament; sídan féll hann frá Páfanum, og gjørdist Páfi, eda safnadanna hefud, í sínu ríki, en héldt þó ad mestu vid þau Papisku trúarbrøgd, hafnandi Lútheri og Zvinglii lærdómum. Son hans Játvardur, 6ti þess nafns, innfærdi í England þau Reformerudu trúarbrøgd, fyrir fulltýngi Crammers Erki-biskups, Marteins Buceri og Péturs Martyris; en þá hann hafdi ríkt 6 ár, var hann drepinn á eitri 1553. Hálf-systir hans María

Henriksdóttir vard sídan Drottníng í Englandi og innleiddi á ný þau Papisku trúarbrøgd, en ei án stórra offsókna, er hennar Reformerudu þegnar máttu lída, af hverjum mikill fjøldi var brenndur eda hálshøgginn, medal hverra var Erki-biskupinn Cranmar. Eptir þad hún giptist Philippó 2rum Kóngi í Spaníen,, kom systir hennar Elizabet til stjórnarinnar, hver ed upprætti Páfans lærdóm, en innfærdi nær um allt sitt ríki þau Reformerudu trúarbrøgd, álíka og þau ádur vóru í tíd Játvardar bródur hennar. Hún rak burt Jesúítana úr sínu ríki, stadfesti Biskupanna myndugleika, kalladi inn í ríkid þá sem rýmt høfdu þadan, medan María systir hennar stjórnadi, og lét samantaka þá Engelsku Játníng á einu Öldúnga móti, sem haldid var árid 1571. Elizabet giptist ecki og dó barnlaus, en kaus eptir sig til ríkisins Jacob 1ta Skotta Kóng, er giptist 1590 danskri Princessu, sem hét Anna. Í þessa Kóngs tíd, samt Carls 1ta og Cromvels, adgreindi sig sú Engelska kyrkja í ýmsa søfnudi, vegna innbyrdis misklída, er risu ei svo af grundvelli lærdómsins, sem útvortis kyrkju stjórn og Cerimoníum, en þá Jacob 2ar (Sonarson Jacobs 1ta) kom

til Ríkisstjórnarinnar, vildi hann á ný innfæra þau Papisku trúarbrøgd, en hans þegnar settu sig þar á móti, og mátti því þessi Kóngur rýma ríkid 1688, og deydi í Fránkaríki 1701, en dóttur madur hans Vilhjálmur Kóngur gjørdi þá ályktun 1689, ad hver søfnudur mætti brúka sína sidu í útvortis Guds þjónustugjørd. Sídan hafa þau Reformerudu trúarbrøgd vidhaldist í Englandi, Skotlandi og ad nockru leiti í Irlandi, Sudureyum og Orkneyum; einnig útbreidst til þeirra landa og hérada, hvar Engelskir hafa fest sinn fót, einkum í Vest-Indíunum.

66. Hvílíkt er ásigkomulag þeirrar Engelsku kyrkju?

Hún er adgreind í marga flocka, sem hafa ólíkar meiníngar um eitt og annad í lærdóminum og útvortis Guds þjónustu. Þessir helstu flockar eru annadhvert þeir, sem fylgja Ordinantíu Elizabetar Drottníngar, og brúka vidlíka kyrkjusidi, sem Lútheraniskir, og kénnast þessir vid Biskupana, þar þeir eru undir þeirra tilsjón, og kallast Episcopales. Hinir, sem ei fylgja greindri Ordinantíu, né vilja vera undir yfirsýn og stjórn Biskupanna, brúka engar kyrkju Cerimoníur, eda útvortis vidhøfn í Guds þjón-

ustu, og kallast því Púritani. Í þeim lærdómi, um Guðs útvalníng og Kristí líkama og blóðs nærveru í Altarisins Sakramenti, gánga Engelskir nær, því sem í Lútheraniskum söfnuðum er kénnt, enn aðrir Reformeraðir.

67. Hvernig hefur tilgeingið með þeirra Reformeruðu trúarbragða framgáng í Hollandi, eður þeim sameinuðu Niðurlöndum?

Þegar Carl 5ti Keisari ofsókti þá Lútheranisku í Þýskalandi, flýðu margir til, svo kallaðra, Niðurlanda, einkum til Brabant og Hollands, hvar menn höfðu notið stærra frelsis enn annarstaðar í þeim sveitum; en þar þeir gáfu sig frá þeim Papisku trúarbrögðum*), þá sættu þeir þúngum ofsóknum fyrir tilhlutan nefnds Keisara, en þó miklu þýngri undir syni hans Philippó 2um Kóngi í Spanía, sem fékk að erfðum Niðurlöndin, og sendi þángað Hertogann frá Alba, til

*) Það stóð um hríð, að Hollendskir vóru í efa hvert þeir skyldu fylgja lærdómi og kyrkju-siðum þeirra Lútheranisku, eða þeirra í Schweitz; loksins tóku þeir sér snið eptir þeirri Reformeruðu kyrkju í Schweitz, sem sýnir Confessio Belgica, útgéfin 1571, eða þar um bil. Sýnist hér að hafa sluðt mök þau þeir höfðu við þá Reformeruðu í Fránkaríki og Schweitz.

ad uppræta þau Reformerudu trúarbrøgd. Mørg þúsund manna mistu fyrir eldi og sverdi lífid, og fjøldi qvennfólks var qvikksettur. Loksins søgdu Hollendskir upp trú og hollustu Philippó Kóngi, og eptir blódugt stríd, er varadi í 70 ár, fékk Holland (hvar undir skiljast þau 7 Hérød, sem samband hafa gjørt sín á milli til innbyrdis forsvars) fullkominn frid, og braut sig undan þeirri Sponsku yfirdrottnan 1648, þá Philippus 4di var Kóngur. Þau Calvinisku trúarbrøgd hafa sídan hast yfirhønd. Sú Hollendska kyrkja hefur í andlegum éfnum sameinad sig þeim Calvinisku Søfnudum í Schweits og Þýdskalandi, en útvortis stjórn og kyrkju-skick er sett á vidlíkann fót og tídkanlegt er í Genf. Öndverdlega á þeirri 17du øld uppkom stór þræta, út af Guds útvalníng og útskúfan, millum tveggja kénnenda vid Háskólann í Leiden í Hollandi. Hét annar þeirra Hermann, eda Arminius, en annar Frantz Gomar. Kom hinn fyrri nær þeim lærdómi, Lútheraniskir framsetja í greindu efni, en Gomar fylgdi einmidt villu Calvini. Arminius deydi 1609, en ei útdó ad heldur, hvad hann hafdi kénnt, hvar af óx mesta sundurþycki medal kénnendanna í Nidurløndunum. Loksins var haldin

samkoma til Dodrect, sem varadi frá 13da Nóvember 1618 og endadist 9da Maii næst eptir; og þar þeir, sem fylgdu Gomars lærdómi (sem kallast Contra-Remonstrantes) vóru á þessu Þíngi fleiri enn þeir Arminisku, sem kallast Remonstrantes, þá vóru þessara sídari lærdómur fordæmdur, og máttu þeirra kénnendur rima frá Hollandi um stund, en fengu sídar, nefnilega 1630, leyfi ad byggja sér kyrkjur og Skóla, og festu þeir þá helst fót í Amsterdam og Rotterdam. Sídan hafa margir af þessum yfirgéfid þann rétta lærdóm, og flækt sig í sumum villum Socinianiskra. Næst Calvinistum eru Lútheraniskir best lidnir í Hollandi, en síst Papistir; þó lídast Endurskírarar, Socinianiskir og adrir villu-lærendur, ei ad þeir álitist sem limir þeirrar Calvinisku kyrkju, heldur sem þegnar stjórnar-standsins, medan þeir eckért taka sér þad fyrir hendur, sem þess vidhald og velferd sýnist hindra.

68. Hverjir eru þeir helstu Söfnudir í því svo kallada Rómverska Þýdska Ríki, sem tekid hafa vid þeim Reformerudu trúarbrøgdum?

Kjør-furstinn í Pfals Fridrik 3ji rak burt úr sínu umdæmi þá Evangelisku Presta og innleiddi 1560, þau Reformerudu trúarbrøgd,

eptir því sem finnst í þeirri af Philippó Melanchton umbreyttu Augsborgar játníng, og þeim Catechismo, samantekinn var í Heidelberg. Þar eptir fèll frá þeim Evangelisku lærdómi Bremen, jafnvel þó margir Lútheranskir finnist nú um stundir í þessu Hertogadæmi. Landgreifinn Mauritz í Hessen fèll frá þeim Lútheranisku trúarbrøgdum til þeirra Calvinisku, og innfærdi þau í sitt Ríki 1605. Kjør-furstinn af Brandenborg Jóhann Sigmundur fèll 1614, til þess Reformerada lærdóms og hefur sá sami yfirhønd þar á Vindlandi, sem nú kallast Markbrandenborg, en í flestum øðrum stødum, sem eru í Þýdskalandi og heyra til Kóngunum af Preussen, svo sem Kjør-fursta af Brandenborg, ríkgángast þau Evangelisku trúarbrøgd.

69. Eru ei enn fleiri Sofnudir, enn þeir sem kenna sig vid Lútheri og Calvini lærdóm, sem um þessar mundir hafa skilid sig frá þeirri Rómversku kyrkju?

Ad vísu: og hèr til heyra:

1) Sociniani, sem standa á móti þeim rètta lærdómi um þrjár adgreindar Persónur í einni Guddómlegri veru, og med þessari sinni villu vilja nidurbrjóta grundvøll kristilegrar trúar. Hinn helsti høfundur þessarar

villu er almennt talinn Lælius Socinus og frændi hans Faustus Socinus. Útbreiddi Faustus sínar villur helst um það Pólska Ríki, en hans fylgjarar vóru síðan af Kónginum Jóhann Kasimir þaðan burt reknir 1661; námu þeir þar eptir staðar hjá sínum bræðrum í Transylvanía meðan Jóhann Sigmundur réði þar fyrir, en fyrir tilstilli Jesúítanna urðu þeir þar undirþrycktir, enda eru þeir hvergi í kristindóminum vel liðnir, nema hvað þeir hafa í þeim sameinuðu Niðurlöndum fundið sér óhættari bólfestu enn annarsstaðar.

2) Endurskírarar eður Anabaptistæ, sem hafa sitt nafn þaraf, að þeir álíktuðu, að börn ættu ei að skírast, fyrr enn þau væru komin til vits og ára, hvar fyrir þeir skírðu þá á ný, sem gáfu sig í þeirra samfélag. Þessir, undir skini kristilegra frílieita, stiptuðu aðgreindann söfnuð strax á Lútheri dögum, settu sig mót andlegri og veraldlegri stjórn og komu á stað mestu óspektum. Thómás Munzer og aðrir vóru fyrirliðar þess upphlaups, sem skéði af bændum víða í Þýðskalandi, svo þeir Þýrsku Furstar sáu sig neydda til með herskyldi að eyða og stöckva þessum óaldar flocki. Loksins feingu

þessir Endurskírarar gódann lidsmann í ein-
um Papiskum Presti, sem hét Símon Menno
er lét sig yfirtala, ad falla í síd med þeim,
sem einnig vidrétti þeirra efni og færdi í á-
litlegra lag margt hvad í þeirra lærdómum,
hvørs vegna Endurskírarar kallast einnig
Mennónítar. Þeir halda sér frá bardøgum
og embættum, og eru flestir áf þeim ólærdir
Handverks- og Kaup-menn, og sumir Lækn-
arar. Hvad vissum lærdómum og útvortis
sidferdi vidvíkur, þá eru þeir nærsta ólíkir
sín í millum, og adgreindir í tvo høfud-søfn-
udi, þann sem er í Flandern (Flæmíngja-
landi) hverjum Þýdskir og Frísar fylgja, og
þann í Vaterlandi, sem lagar sig meir eptir
þeim Reformerudu Søfnudum, hefur og lærda
menn sín á milli, og fylgja ei þeim þorpara-
skap, er svo mjøg elskast af þeirra brædrum,
sem vilja heita óspilltir Mennónítar. Nú
um stundir sýna þessir Mennónítar sig frid-
sama og gagnlega, og eru þeir ei illa lidnir,
í þeim stødum, hvar þeir hafa bólfestu fengid.

3) Qvakeri, edur þeir skjálfandi. Þeirra
foríngi var Jørgin Fox, Engelskur, sem und-
ir þeim nafnkunnuga Cromvell, er undir sig
hafdi dregid þá yppurstu stjórn í Englandi,
eptir ad Kárl Kóngur Stúart var hálshøggv-

inn, qvad þad upp fyrir alþýdu, sem hópum saman flycktist ad honum, ad þar væri hjá mønnum eitt innvortis yfirnáttúrlegt ljós, eptir hverju menn ættu einúngis gánga í trúarinnar og sidanna lærdómum; ad þetta ljós, en ei sú heilaga Ritníng, væri þad, er vísadi mønnum veg til himinsins, og þár allir hefdu þad innvortis í sér, svo væru limir þeirrar sønnu kyrkju ei einasta þeir kristnu, heldur Gydíngar, Tyrkjar og Heidíngjar; þess vegna væri eingin þørf á handtéran Sacramentanna, né á þeim Persónum, sem annars almennilega kalladir eru til þess heilaga Prests og Prédikunar embættis, heldur ætti og mætti þad hver einn flytja, yfir hvern félli sá andlegi hrollur eda skjálfti. Þessi villuflockur heldur sínar samkomur bædi í Hollandi og Englandi, en sérdeilis í því landplátzi West-Indianna, sem af Englands Kóngi Karli 2um géfid var 1681 Qvakeranna foríngja Wilhjálmi Penn, og kallást eptir hans nafni Pensylvanía.

### 4) Um þá austlægu edur Grisku kyrkju.

**70. Hvílíkt hefur verid tilstand þeirrar Grisku kyrkju sídan Miklagardur var inntekinn af Tyrkjum og þad Griska Keisaradæmi féll í þeirra hendur?**

Jafnvel þó sú Griska kyrkja, sem hér og

þar útbreidd er í þeim ríkjum, hvar Tyrkjar og Heidíngjar ráda fyrir, sé í aumkunarlegu ásigkomulagi, þá hefur hún enn nú ei gésid sig undir þann Rómverska Biskup, þegar undantakast einstaka søfnudir. Innvortis hefur hún verid sjúk og spilt, vegna margvíslegrar hjátrúar og þvílíkra lífernis hátta, er ei sambjóda réttskickadri Guds þjónkan, jafnvel þó í henni, svo sem øllum kristilegum søfnudum, finnast kunni margir, sem í hjartans einfeldni og alvørugéfni þjóna Gudi, og eru honum þócknanlegir. Utvortis hefur hún af kristninnar óvinum undirþryckt verid. Ad sonnu haldast vid þau fimm Patríarkasæti, nefnilega: í Miklagardi, Alexandría, Jerúsalem og Philadelphía; en þar Tyrkjar hafa hin ædstu rád yfir þeim ríkjum, hvar tédir Biskups-stólar liggja, þá fara þeir optlega ad kaupum og sølum, svo sá verdur tídast í þá settur, sem mest bídur fyrir. Árid **1643** samantóku og undirskrifudu þeir 4ir Patríarkar, Parthenius í Miklagardi, Jóhannicus af Alexandría, Macarius í Antióchía og Paisius í Jórsølum ásamt mørgum ødrum Biskupum eina almennilega Trúarjátníng fyrir þá Grisku søfnudi, sem sídar á Þíngi nockru, haldid var í Jórsølum,

í tíð Dositheí Biskups var stadfest 1672, og meðtekin af þeirri Grisku kyrkju, sem viðurkénnir þann rétta lærdóm um þá heilögu Guddómsins þrenníng, nema hvad hún víkur frá þeim lærdómi um framgáng heilags Anda, af Syninum. Sú Griska kyrkja trúir ecki hreinsunar-eldi Papiskra; hún álítur Kristum sem það sanna og eina kyrkjunnar höfud, og þá Papisku kyrkju sem adgreindann sérdeilis söfnud; braud og vín útdeila Griskir í Altarisins Sacramenti; en víkja í einu og ödru frá lærdómi sinna forfedra. Helgra ákall er hjá þeim almennt, og álíkta með þeirri Papisku kyrkju, að sjö séu Sacramentin. Fjöldi Klaustra og Múnka finnst í þeirra söfnudum, af hverjum flestir eru mjög fákunnandi, svo einstöku menn er að finna í þeirri andlegu stétt, sem vegna lærdóms nafnkunnugir eru, svo sem var sá merkilegi Patríark í Miklagardi Cyrillus Lucaris, sem eptir margskonar ofsóknir líflátinn var af Tyrkjum 1638. Þegar Pétur 1ti Keisari í Gardaríki edur Rússlandi, var setstur að ríkjum vildi hann sínir þegnar í andlegum efnum hverki væru undirgéfnir Miklagards Biskupi, né þeim Rússiska Patríarka; hvers vegna þessi mikli Keisari tilsetti í sínum adseturs stad Péturs-

borg eitt samqvæmi lærdra manna, er kallast Sacra Synodus, hvar yfir tilsjón hefur einhvør ríkisins Erki-biskup, ad forsjálni og réttdæmi valinkunnur; en sjálfum sér og sínum eptirkomendum í ríkis-stjórninni tilskyldi hann hin ædstu yfir-rád og úrlausn í því kyrkju søkum vidkémur. Þessi Synodus hefur vakandi auga yfir því, ad ei sé vikid frá vidteknum lærdómum og kyrkju-skicki, skal og tilkynna, hvad til lagfæríngar horfir. Pétur Keisari aftók mørg hindurvitni og hjá-trú, sem þángad til hafdi vidgeingist, en endurbætti skólana, innleiddi bóklegar mentir og adrar nytsamlegar íþróttir, baud til sín hálærdum mønnum nær allstadar ad, gaf leyfi þeim søfnudum, sem vóru af ólíkum trúarbrogdum, frelsi ad flytja Gudlega þjónustugjørd eptir hvers eins gódri samvitsku, þó med þeim athuga, ad reistar vóru naudsynlegar skordur fyrir yfirgáng hinna Papisku, ad þeir locki ei þá Rússisku undir herradæmi þess Rómverska Páfa.

Sá Armeniski søfnudur í Asía, sem ad fornu fylgdi ad nockruleiti Arii og ad nockru leiti Evtychis villum, naut fridar medan Abbas Persa Køngur ríkti, en sídan hefur hann mætt þúngum ofsóknum, svo í þeirri

álfu heimsins eru þeir vídast undirþryckctir; en þeir sem eru í Nordurálfunni og hér og þar leggja sig eptir kaupverdslan, hafa betri kjørum ad fagna. Monophysitæ, þad eru þeir, sem fylgdu ad nockruleiti Evtychis lærdómi, og álycktudu ad þar væri ein náttúra í Kristó, og ódu uppi hvad mest á hinni 6tu øld, féllu á hinni 17du øld ad nockru leiti frá lærdómi forfedra sinna til þeirra Rómversku trúarbragda, en þeirra Patríarki Ignatius 25ti *) var rekinn í útlegd, og hefur ei sídan borid mikid á þeirri litlu hjørd er hann hafdi tekid sér til umsjónar. Marónítar hafa sitt adsetur vid fjallid Líbanum, og þeir hafa gefid sig ad nockru leiti undir þann Rómverska stól, en høfdu þó sinn eginn Patríarka á næst undanfarinni øld undir kristnum stjórnara, sem þeim Tyrkneska Keisara var skattgyldur, og fylgja þeir sínum fornum sidum. Samt telur ei Páfinn eptir sér, í von ad hans

*) Frá byrjun þeirrar 15du aldar hafa Patriarchar Monóphysitarum kallad sig Ignatios, líklegast þessvegna, þeir álíta sig sem eptirkomendur hins heilaga Ignatii, sem Biskup var í Antióchia á hinni fyrstu øld. Vidlík orsøk mun vera til þess, ad Patriarkar Marónitanna kalla sig Péturs nafni, því þeir halda Pétur Postuli hafi næstur Biskup verid samestadar fyrir Ignatium.

veldi kynni á þeim stødum í Austurálfunni heldur útbreidast, ærnum peníngum ad sóa Marónítunum til fulltýngis, og þeim til uppheldis og launa, sem þángad eru sendir, edur þadan koma til Róm. Nestóríaní finnast enn vída í Austurálfunni, milli hvørra kom stór ágreiníngur á nú nærst undanfarinni øld, svo þeir eru adgreindir í þrjá flocka; af hverjum einn fylgir þeim Mosúliska Biskupi, annar þeim, sem er í stadnum Ormus, og hinn þridji kénnist vid þann heilaga Thómás, og er ad finna í Malabar, hver í fyrstu var áþjádur af Jesúítunum, medan Portúgisiskir høfdu þar yfirrád, en sídan þeir vóru þadan reknir, og Hollendskir høfdu nád til sín stadnum Cochin, njóta þeir þar fullkomins frelsis.

---

## 6. Kapítuli,

### Um hid merkilegasta sem til hefur borid frá því ári 1774 til 1837.

---

71. Hver hafa verid forløg kristilegrar trúar seinast á þeirri lidnu øld og í upphafi þessarar?

Sá ransóknar og frelsis andi sem vaknadur var á enum næstlidnu øldum, helzt áfram

sínu striki, og drottnadi eins í þeim Papisku og Próteſtantisku ríkjum. Hann kom til veg- ar miklu þenna stridi milli lærdra manna, því allir gátu ecki ordid á eitt sáttir í sum- um trúarbragda meiníngum. Nockrir vildu hrekja, adrir forsvørudu þá af kristninni einu- sinni medteknu trúarlærdóma. Menn stríddu nú ecki einasta um útleggíngu Ritníngarinn- ar, heldur og um þad álit sem henni med rétti tilheyrdi í trúarbragda søkum, þared nockrir vildu ad skynsemi mannsins skyldi géfa sig fángna undir trúarinnar hlýdni, en adrir ad þad eina skyldi, og svo í andleg- um efnum, heita rétt og satt sem skynsemi mannsins finndi svo ásigkomid, ad hún gjæti því samsinnt. Menn vildu því ad hún skyldi verda ædsti dómari í trúarbragda søkum. Nockrir tóku í þann streinginn, einkum seint á lidinni øld, ad þeir vildu sanna, ad krist- in trú væri aldeilis samhljóda því sem skyn- semi mannsins kénndi um andlega hluti, en leiddust jafnframt til þess ad hártoga marg- ar greinir Ritníngarinnar sér í hag, svo- leidis ad þær þecktust valla. Hinir sem gjørdu skynsemina ad ædsta dómara í trú- arbragda søkum, komast líka í nógar krøgg- ur, því þad sem einum þókti skynsemi þad

þókti ødrum óskynsemi. Þeir vóru minntir á, ad í eingum manni byggi øll skynsemi, heldur hefdi sinn molann hver þeirra feingid, og bágt væri um ad dæma hver molinn væri stærstur. Því mundi eins haganlegt ad lesa saman úr Ritníngarinnar fjársjódum þá andlegu speki, eins og leita hennar hjá manna skynsemi; sem hvergi finnst heil. Þó þetta stríd væri ecki alltíd sókt eda varid med þeirri gjætni og stillíngu er best sæmir lærdum-mønnum, hafdi þó kristin trú tøluverdann hag af því. Mørg mikilsverd sannindi bárust í tal og útdreifdust. Þeir sem ecki blindudust af strídsins riki, heldur stódu fjær, tíndu þessi sannindi saman og upplýsíngin þróadist. Menn leiddust til ad ransaka betur trú sína enn ádur hefdi verid gjørt. Nockrir létu þad verda adal ástundun síns lífs, ad grenslast eptir, med hverjum ordum bædi hid Gamla- og Nýa-Testamenti mundi í fyrstunni hafa verid skrifad, því nockur ordamunur, þó hann sé ecki stór, finnst í þeim gømlu handritum sem til eru af þeim helgu bókum. Menn létu ecki hér vid lenda, menn ransøkudu og þær eldstu útleggíngar Ritníngarinnar í øllum málum, til þess ad géta

þar af vitad, hvert þessar útleggíngar væru gérdar eptir vidlíka handritum og enn eru til af Biblíunni. Af þeim mørgu sem unnid hafa ad þessu torvelda og þarflega starfi, nægir hér ad nefna tvo Þýska menn J. D. Michaelis sem dó 1791, og eyddi sínu lífi, mest til Gamla-Testamentisins ransóknar, og Jóhann Griesbach, sem lifdi seinast á lidinni øld; þessi vann mest ad því ad útvega réttann texta Nýa-Testamentisins. Pared nú allir sjá, hvad mikid er í þad varid, ádurenn segja skal hvad Ritníngin vafalaust kénnir, ad vita med hverjum ordum þeir helgu menn í fyrstu skrásettu Ritníngarinnar bækur, svo munu þeir finna sér skyldt ad heidra minníngu þeirra manna, sem eyddu sínu lífi til svo mikilsverdra framqvæmda.

En þó þad meigi nú heita svo sem kristin trú hefdi ecki allann skada af þeim Ritum sem út komu seint á lidinni øld, um þad efni er nú hefir verid á vikid, komu jafnframt nockrar ritgjørdir út, sem sýndust mundu ætla sér ad steypa kristninni. Þegar nefnilega: þeir sem vildu rýra Ritníngarinnar álit þóktust hafa borid lægri hluta í sínum røksemdum, féllu nockrir

uppá það snjallræði að hæðast að øllum krist- inndómi í sínum ritum; blénduðu þeir þá gjarnan saman bæði því Ritníngin kénnir, og þeim trúarbragða meiníngum sem við- teknar vóru svo sem einar réttar í kristn- um søfnuðum. Nafnkénndastur er, af þeim sem tóku í þennann streinginn, lærður fransk- ur maður að nafni Voltaire (Voltére) dá- in 1778; þessi Papiski gáfumaður byrjaði að géfa út bækur á únga aldri, þær vóru gáfnalega orðaðar og mikið skémtilegar, sem kémur sér vel hjá þeim, sem lesa bækur ein- úngis sér til skémtunar, og þeim sem lifa við hyrðir Kónganna. Sumar af þessum bókum vóru stílaðar gégn trúnni, en í flest- um var eitthvað við henni hnjátað. Fyr- ir þetta sitt fyrirtæki var hann offsóktur og margar hans Ritgjørðir dæmdar á bál í hans føðurlandi. Þetta hafði þann ven- julega ávøxt, að menn sóktust því meir ept- ir að lesa rit hans, og fáir lásu þau svo, að þeirra greind viltist ecki á afvegu. Upp frá því að þessi rit og margra annara sem í sama streingin tóku, útbreiddust um Norðurálfuna, fór að minnstakosti sú ytri guðsdýrkun að afrækjast; margir breyttu eins og þeir væru trúlausir, og sumir, þó

þeir hefdu einhverja trú; því svo er madur-inn gérdur, ad ecki mun þad svo hægt, ad vera án trúar, þó létust þeir vera trú-lausir, til þess heldur ad géta verid í manna tølu, því spekíngar og høfdíngar allmargir urdu heldurenn ecki fráhverfir trúnni, um þær mundir. Þad gérdi ecki heldur lítid ad verkum hversu sá mikli Preussa Kóngur Fridrik 2ar, er ríkti frá 1740 til 1786, var kristinni trú fráhverfur. Um tíma var Voltaire hans átrúnadar god, hann hafdi kallad hann til sínnar hyrdar og veitt alla møguleg a vyrdíngu; bádir løgdust á eitt, þángad til snérist uppí vinskapinn, ad ríra trúarinnar veldi. Í fleirum løndum Nord-urálfunnar komu út gissullar ritgjørdir móti kristinni trú, og líka í Danmørk; móti hver-jum Sjálands Biskup Balle og Stiptamt-madur Fleischer skrifudu merkileg rit, fyr-ir og um seinustu aldamót, sem géra sóma þeirra minníngu. Þad er medfram talin svo sem ávøxtur þeirra rita sem gért høfdu, helzt í Fránkaríki, gis ad trúnni, ad kristinndémur var þar um tíma med løg-um aftekinn, nefnilega: í þeirri fyrri stjórn-arbiltíngu frá 1793 til 1802. Med þraut gat Erki-biskupinn í París, med sínum dugnadi

fengid leyfi til þess, ad nockurskonar trúar-brøgd mættu lídast í landinu, en ecki máttu þau kristin heita. En strax sem Napóleon hafdi fengid ædsta vald í ríkinu, vóru þar aptur innleid þau Papisku trúarbrøgd, og jafnframt vóru øll trúarbrøgd tekin undir laganna vernd; svo allt komst aptur í sama horf sem ádur. Menn hafa sídan farid hægra ad því ad géra lítid úr trúnni, og margir munu komnir á þá meiníngu, ad eins muni þurfa løgsetta trú, eins og menn þurfa ønnur løg enn náttúru løgmálid, og ad mannsins náttúruljós í gudlegum efnum, muni ei øllu einhlýtara helldurenn náttúr-leg tilfinníng hins rétta og ránga reynist í þeim efnum, er vidkoma vidskiptum manna innbyrdis í borgaralegu félagi. Kannské menn líka hafi hugleidt ad trúin sé fram-ar gérd fyrir mannsins hjarta helldurenn fyrir hans ígrundan.

72. **Hverr hafa verid kristninnar kjør nú á seinni tímum?**

Allir stjórnendur Ríkjanna hafa komid sér saman um ad leyfa sínum þegnum ad fylgja hverjum þeim trúarbrøgdum í út-vortis gudsdýrkunum sem þeim sjálfum þækti

best ad fylgja *). Offóknir, vegna mis= munandi trúar, eru því ad mestu leiti á enda, því þad telst ecki, þó heldur sé mál. um hallad í vissum löndum á þann trú= arbragda söfnud sem minna bolmagn hefir af sér ad rétta. Einstakir menn hafa breytt trú sinni vid og vid, en óvíst hvört þad ætíd hefir skéd eptir bestu sannfæríngu eda hvört lífsins kríngumstædur hafa því oll= ad, þar um getur einginn, nema hvers eins eigin samvitska, vitni borid. Hvörgi er samt meira trúarbragda frelsi heldurenn í Vesturálfunnar nyrdri fríríkjum, því þad má heita hérumbil trúar sjálfrædi sem þar vidgengst; Ríkisstjórnin skiptir sér eckért af nockurs manns trúarbrögdum. Kostar ecki uppá uppfrædíngu í trúnni eins og í ödr= um greinum mannlegrar þeckíngar; leyfir hvörjum söfnudi ad velja sér Presta, og líklega, þeim sem vilja, ad vera án Presta. Hvörnig þad getur blessast mun tíminn sýna, en svo mikid er víst, ad séu þær sögur sannar sem þadan berast um þeinkíngar hátt manna, þá vantar mikid á ad þjóda þessara sidgjædi sam= svari þeirra tímanlegu velgeingni og audlegd.

*) Leingra nær ecki þad veraldlega vald.

Páfavaldinu hefir mjøg farid hnignandi á seinni tímum; þad má svo heita sem hann hafi ecki øllu meira eptir enn nafnid af því óttalega valdi sem fordum allflestir skulfu fyrir. Medal margra annara gérdu Þýskalands Keisarar og Fracklands Kóngar einart Páfanum lágt undir høfdi. Ordlagt er þad hversu Jóseph 2ar Þýskur Keisari eptir 1784 var Páfanum erfidur; rírkadi bædi Páfavaldid og Páfans tekjur í sínum erfdaríkjum, svo ad hann mátti hafa þad svo búid. Medan Napóleon stýrdi Fránkaríki hafdi Páfinn þar lítid ad segja; 1799 dó Páfi Píus 6ti í vesøld í Valence, þángad fluttur sem fángi af Frønskum. Arid 1808 lét Napóleon taka ríkid í Vallandi af Páfa Píus 7da og árid eptir lagdi á hann úrskurd, ad hann hefdi fyrir sína þverúd brotid af sér þad ríki Karl Mikli hafdi hans formønnum lénad. En þessi Páfi var nockud þéttlyndur og vafdist fyrir; hann óttadist hvorki fángelsi né misþyrmíngar, er hann vard ad reyna. Tímanna kríngumstædur gérdu þad ad verk-

um ad hér hafdi sá þráasti sitt mál, því þegar þad loksins tókst ad fella Napóleon frá ríkjum, nádi Páfinn aptur sínu ríki ó-skérdtu, àd hverju hans eptirmenn enn nú sitja; en í annara ríkjum er vald Páfans mikid lítid.

Sú gledilega fregn má og hér meddeil-ast, ad sá óttalegi ransóknar-réttur (*in-qvisitio*), sem fyrrum var løgbodinn í fleir-um Papiskum løndum, og um hvørs réttar óhæfur á Spáni, miklar søgur hafa geng-id, er nú loksins undir lok lidinn, til ecki lítils fagnadar fyrir alla menn sem elska sann-sýni og mannkjærleika. Hann var med løgum aftekinn árid **1820** á Spáni. Í eingù landi hafdi hann verid eins óttalegur og þar, og ótrúlegt er hvad leingi hann gat til verid á þessum svo kølludu upp-lýstu øldum.

Auk þess sem kristilegir Kóngar, helzt á Nordurløndum, hafa ætíd látid sér annt um ad útbreida og vidhalda kristilegri trú í þeim løndum hvar þegnar þeirra hafa sett nýlendur, hafa á seinast lidinni øld og á

þessari, Félög hafist, sem géra það sér að skyldu að útbreiða, sem víðast þeir géta yfirkomist, þeckíngu kristilegrar trúar í heiminum. Af þesshátttar félögum má hér nefna sem þau helztu: Það í Lundúnum stiftaða 1795; í Boston 1810, Basel 1816, Berlín 1823. Það fyrst nefnda, sem mun vera hið auðugasta, átti svo mikinn sjóð á rentu, 1810, að árleg renta þess reiknaðist þá 42,400 rbd. (sjá Oudlegs Analys: bls. 552). Með ærnum kostnaði annast þessi félög að efnilegir menn mentist svo í túngumálum þeirra þjóða, er þeir skulu snúa til kristni, að þeir géti orðið til þess hæfilegir, svo kosta þau uppá ferðir þeirra til þeirra landa hvar þeir skulu kénna og gjalda þeim tiltekin laun meðan þeir vinna að þessum störfum. Lærðir menn eru þannig árlega sendir til ýmsra landa, hinna veraldarpartanna, í þessum eyrinda gjörðum, sem vinna hér að leingri eða skémri tíma, eptir sem heilsa þeirra og aðrar kríngumstæður leyfa, eða eptir því sem þeir í upphafi hafa undirgéngist. Misjafnt verður nú ágeingt

í þessu verki í heiminum, sem nærri má géta, ávøxturinn hlýtur ad fara bædi eptir dugnadi þeirra sem sendir eru, og eptir kríngumstædum þeirra landa, hvørt þeir eru útgérdir med þann gledilega bodskap; svo mikid er þó áunnid ad valla er til nockur sá afkymi heimsins, ad Krists nafn sé ecki þángad komid, og á mørgum stødum hafa menn lært ad beiga sín kné fyrir því. Þess má líka hér minnast, ad nockur, enn þótt lítill, styrkur er hédan frá landi sendur, ef ecki árlega þá samt vid og vid, þeim féløgum sem hafa hafist til þessa hrósverda fyrirtækis.

Þau loflegu Biblíu Følög sem hafist hafa á þessari 19du øld vídast hvar í Nordurálfunni, hafa líka ordid hinum fyrrnefndu féløgum ad miklu lidi, med þad slag, ad þau láta af hendi vid þá sem sendir eru til ad boda kristni útum heiminn, Biblíur og Nýa-Testamenti í túngumálum þeirra þjóda sem þeir eru sendir til ad kénna.

Þad fyrsta og markverdasta Biblíu-Félag sem til hefir ordid á þessari øld, er

þad svo kallada Enska og útlenda Biblíu-Félag. Þad hófst af litlu atviki og litlum stofni, eins margt hvad er mikill vøxtur er ætladur. Árid 1804 kom Prestur frá héradinu Wales í Englandi til Lundúnaborgar. Hann lætur í sjósi vid vini sína, sem hann hitti þar, ad sér gérdi ecki litla hindrun í embættisverkum, ad í sóknum sínum væri valla Biblíu ad fá, svo sóknar fólk sitt væri henni lítid kunnugt. Þegar vinir Prestsins heyrdu þetta, vóru þeir ecki seinir til ad skjóta saman peníngum og útvega tilløg vina sinna til þess ad útvega Biblíur á (Waliska) túngu. En strax sem þetta var komid í gáng, hugsadist mønnum, ad vídar mundi vera ekla á Biblíum og Nýa-Testamentum heldurenn í þessari einu sókn; eins og þeim leitst þad gott verk, ad sjá til þess ad ecki stædi þetta í vegi útbreidslu kristilegra fræda, og hófst þad merkilega Biblíu-Félag, sem færdist í fáng ad sjá um þad, fyrst, ad enginn vantadi Guds ord sem væri undir Enskum løgum; og sídan ad allir kristnir menn

gjætu fengid annadhvert keiptar fyrir lítid verd eda géfins þær helgu bækur. Lord Theignmouth vard forseti þessa félags, og er nú nýdáinn. Med ótrúlegu kappi og kostnadi tók nú félagid til starfa, sjálft hafdi þad látid prenta Biblíuna eda part af henni átid 1821 í 132 túngumálum, og í 84 þessara túngumála hafdi hún ei ádur verid prentud. Í 7 túngumálum hafdi þad látid prenta nýa útleggíngu Biblíubókanna, þegar medtelst Nýatestamentid, sem þad lét snúa á Hebresku fyrir Gydínga. Kostnadur sá sem þetta fyrirtæki hafdi þá kostad var ordin 7,265,988 rbdl. Silfurs. Biblíufélaga talan í því enska ríki í Nordurálfunni var þá ordin 650, og hjálparféløg yfir 1000. Þetta sama markverda félag hafdi þá komid því til vegar ad fleiri enn 600 Biblíufélög vóru tilordin í Nordurálfunnni, (þar á medal hid danska og íslendska sem fyrst urdu til 1816) og mørgum ef ei øllum þessum félögum lagdi þad enska tøluverdann peníngastyrk; en meir enn 4um milliónum af Biblíunum og Nýa-Testa-

mentum var þó þetta sama félag búid ad útbíta, og mikla þar af géfins. Vitlega var og hér ad øllu farid; félagid gérdi sér ad reglu ad útgéfa á prent eintómann texta Ritníngarinnar án allrar útlistunar á meiníngum, svo bókin yrdi því medtækilegri fyrir alla kristna og eínginn gæti sagt ad Guds ord væri afbakad; formálum var slept, sømuleidis þeim Ritníngar bókum sem kallast apocryfiskar, því þær eru hjá sumum kristnum søfnudum í minna gyldi heldurenn hinar. Í øllum løndum var þessu fyrirtæki vel tekid. Kóngarnir løgdu þeim Biblíuféløgum sem hófust í þeirra ríkjum tøluverdann peníngastyrk. (Kóngur vor géfur því íslendska árlega 60rd. Silfurs). Til þess má taka hvad stórkostlega rausn Keisarinn í Rússlandi Alexander 1ti sýndi því Biblíufélagi sem í hans ríki hófst 1812. fyrst gaf hann því 25,000 Rublur, (Rubla er hartnær Specía) og hét því árlega 10,000 Rublum. Ad þad hafi verid þessari rausn ad þacka ad hann gat brotid Napóleon á bak aptur, þá hann sama árid hafdi vadid inn í hans ríki,

(sjá *Owen's History of The Bibl. Soc. Vol.* 2. *bl.* 247. *sq*), vil eg ei verda til ad fullyrda.

En hid enska Biblíufélag hefir eim meira unnid ad útbreidslu Biblíunnar. Pad hefir gért út menn um heims álfurnár, med fjársjódu Guds orda, og látid þessa menn géfa bædi Biblíur og Nýatestament hartnær hverjum sem vid vildi taka, og líka selja fyrir lítid verd, svo þecking kristilegrar trúar hefir líka beinlínis af þess tilverknadi vída útborist, og þad svosem í kirrþey, er opt hefir meiri árángur heldurenn skøruglegasta prédikun. Medal kristinna safnada hefir þetta sama félag ordid sátta midill, því þad hefir minnt alla kristna søfnudi á, ad sama sé uppsprettan hvar af allir ausi þeckíngu sinnar trúar sem kristnir vilja heita. Jafnvel er þess gétid ad sumir Gydíngar hafi látid sig leida til kristni fremur enn ádur, eptir ad þeir gátu lesid Nýa Testamentid á Hebresku, (sjá Dubl. Anal: bl. 88 og fl). Medal Papiskra hefur og miklu verid útbýtt af Biblíum og

Nýa = Testamentum, og sjálfir þeir papisku Prestar hafa ei viljad vid þad kannast, ad papiskum leikmønnum sé bannad ad lesa Ritnínguna. Papiskur Prestur í Schvaben skrifadi einum Secret. þess enska Biblíufélags 18da Oct. 1804 svo látandi: „þíngid í Trídent (sem stód frá 1545 til 1563) hefir qvedid svo ad ordi: *indiscrimata lectio sacræ Scriptnræ interdicta est.* Þessi ord hafa allir upplýstir papistar svo skilid, ad ecki meigi fá almenníngi í hendur án mismunar allar bækur Bibliunnar, og þad einkanlega vegna sumra bóka Gamla Testamentisins. Þetta hafa þeir geistlegu í Þýdskalandi ei nockurntíma álitid skuldbindandi fyrir alla; en hjátrúarfullir og fávísir papistar hafa látid sér annt um ad útbreida þá villu, ad leikmønnum sé bannad ad lesa Biblíuna. Margir geistlegir mæla samt fram med Biblíunnar og einkum Nýa Testamentisins lestri, og róa þar ad øllum árum ad Ritníngin verdi lesin af sem flestum." Einginn medal Papiskra hefir samt meir ad því nnnid ad frama Biblíunnar brúkun hjá

papiskum í Þýdskalandi, helcurenn *Dr.* Leander von Ess í Darmstadt, sá sami sem bædi hjá papiskum og Lúterskum hefir fengid á sig mikid ord fyrir útleggíngu Nýa Testamentisins á Þýdsku.

## Framhald Biskupa æfanna,

(sjá bls. 299).

### 1) Í Skálholts Stifti.

12) Hannes Finnsson fæddur 8da Maii 1739. Arid 1775 var hann kalladur Dómkyrkju prestur til Skálholts, og af Konúngi jafnframt útnefndur Stiftprófastur í Skálholts Stifti, tók hann sídan med Kóngsleifi Prestvígslu í Kaupmannahöfn þann 22an Martii 1776; á næsta ári var hann 12ta Martii af Konúngi skickadur Biskupinum í Skálholts Stifti *Dr.* Finni Jónssyni til adstodar í embættinu, og ad verda hans Eptirmadur; tók hann svo sama ár Biskupsvígslu þann 11ta Maii. Arid 1790 vard hann *Doctor Theologiæ.* Deydi 4da Augúst 1796.

13) Geir Jónsson Vídalín fæddur 27da Octóber 1761. Var af Biskupi Hannesi Finnssyni kalladur, og af Konúngi stadfestur Dómkyrkjuprestur til Reykjavíkur 1791, vígdist 11ta September sama ár. Hann 10da Maii 1797 var hann skickadur Biskup yfir Skálholts Stifti, vígdist ad Hólum þann 30 Júli sama ár, og var sídar þann 2an Október 1801 allranádugast settur Biskup yfir øllu Íslandi. Hann 28da Október 1817 var hann af Konúngi útnefndur Riddari af Dannebrogen, en deydi þann 20 September 1823.

14) Steingrímur Jónsson fæddur 14da Augústi 1769, var þann 26ta Apríl 1805 af Konúngi skickadur Lector Theologiæ og efstur Kénnari vid Latínu Skólann á Bessastødum, þar næst þann 16da Febrúar 1810 Sóknar prestur til Odda á Rángárvøllum, þángad vígdist hann þann 21ta Apríl ári sídar, og vard Prófastur í Rángárþíngi 23ja Januarii 1812. Þann 12 Maii 1824 var hann skickadur Biskup yfir Íslandi, og tók hann Biskupsvígslu í Kaupmannahøfn 2an

dag Jóla sama ár. Arid 1828 1ta Nóvember feck hann af Koníngi nafnbót: Riddari af Dannebrogen, og 1836 28dá Októbr, Dannebrogsmand.

2) Í Hóla Stifti.
(sjá bls. 304).

11) Jón Teitsson fæddur 8da Augúst 1716, var fyrst Prestur í Otrardal 1740 og frá því 1743 einninn Prófastur í Barðastrandar Sýslu, þareptir feck hamn Gaulverjarbæar og Stockseyrar kall 1755, og Arness Sýslu Prófastsdæmi 1775. Hann sigldi til Kaupmannahafnar 1779, vígdist Biskup til Hóla 7da Maii 1780, kom þángad 23ja September sama ár. Deydi þann 16da Nóvember 1781. Hans æfisaga er prentud á Hólum 1782.

12) Arni Þórarinsson fæddur 19da Augúst 1741, vígdist Prestur til Seltjarnarnes þínga 2an Júlii 1769 og vard Prófastur í Kjalarnes þíngi 1781, sama ár var honum veitt Odda prestakall í Rángárvalla Sýslu, hvørt hann flutti sig 1782;

fékk hann þá samsumars Konúnglega skipan ad koma til Kaupmannahafnar, og sigldi þó ei fyrri enn um haustid 1783. Vígdist Biskup til Hóla 2an dag Páska 1784, og komst þángad þann 24da Agúst sama ár. Deydi 5ta Júlí 1787. Hans æfisaga er prentud í Leirárgørdum 1800.

13) Sigurdur Steffánsson fæddur 1744 á Høskuldsstødum, var Conrectór á Hólum 5 ár frá 1768 til 1773, hann vígdist Prestur til Mødruvallaklaustur kalls í Eyafjardar Sýslu, þareptir fékk hann Helgafell 1781 og vard Prófastur ári sídar í Snæfellsness og Hnappadals Sýslum. Hann vígdist í Kaupmannahøfn Biskup til Hóla, og var þar sídastur Biskupa. Vígdi hann árid 1797 á Hólum Geir Jónsson Vídalín Biskup í Skálholts Stifti, sídar yfir øllu Íslandi. Deydi 24da Maii 1798. Verdúng edur æfisaga hans er prentud á Hólum 1799.



73. Hefir nockur markverd umbreyting gérst hér í landi á þessum seinustu árum hvad kristilega kyrkju áhrærir.

Ecki nema þad skyldi svo meiga heita þegar, rétt eptir seinustu aldamót, Biskupsstóll sá sem var á Hólum og Skólin þar, niðurlagdist, eda sameinadist vid Skálholts Stól og Skóla*); þókti einn Biskupsstóll og einn Skóli meiga duga fyrir Ísland eptir landsins fólksfjølda; menn héldu líka þessi umbreyting mundi spara kostnad, þó eg ætli þad hafi farid ødruvísi. Þessari tilbreytni vard samfara sala þeirra fasteigna sem láu undir hvorutveggja þennann Biskupsstól, og var andvirdi þeirra inntekid í Kóngsins fjárhyrdslu, en Kóngur géfur aptur laun Biskupnum og kostar Skólahaldid. Þegar jardir þær sem Hólastóll átti vóru seldar, mistu mørg prestakøll nordanlands tøluverdann part af inntekt sinni, ad svo mikluleiti sem þeim høfdu goldist leigur af sumum Stóls jørdunum, sem ei gátu eptir þad feng-

*) Er nockrum árum ádur hafdi verid fluttur i Reykjavík ul: 1785.

ist, ad jardirnar vóru seldar og hefur híngad til eingin leidrétting þar á feingist, svo fúslega sem flestir menn vidurkénna, ad prestaköllin høfdu ecki af miklu ad missa.

Tvø féløg hafa verid stiptud á Íslandi á þessum árum til eblingar Upplýsíngar og Gudrækni. Hid fyrra sem hófst nockru fyrir aldamótin stýrdi medan þad var til, *Conferencerád Dr.* M. Stephensen, lærdur dugnadar madur; þad félag gaf út ei ad eins húslestra bækur heldur og adrar, midandi til almennilegrar mentunar og sidbóta. En þad félag gat ecki leíngi stadid, því bækurnar vóru ecki svo eptir almenníngs gédi ad fyrirtæki þettad gjæti svarad reikníngi. En ecki gat sá, sem fyrir útgáfu bókanna stód, fengid af sér ad láta prenta þad útgeingilegasta, þegar hann ecki undireins áleit þad hid uppbyggilegasta.

Hid annad félag kalladi sig hid evangeliska smá bókafélag; þess ritgjørdir mida til þess ad ebla gudrækilegt sinnislag; þad skal utanlands frá hafa feingid tøluverdann peninga styrk til prentunar sinna ritgjørda er þad útbitir géfins, eda lætur sérhvern

ráda hvad hann gefur fyrir þær og trúi eg mörgum verdi, ad láta heldur lítid enn mikid af hendi rakna. Á seinni árum er, ad eg ætla, lítid af þessu félagi útgefid. Presturinn á Modrufelli Síra Jón Jónsson er og hefur verid þess forstødumadur.



## Prentvilla:

Blſ. 115 línu 1tu: Vibætir les: Vidbætir.



